# LÍTIL

# VARNÍNGSBÓK,

HANDA

## BÆNDUM OG BÚMÖNNUM Á ÍSLANDI,

SAMIN EPTIR YMSUM SKÝRSLUM

AF

JÓNI SIGURÐSSYNI.

PRENTUÐ Á KOSTNAÐ DÓMSMÁLASTJÓRNARINNAR.

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU HJÁ THIELE.

630.9491
+ 639.2491
+ 382.09491
Jam

# LÍTIL

# VARNÍNGSBÓK,

HANDA

BÆNDUM OG BÚMÖNNUM Á ÍSLANDI,

SAMIN EPTIR YMSUM SKÝRSLUM

AF

JÓNI SIGURÐSSYNI.

Prentuð á kostnað dómsmálastjórnarinnar.

KAUPMANNAHÖFN.

í prentsmiðju hjá Thiele.

1861.

Hver tími hefir sínar þarfir og sitt ætlunarverk, og það er hinn sanni gæfuvegur eins þjóðanna eins og hinna einstöku manna, að kunna skýrt að sjá hvað fyrir hendi liggur á sèrhverjum tíma, og að hafa manndáð og samtök til að fylgja því fram. Einn af vorum mönnum hefir sagt, að ef fólkið þyrði að treysta guði og hrista hlekkina, mundi Ísland eiga enn góðs að bíða. Þeir hlekkir, sem hann líklega helzt hugsaði þá um, hafa verið hristir, og einn hinn öflugasti úr þeim er sundur hrokkinn, en þegar hann fèll niður, þá sjáum vèr þar undir aðra, sem mörgum þykir mýkri að þreifa á og viðfeldnari að bera, en sem eru að sínu leyti eins fastir og skaðvænir og eigi síður, og það er vaninn, eða rèttara að segja óvaninn. Franklín sagði: »Letin tekur af oss tvöfaldan skatt, hègómaskapurinn þrefaldan og heimskan fjórfaldan«; en það mætti kannske engu síður segja um oss Íslendínga, að vèr værum ekki þar eptir latir, sem vèr værum óhagsýnir í vinnu vorri og ólaglegir að neyta krapta vorra og búa oss í hag. Vèr erum eins og karlinn, sem ók hjólbörum og hitti fyrir þúfu, hann var heilan dag að streytast við að aka yfir þúfuna, en datt ekki í hug að fara utanvið hana eða ryðja henni úr vegi; vèr berjum landsynnínginn löðursveittir dag fram af degi, en að hafa góða báta til að sigla hann, þar höfum vèr ekkert lag á; það á að vera ómögulegt. Fimm og sex vinnumenn og eins margar vinnukonur standa allt sumarið á höfði í þúfum og grjóti, til að heyja fyrir sex kúm, en að láta

þetta fólk taka skorpu í að bæta jörðina og gjöra hana frjósamari og auðunnari, þar um heyrist lítil fregn; og þó enginn geti neitað, að einn vinnumaður og ein vinnukona gæti fengið meira hey á hálfum mánuði, ef jörðin væri slètt og ræktuð, en tólf hjú heyja nú allt sumarið, þá er þessu enginn gaumur gefinn. Þó er þetta grundvöllurinn fyrir allri búsæld og öllum framförum á landinu. Nú virðist oss vera þörf tímans, og hið næsta ætlunarverk sem fyrir hendi er, að leita lags oss sjálfum til framfara og hagsælda, og hugsa um það eitt, hvað gagnlegt sè í þessu efni, hvort sem það er vani eða vani ekki. Ef að vèr getum ekki orðið samhuga í þessu, sem þó vonlegt væri, þá verður þó vonum vèr sá flokkurinn drjúgari, sem vill stunda framför og gagn landsins, heldur en hinn, sem vill að landar vorir skuli enn um sinn »sem gyltur grúfa«, og fylgja engu nema því, sem eru reglur almúga og vani frá átjándu öld. Vèr sem framfarir viljum höfum þó ætíð tímann með oss og lífið sjálft, vèr munum ná með oss hinum úngu, sem hafa heilbrigða sál í heilbrigðum líkama, og smásaman hinum eldri, en þeir sem eptir verða munu verða annaðhvort að náttröllum og daga uppi, eða þá deyja út í eyðimörkinni. af því þeir þekktu ekki sinn vitjunartíma. Það eru einnig mikilsverð hlynnindi, að vèr getum vænt að fá stjórnina í lið með oss, því hèr er um þau mál að ræða, að stjórn og þjóð, embættismenn og alþýða, kaupmenn og kotúngar, geta allir verið samdóma og styrkt hver annan; hèr er um allra sameiginlegt gagn að gjöra. Vèr skulum því ótrauðir hvetja hver annan til framfara og framkvæmda, fulltrúa um, að gott mál vinni sigur um síðir.

Margir sáu það ljóslega, þegar lögin um almennt verzlunarfrelsi Íslendínga við allar þjóðir komu út 15. April 1854, að þá var mikil breytíng gjör á því sem áður var. Þó hafa menn ekki almennt gjört sèr þetta svo ljóst, sem vænta mátti, svo að sumir hafa viljað láta í veðri vaka, að

allt væri óbreytt eins og áður; öðrum hefir þótt vanta ýmislegt, til þess að fullkomna lög þessi, og þótt þau fyrir því lítils verð; sumir hafa jafnvel stúngið uppá því, til að fullkomna þau, sem mundi að skömmu bragði eyðileggja alla þeirra góðu ávöxtu, ef því yrði framgengt; og enn hafa sumir, ef til vill, haft miklu meiri vonir um, hvað verzlunarfrelsið mundi sjálfkrafa gjöra að verkum, heldur en fram hefir komið, en ekki gætt þess, að öll lög þurfa framkvæmd og aðfylgi þeirra, sem notin eiga að hafa, til þess þau geti að fullu gagni orðið. Þetta hafa og fundið nokkrir menn, og því höfum vèr sèð nokkrar áskoranir og upphvatníngar í blöðum vorum, til þess að koma sèr saman um, á hvern hátt bezt væri að nota verzlunarfrelsið, munu án efa margir hafa gefið þeim gaum, þó ekki hafi heppnazt að sameina öfl landsmanna til þess sem gjöra þurfti, og sem stendur í þeirra valdi, ef þeir að eins vilja neyta sín og gæta sinna eigin gagnsmuna.

Til þess að fá glögga og greinilega hugmynd um, hvað vèr þurfum að gjöra, til þess að ná smásaman fullum notum verzlunarfrelsisins, verðum vèr að hafa ljósan skilníng á, hver umbót þarmeð sè fengin á hinum almennu reglum viðvíkjandi stjórn Íslands, og hvern þátt vèr getum tekið í því sem gjöra þarf, til þess, að þessi umbót geti orðið oss sem gagnlegust.

Með hinu almenna verzlunarfrelsi er oss opnað hið fyrsta stig til sjálfsforræðis. Þó misjafnlega hart hafi verið kreppt að verzluninni á Íslandi, þá má þó segja, að frá því hún var lögð í hendur Björgynjarkaupmönnum á fjórtándu öld, hefir hún aldrei um frjálst höfuð strokið, og ástand landsins hefir farið þar eptir. Vèr getum jafnvel með sanni sagt, að upp frá því gamli sáttmáli var saminn við Noregs konúng, og hann var skyldaður til að sjá um, að nokkrir farmar kæmi til landsins á hverju ári, þá hafa Íslendíngar gjört sig öðrum háða, og orðið fyrir hinum

sömu forlögum, sem allir þeir er svo breyta, að kasta áhyggju sinni uppá aðra menn. Þeir hafa mist alla þá tryggíngu sem þeir ætluðu að ná, að halda landinu byrgu með nokkrum aðflutníngi; þeir hafa mist traustið á sjálfum sèr, sem öllum er nauðsynlegt, og með því samheldið og viljann til að hjálpa sèr sjálfir; þeir hafa mist hinn alþjóðlega anda til allra framkvæmda, og orðið kotúngar, hver einstakur hugsandi um sig og sitt ímyndaða gagn, og hokrandi hver sèr í sínu horni, samtakalaust og framkvæmdalaust; þeir hafa mist efnin með framkvæmdunum, og daungunina með dugnaðinum. Og það sem verst er, þeir hafa mist um leið skarpleika sálarinnar til að sjá hinar sönnu orsakir til báginda landsins og apturfarar, og hafa kennt guði og náttúru landsins um það, sem mest var mönnunum að kenna. Að vísu hafa menn á seinni tímum sèð betur fram á hið rètta í þessu máli, og stjórnin hefir látið svo mikið að óskum og kröfum vorum í því efni, að vèr getum nú fyrst sagt, síðan 1262, eptir 600 ára fángelsi, að vèr getum í verzlunarefnum lifað og látið sem vèr viljum, eða sem vèr höfum efni og eljun til; — og hvers geta duglegir þrekmiklir menn óskað sèr annars eða betra en þess? — Með því að nota þetta frjálsræði, sem vèr nú höfum áunnið, getum vèr áunnið þá framför í efnahag og öllum framkvæmdum, sem geta opnað oss veg til alls þess sjálfsforræðis fyrir málefnum vorum, er vèr þurfum að hafa, og sem enginn mun neita oss um, eða geta neitað oss um, þegar vèr sýnum í verkinu, að vèr sèum færir fyrir því.

Þessi mikla þýðíng verzlunarfrelsisins hefir ekki heldur verið dulin fyrir stjórninni. Í brèfi innanríkisstjórnarinnar 29. Januar 1855 er það þegar tekið fram, að Íslendíngar verði sjálfir hèðanaf að vera sèr úti um aðflutnínga, því stjórnin þykist ekki lengur sèrstaklega skuldbundin til að skerast í það mál, síðan verzlanin sè orðin frjáls við allar þjóðir. Þetta hið sama er tekið fram enn á ný í brèfi

»dómsmálastjórnarinnar« 29. Septbr. 1860 (Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands I, 388). Þetta kann nú að vísu í fyrsta áliti að virðast nokkuð ósanngjarnt, eptir að Ísland hefir verið undirlagt hinu mesta verzlunarófrelsi um mörg hundruð ára, og alþýða með því vanizt á, fyrir tilstilli sjálfrar stjórnarinnar, að leita ekkert fyrir sèr sjálf, eða hafa samtök til neinna framkvæmda sèr til bjargar og atvinnu, nema að leita sýslumanns og amtmanns, til að skýra stjórninni frá skortinum og biðja hana ásjár; en þessi bendíng er samt, eða ætti að vera, nóg hugvekja fyrir oss, til þess að taka upp þá götuna sem oss er vísað á, og oss sjálfum er til gagns að fara. Ef vèr ekki vílum fyrir oss að taka þann veginn, og vèr fylgjum honum með samheldi og dugnaði, þá verður skammt að bíða, að vèr sjáum velmegun og framfarir, kunnáttu og mentun, ánægju og gleði, ávaxtast og eflast á landi voru.

Sá var tíminn, að það var almenn hugsan meðal Íslendínga, að landinu væri engra framfara auðið, heldur væri það allajafna að gánga úr sèr, og mundi smásaman eyðast meir og meir, þar til það fèlli í grunn. Þessvegna er það orðinn gamall spádómur, sem eignaður er Jóni krukk, að »af lángviðrum og lagaleysi mun land vort eyðast.« Á vorum dögum eldir að vísu ekki lítið eptir af þessum hugsunum, en þær koma þó fram á annan hátt, og í ymsum hvikulli myndum en fyr, sem bendir til að þær muni smásaman dreifast og hverfa. Áður fyrri, meðan fólkið á landinu fækkaði statt og stöðugt, þá höfðu menn búið sèr til þá áætlun, að Ísland mundi vera í auðn að hundrað árum liðnum; það svarar því svo sem um vora daga. Nú, síðan menn gátu ekki neitað því að fólkið fjölgaði, hafa menn ýmist verið hræddir um það fjölgaði um of, eða það mundi hrynja þegar minnst varði allt í einu. Þeir gæta ekki þess, að fjölgan fólksins stendur í óslítanlegu sambandi við atvinnu þess og efnahag, svo að

þegar veruleg og stöðug framför er í öllum atvinnuvegum, þá þarf ekki að kvíða því, að fólk fækki að staðaldri, heldur mun það miklu framar fjölga að því skapi, sem atvinnuvegirnir ýtrast þola. Sumir æðrast, þegar þeir sjá svo mart og mikið ónotað bæði á sjó og landi, sem gefur mönnum annarstaðar ríkulega atvinnu, og telja það eina ráðið, að menn fengi útlenda menn í landið, sem hefði kunnáttu nóga og fè, til að efla atvinnuvegu landsins og koma þeim á fót, líkt eins og Þorkell Fjeldsted á sinni tíð, sem vildi láta útlenda menn nema land að nýju á Íslandi, til að koma lífi í hina hrörnuðu kynslóð, sem þá var uppi; en þeir gæta ekki þess, að eigi menn að vænta nýlendumanna frá öðrum löndum, þá má helzt vænta þeirra, sem lítils eiga úrkosti heima hjá sèr, og verða að leita fyrir sèr sökum efnaleysis og atvinnuleysis, eða jafnvel af lakari kríngumstæðum. Komist þeir í góðan veg á Íslandi, þá mundu þeir græða fè sitt þar, og fara síðan burt til átthaga sinna; gengi þeim illa, þá væri þeir þar til lítillar frambúðar. Hin hollasta og notasælasta framför er því sú, sem landið sjálft leiðir til og landsmenn geta áorkað sèr sjálfir; verði atvinna þeirra ríkuleg, þá mega þeir eiga víst, að þángað sækja fleiri, og það þá helzt þeir, sem vænta sèr að geta aflað sèr þar fjár; en þá yrði landsmenn undir búnir, og bæri sjálfir ægishjálm yfir hinum útlendu, eða stæði þeim að minnsta kosti jafnfætis, og framför landsins yrði með því bæði hagkvæm og viss. — Enn eru þeir einstakir menn, sem ætla, að landið gángi ávallt úr sèr, og þjóðin jafnvel með, en viðurkenna þó að þetta sè sjálfskapað víti, og að menn geti bætt úr því þegar þeir vili eða nenni. Þessir menn eru oss samdóma í því, að á Íslandi sè nægar uppsprettur auðs og hagsælda í duglegra manna höndum; þeir hafa og að vísu rètt fyrir sèr í því, að framför manna á Íslandi gæti verið miklu meiri en hún er, en vèr ætlum, að enginn geti neitað því, að framför sè ekki lítil að öllu

samtöldu, og ef litið er yfir heilt tímabil; sömuleiðis ætlum vèr það óneitanlegt, að landsmenn hafi þá eiginlegleika til að bera, að þeir geti tekið sèr fram, og að menn geti vænt þess, að þeir muni ná fullum framförum eins og aðrir, ef þá skortir ekki þá leiðbeiníng og tilstyrk af stjórnarinnar hendi, sem nauðsynlega þarf með, og sem allstaðar er veitt annarstaðar, þar sem líkt stendur á eða jafnvel betur.

En »auðurinn er afl þeirra hluta sem gjöra skal«, segja menn, og hversu mega menn þá vænta þess, að menn gjöri mikið á Íslandi, meðan þeir eru eins fátækir og þeir eru? — Til þess að koma miklu til leiðar, þá þarf einnig fólksafla, en Ísland er fámennt, og hversu geta Íslendíngar þá afkastað nokkru, meðan þeir eru svo fámennir? — Þessir eru mestir annmarkar, sem villa mörgum sjónir og gjöra þá deiga: fólksfæð og fátækt. En óttinn fyrir þessu hlýtur að hverfa, þegar maður hugleiðir, að hvorki fólksfæð nè fátækt eru óbreytanlegir annmarkar, heldur getur hvorttveggja breyzt í hið gagnstæða, þegar einúngis það er fyrir hendi sem til þess þarf. Eins og fátækur maður getur orðið ríkur, þegar hann fylgir sèr að því og neytir rèttrar aðferðar, eins getur fátæk þjóð orðið rík, með því að fara rètt að. Eins og Íslendíngar verzla nú í góðum árum fyrir allt að hálfri annari milljón dala, þar sem þeir verzluðu um aldamótin fyrir ekki fulla hálfa milljón, eins geta þeir að tíma liðnum, þegar þeir hafa lært betur að leita lags og neyta krapta sinna, haft vörur til verzlunar fyrir þrjár milljónir, og aukið atvinnu fyrir þriðjúngi eða helmíngi meiri fólksfjölda en nú er á landinu, og svo koll af kolli, sem engu mannlegu auga er nú unnt að fyrirsjá. Slík dæmi finnast dögum optar úr ymsum löndum í allri veröldinni, sem stundum fer fram og stundum aptur. Þó má enn framar segja um meðferð þá, sem menn hafa á eigum sínum, eða því sem þeir hafa á milli handa,

að hún er manni að miklu leyti í sjálfs vald sett, því enginn getur sagt með sanni, að hann sè neyddur til að kaupa brennivín eða önnur vínfaung, tóbak, kaffe, sykur og þvíumlíkt fyrir alla vöru sína, og eyða með því móti öllum afla sínum svo að kalla til óþarfa. Ef vèr gjörum ráð fyrir, að keypt sè nú á Íslandi:

| | | |
|---|---|---|
| brennivín og vínfaung fyrir . . . . | 100,000 | dala. |
| kaffe og kafferót fyrir . . . . . . . . | 120,000 | — |
| sykur allskonar fyrir . . . . . . . . | 120,000 | — |
| tóbak fyrir . . . . . . . . . . . . . | 60,000 | — |
| það er allt til samans fyrir . . | 400,000 | rd. |

sem nærri lætur að gjört hafi verið á hinum seinni árunum, svosem 1855 og 1856 [1], þá mundi fljótt sjá þess allmikinn mun, ef menn drægi af þessum kaupskap sínum þó ekki væri nema einn fjórða part, og verði þeim fjórða parti, eða 100,000 dala á ári, til þess að kaupa sèr fyrir nauðsynlega hluti til bús síns, svo sem betri bæi, nytsama búshluti innanstokks, nytsöm verkfæri til jarðyrkju, vinnu til jarðabóta, betri útbúnað til sjáfar, eða í fám orðum að segja: verði honum til einhvers þess, sem bæri ávöxt og framför með sèr. Þessar nauðsynjar geta menn eins hæglega fengið hjá kaupmönnum, ef menn eru sèr úti um þær í tíma, og hafa samtök á að velja sèr þær, eins og menn geta nú fengið silkisvuntur og púnsextrakt á gylltum flöskum, sem menn »bestilla« ári fyrir. Hèr fer eins í þessu efni fyrir þjóðunum, eins og fyrir einstökum mönnum: sá sem hefir allt sitt fè til eyðslu-eyris, hann sèr aldrei ávöxt þess sem honum áskotnast í neinu, hvorki innan húss nè utan, en sá sem ver því er hann getur til þess að eignast nauðsynlega og gagnlega hluti, hann getur ekki einúngis lifað fullkomnara og sælla lífi, heldur og auðgast meir og meir, og orðið bæði sèr og öðrum þarfur. Þannig

[1]) sbr. *Skýrslur um landshagi á Íslandi I*, 574—575.

sjáum vèr, hversu allra hagur og allra óhagur er í raun og veru samtengdur, svo að sá sem sóar og eyðir sínu fè, með því að verja því illa og óhaglega, hann sóar og eyðir í rauninni landsins fè, og gjörir öllu fèlaginu þarmeð skaða, en sá sem ver fè sínu forsjálega og nytsamlega, hann ávinnur ekki einúngis sjálfum sèr hagnað, heldur er hann og öllu fèlaginu eða landinu til nytsemdar, og því fleiri sem fylla þann flokk, því meiri framfara geta menn vænt landinu og þjóð vorri. »Óráðs og óreglumenn og ónytjúngar«, sem nú ætla að bera sveitirnar ofurliða, og menn þykjast ekki hafa bolmagn við í þreki og manndáð góðra manna, nema með typtunarlögum, verða þá svo sjaldgæfir, af því þeir verða ekki í húsum hæfir, að þeir hverfa svo að segja af sjálfum sèr.

En, hvað er auður, og í hverju er hann innifalinn? það sýnist vandalaus spurníng úr að ráða, en hefir þó fengið margvísleg andsvör. Margur mun svara, að það sè auður að eiga mikið af gulli og silfri: að eiga nóga penínga, því fyrir þá geti maður fengið allt sem hann þurfi með, og haft alls nægtir. En penínga eignin kemur ekki fram af sjálfri sèr, til þess að eignast þá verður maður annaðhvort að ná þeim með vinnu, eða kaupa þá fyrir vöru, eða fá þá sem vaxtafè, en það aflast aptur með sama móti; og þó peníngar sè fyrir hendi, þá eru þeir því lèttvægari sem meira ríður á nauðsynjunum, einsog vèr heyrum opt til orðs tekið, að »matur fæst ekki fyrir penínga út í hönd«. Þá er ekki sá betur farinn en aðrir, sem á penínga fyrirliggjandi, heldur sá einn, sem er byrgastur á búi, sem hefir aflögu það sem menn nauðsynjar um; hann er sá eini, sem þá getur ekki einúngis haft nóg fyrir sig og sína, heldur og einnig eignazt alla þá penínga sem aflögu eru hjá öðrum, fyrir það sem hann hefir umfram. — En þá er, segja menn, annar auður, sem er ennþá fastari fyrir en peníngar, og það er fasteignin. Jarðirnar gefa ætíð af

sèr vissan og fastan gróða, og einmitt þann sem veitir nauðsynjarnar. Þetta er og að vísu satt, að jarðeignin er einhver hinn bezti og vissasti auður, einsog hún er fegurst og ánægjusamlegust eign, en hún er að því leyti eins og peníngarnir, að hún er í sjálfri sèr ekki til að bæta úr nauðsynjum manna, og hún verður eins ódrjúg ef á að verja henni til þess, eins og peníngarnir. Jörðin verður þá að eins fögur og nytsöm eign, þegar hún verður gjörð sem hentugust til að gefa af sèr nauðsynjar manna; því meira sem menn geta fengið hana til að gefa af sèr af nauðsynlegum og gagnlegum hlutum, því meira virði verður hún, og því meira gagn gjörir hún. Vèr getum því með rèttu sagt, að eiginlega sè auðurinn nægtir af þeim hlutum, sem horfa mönnum til gagns eða nauðsynja.

En þessi auður er með tvennu móti, annaðhvort þesskonar hlutir, sem beint heyra til lífsins viðurhalds, fæðis og klæðis, eða þeir, sem ekki geta að vísu heitið svo nauðsynlegir, að menn geti ekki án þeirra verið, en eru þó til skemtunar eða prýði. Þessir hlutir eru, eins og auðsætt er, vottur um meiri framför í listum og kunnáttu, en sá auður, sem þar í er fólginn, er miklu hvikulli, af því, að slíka hluti velja menn margvíslega eptir tímum og kríngumstæðum, svo tilbúníngur og lögun slíkra hluta er kominn undir svo mörgum tilfellum, sem ekki er auðvelt að sjá fyrirfram eða búa sig undir. Vèr aðgreinum þessvegna það sem til nauðsynja horfir frá hinu, og köllum nauðsynja vöru og munaðar vöru, en þetta breytist þó í sumum greinum margvíslega, eptir því sem lifnaðarháttum manna og þörfum er varið í ymsum löndum.

Á Íslandi er nú svo ástatt, að auður þess og afli er mestur innifalinn í þeim hlutum, sem náttúran sjálf framleiðir, eða sem standa slíkum hlutum næst, en þá hluti, sem einúngis verða tilbúnir með listum og kunnáttu, þekkjum

vèr varla, í samburði við ymsar aðrar þjóðir. Þetta lýsir að vísu þeim annmarka, að vèr höfum ekki verksmiðjur, stóra staði eða borgir, eða merkilega verzlunarbæi; þar af leiðir einnig, að oss vantar hina mentuðu meðalstètt, borgarastèttina, sem á seinni öldum hefir orðið öðrum löndum til svo mikillar nytsemdar; — en þarmeð eru einnig þeir kostir, að vèr erum svosem handgengnir synir náttúrunnar sjálfrar, vèr getum sókt nægtir í hennar skaut, og haft á boðstólum við hina, sem fyrir listir sínar og allskonar vinnuvèlar mega sitja inni og sjá varla dagsins ljós. Vèr eigum beint við náttúruna sjálfa, og vor framför er fyrst og fremst í því fólgin, að skynja fullkomlega hver hagur oss er veittur, og hvers vèr eigum kosti, og að leita allra bragða til að ná þeim gæðum og nota þau, sem náttúran leggur oss í hendur. Ef vèr fylgjum bendíngu náttúrunnar hjá oss, þá er hún einsog mild en þó alvarleg móðir, sem elur upp börn sín ekki til sælgætis eða munaðar, heldur til hreysti og mannskapar. Þeir einir, sem því uppeldi taka, geta hagnýtt sèr að fullu auð lands vors. Það sem vèr öflum hefir þá kosti, að það er nauðsynja varníngur, sem allstaðar er þarfur og allstaðar útgengilegur, og þar að auki hefir hann þann kost, sem ekki er lítils virði, að tilbúníngur hans þarf hvorki mikla kunnáttu nè mikinn kostnað að tiltölu, heldur einúngis athygli og nákvæmni, og stundum eru lítilfjörleg handtök nóg til að auka verð hans svo miklu nemi. Það er því auðsætt, að land vort og gæði þess eru einmitt sköpuð handa þeim, sem ekki eru komnir lángt í mentum og kunnáttu, en hafa alla þá andlega og líkamlega kosti til að bera, sem þarf til að taka sèr fram.

Ef vèr hugleiðum hið núveranda ásigkomulag tímanna og sèrílagi verzlunarinnar í öðrum löndum, þá sjáum vèr, að fólksfjöldinn fer sí og æ vaxandi, og einkanlega í stöðunum. Þessi fólksfjöldi, sem hefir mest sitt lífsuppeldi af verzlun

og handiðnum, þarf að kaupa alla lífsbjörg sína fyrir peninga, og nauðsynjarnar fara ávallt vaxandi með fólksfjöldanum. Þetta knýr menn til að sækja nauðsynjar sínar til annara landa, og kaupa sèr þaðan það sem þá vantar, eða það sem þeir geta fengið þaðan með betra verði. Á þessu byggist nauðsyn verzlunarinnar og not hennar, og á því byggist einnig, að menn sjá alltaf betur og betur hver nauðsyn er og hvert gagn að hafa verzlunina sem frjálsasta, og gjöra öll samskipti manna á milli og landa milli auðveldari. England hefir í þessum efnum gengið á undan öðrum, og þó vèr höfum lítið haft enn saman við England að sælda, þá höfum vèr sèð merki þess, hvað íslenzkar vörur hafa hækkað í verði á seinni árum, og einkum sú varan, sem Englendíngar sækjast mest eptir, vegna verksmiðja sinna, sem er ullin. Nú er annað land, sem vonanda er að gángi í fótspor Englands, sem er Frakkland; yrði það, þá mundi oss opnast þar mikil kaupstefna fyrir íslenzkar vörur, einkum fiskinn. Og þannig má eiga þess von fyr eða síðar, að verzlun leysist meir og meir og verði frjálsari, en ábatinn af því lendir einna mestur hjá þeim, sem hafa mestar nauðsynja vörur, eða óunnar vörur, og geta aukið þær sem mest; þess eru ljósust dæmi í því, að þar sem t. d. ull hefir stigið hjá oss um helmíng á seinustu 10 árum, þá hafa allskonar dúkar og vefnaður útlendur fallið í verði að því skapi, og þess dæmi sjáum vèr allstaðar, að hin óunna varan helzt í verði eða hækkar, en hin unna lækkar. Þegar þannig á stendur, þá er auðsær ábati fyrir þá, sem eins standa að eins og vèr Íslendíngar, að leggja allt kapp á fyrst og fremst að afla sem mestrar vöru af landi og sjó, til að auka með verzlun vora; en þegar verzlan þessi væri komin í blóma, þá leiðir af sjálfu sèr að ekki lendir þar við, heldur mun þá smásaman verða kostur á að geta náð meiri framförum.

Af því að þetta mál er svo mikils vert, þá er skylt að hver leggi til að sínu leyti það sem í hans valdi stendur, og þó allir geti ekki tekið þátt í að afla eða verzla, þá er öllum leyft að skýra frá því sem þeir vita eða heyra, og sem þeim gæti verið til leiðbeiníngar eða bendíngar, sem þetta stunda. Fyrir þá sök er bæklíngur þessi ritaður, bæði eptir bókum ymsra manna, sem hafa ritað áður um þessi efni, eða þeim, sem dags daglega koma á prent í ymsum löndum, þar sem allir, bæði þjóðin og stjórnin, svo að segja haldast í hendur og af alefli hjálpast að í þessum efnum; sömuleiðis eptir skýrslum, sem stjórnardeild verzlunarmálanna hefir safnað frá nokkrum verzlunarfulltrúum í nokkrum hinum helztu verzlunarstöðum; og enn fremur eptir skýrslum frá einstökum mönnum, sem þekkja ymsar greinir, er snerta þetta mikilvæga málefni.

Eptir því sem til hagar á Íslandi virðist oss haganlegast og skilmerkilegast að skipta því, sem landið gefur af sèr til verzlunar, í landvöru og sjóvöru, en við hvorttveggja hlýtur samt ýmislegt til greina að koma, sem ekki beinlínis snertir vöruna sem varníng, heldur og einnig undirrótina til þess ávaxtar, sem varan gefur af sèr, eða þá aðferð sem höfð er við afla vörunnar, því það er eins nauðsynlegt og mikilvægt atriði einsog hitt, um aflann sjálfan og meðferð hans. Búskapurinn og aðdrættir af landi og sjó eru undirrót alls þess afla, sem vèr köllum varníng, að því leyti sem næst liggur fyrir hjá oss að búa hann til eða hafa hann á boðstólum, þessvegna hljótum vèr einnig að geta ymsra atriða, sem snerta búskapinn í nokkuð yfirgripsmeiri þýðíngu en þeirri, sem viðvíkur einúngis varníngnum eða vöruaflanum til lands og sjáfar.

## I. LANDVARAN.

Það sem vèr lítum fyrst á í þessari grein er sá grundvöllur, sem allur vor búskapur til landsins ætti að byggjast á, og það er kúabúið. Vèr skulum þessvegna taka fyrst fyrir oss að hugleiða þetta atriði í fám orðum:

### 1. NAUTPENÍNGUR.

Ólafur Stephánsson. Um not af nautpeníngi. Rit hins íslenzka lærdóms lista fèlags VI, 20-96.

Magnus Stephensen. Búskapar hugvekjur, í Klausturpósti 1818-1821.

Einkenni á góðum mjólkurkúm, í Gesti Vestfirð. IV, 69-78.

Leiðarvísir til að þekkja einkenni á mjólkurkúm, eptir Guénon. Akureyri 1859. 8.

Á því landi, sem eins hagar til og á voru, þar sem vænta má óblíðra harðinda þegar minnst varir, og á ymsum árs tímum, og þar sem ætíð má búast við hörðum árum eptir nokkur góð ár í bili, þar er allt undir því komið að byggja fastan grundvöll undir búskap sinn, sem geti staðizt og veitt heimilinu atvinnu næga til lífsuppheldis, þó hart verði í ári, og á góðu árunum verið einsog fastur stofn undir fjölbreyttari útveg í búskap og verzlun. Enginn stofn er betri til þessa, en kúabúið. Ef það er í góðu lagi, þá veitir það ekki einúngis heimilinu uppheldi, heldur og einnig hinn bezta varníng til verzlunar: uxa, smjör, osta, kjöt, húðir og skinn o. s. frv. Í fornöld hefir kúabúið verið miklu meira á Íslandi en á síðari tímum, það sýna oss ekki einúngis sögurnar, heldur einnig fornbrèf þau sem til eru. Þá er ekki sjaldgæft að taldar sè þrjátíu, sextíu, hundrað kýr á búi, og geldneyti að auki; nú munu vera teljandi þau bú á Íslandi, að sè á tuttugu kýr. Á síðari öldum hefir nautpeníngur farið fækkandi á Íslandi yfirhöfuð að tala, að því leyti sem vèr höfum sögur af, og kúabú landsins hefir

verið að því skapi, sem búnaðarhagurinn hefir verið til. Tala nautpeníngs var

| | | |
|---|---|---|
| ár 1703 | samtals . . . | 35860 (kýr: 24,467) |
| - 1770 | — . . . | 30096 |
| - 1783 | — . . . | 20067 |
| - 1784 | — . . . | 9804 |
| - 1804 | — . . . | 20325 |
| - 1833 | — . . . | 27862 |
| - 1853 | — . . . | 26710 |
| - 1859 | — . . . | 26908 (kýr: 19,960).[1] |

má þar af sjá, að mikið vantar á að kúabú vor sè eins mikil nú og 1703, því þá var hèrumbil hálf kýr á mann, þar sem nú eru meira en þrír menn um eina kú, enda þótt vèr ekki þarmeð viljum segja, að landsins efnahagur sè þarfyrir reyndar lakari, því til skamms tíma var sauðfjár fjöldinn miklu meiri, og sjáfarútvegur er nú margfaldur, ekki að nefna garðyrkju. Annað merki til, að kúabú á seytjándu öld hafi verið enn meiri en 1703, er það, að þá er fluttur af landinu töluverður varníngur sem kúabú gefa af sèr, svo sem t. a. m.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Smjör: | 1624 fluttar utan . . | 636 | tunnur |
| | 1630 — — . . | 334½ | — |
| Uxakjöt: | 1624 flutt utan . . | 184 | tunnur |
| | 1630 — — . . | 163½ | — |
| Kálfskinn: | 1624 flutt utan . . | 691 | tals |
| | 1630 — — . . | 89 | — |
| Uxahúðir: | 1624 fluttar utan . . | 231 | tals |
| | 1630 — — . . | 174[2] | — |

[1]) Skýrslur um landsh. II, 67; I, 60; II, 876.

[2]) Bech. Om Handelen paa Island 1781. Handrit í bókasafni konúngs: Gamle kgl. Saml. 2864. 4to. bls. 87-89.

En þessar varníngsgreinir eru fyrir laungu horfnar að fullu og öllu. Frá því 1684 eru naut ekki verðsett í hinum íslenzku verzlunartöxtum, og Ólafur Stephánsson stiptamtmaður skýrir frá, að verð þeirra hafi ávallt farið mínkandi í verzluninni, svo að vèr megum eins kenna henni um þessa apturför vora eins og marga aðra. Um átjándu öld fór þessi grein verzlunarinnar smásaman hnignandi, sem sjá má af þessari skrá:

| | | 1734. | 1743. | 1753. | 1764. | 1772. | 1779. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Smjör flutt utan . | tunn. | 47 | 41 | 27 | 27 | 12 | 12 |
| Uxakjöt . . . . . . | — | 89 | 109 | 41 | 63 | 359 | $11\frac{1}{2}$ |
| Kálfaskinn . . . . | tals | — | — | — | — | — | — |
| Uxahúðir . . . . . | — | 31 | 62 | 16 | 11 | 22 | 1 [1] |

eptir 1784 var orðið svo, að stjórnin varð að senda 20 naut árlega frá Danmörku, til að ala fálkana við [2]. — Smjör hefir ekki verið flutt frá Íslandi síðan 1772, og mun kaffeð eiga ekki lítinn þátt þar í, því það má vera enda gott bú, eptir því sem nú gjörist, sem gefur nógan rjóma í kaffeð og til smjörs handa heimilinu þar að auki, þegar drekka skal upp 300,000 pund af kaffe um árið. Uxar eru reyndar seldir í kaupstaði á seinni árum, svo nokkru nemur, en uxakjöt og húðir er hvergi flutt utan.

Í þeim löndum, sem hafa engjaland og haglendi, er kúabúið ekki einúngis aðalbústofn alþýðunnar, heldur er og einnig aðal-varníngurinn tekinn af þessum stofni. Svo er t. a. m. í fjalllandinu í Schweitz, að kúarækt þeirra er svo ágæt, að þeir hafa af búi sínu ekki einúngis daglega fæðu, heldur og mikinn varníng til kaupeyris. Þetta er þó ekki svo mjög í því fólgið, að kúafjöldinn sè svo mikill, einsog í hinu, að allt er vandað til þess að þær gefi sem mest af

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 97-98.
[2]) Fèlagsr. VI, 92.

sèr. Til þessa eru einkum kappkostaðir þrír hlutir. Fyrst af öllu er fóðrið; það gengur þar fyrir öllu hjá bóndanum, að afla sèr svo mikils fóðurs, að hann geti gefið nautpeníng sínum nóg fóður og gott allt árið um kríng; þessvegna hirðir hann jafnvel betur engi sitt en akrana, því hann dregur heldur kornið við sjálfan sig en fóðrið við baulur sínar. Hann friðar engjarnar sem bezt, þurkar þær upp og veitir síðan vatni á þær eða lokræsir, til að auka sem mest frjófgun þeirra. Þaraðauki yrkir hann kál og rófur allskonar til fóðurs, og einkanlega gleymir hann ekki fjósinu, að hafa það bæði bjart og hreint, veita vatni þar inn bæði til drykkjar og til að þvo kýrnar iðulega; þvotturinn er þeim við hálfa gjöf, segir hann. Til þess að auka frjófgun jarðarinnar er það aðalástundan hans, að auka áburðinn með öllu móti, svo hann hafi nóg af honum bæði í engi og akur; það er þar máltæki, að menn geti þekkt búmanninn á mykjuhaugnum hans, hversu mikill hann er og vel þrifinn. — Hið annað ráð til að bæta kúabúið er að velja kynið. Það er náttúrulögmál, að afkvæmið líkist foreldrum sínum meira eða minna, og á þessu náttúrulögmáli byggist það, að maður getur smásaman myndað skepnur sínar og lagað eptir vild sinni, þegar maður lætur þær tímgast, hverja fram af annari, sem hafa þá kosti til að bera, er maður vill helzt kjósa. Þessir kostir fara þá æ vaxandi hjá afkvæminu, lið frá lið, þar til skepnan hefir náð miklum yfirburðum. Þannig hafa menn á Skotlandi tekið eptir einu kúakyni, að elzta kýrin af því kyni, sem menn tóku eptir, mjólkaði 1000 potta um árið, en ein kýr af afkvæmi hennar mjólkar nú 2800 potta um árið. Vèr sjáum hèr af, að áður hafa kýr í öðrum löndum verið viðlíka og hjá oss, því Ólafur stiptamtmaður telur 1100 potta um árið meðalkýr nyt á Íslandi, en vèr höfum staðið í stað og ekkert tekið oss fram í ræktinni á nautpeníngi vorum, þar sem aðrar þjóðir hafa tekið stórum framförum, og hugsa æ meir um að

fullkomna peníngsrækt sína. — Í sumum af fylkjunum í Schweitz er lagaboð sett um kúaræktina. Þar eru dýralæknar settir af stjórninni, og ferðast einn árlega um hèrað hvert með 3 eða 4 skoðunarmönnum; þá skulu bændur mæta á tilteknum degi með griðúnga sína, eru þá teknir úr hinir beztu og brenndir til marks, og má þessa eina hafa til kúnna; fá þá eigendur þeirra hinna beztu griðúnga verðlaun af allsherjar sjóði; en þeir sem eiga griðúngana eru skyldir að bóka kýr þær sem eru leiddar undir þá, og hafa menn síðan mesta gát á ættinni, einkum griðúnganna, til þess að kynferðið ekki spillist og svo menn geti alltaf vitað hvernig því líður. — Hið þriðja meðal til að bæta kúabúið er að kunna að fara með mjólkina, svo að menn hafi það gagn af henni, sem menn geta framast haft. Þetta er ekki svo vandalaust, sem sumir halda, því það er eptir margra ára reynslu og tilraunir, sem menn hafa lært það, en þar er sá hagnaður við fyrir oss, að vèr getum nú fyrirhafnarlítið tekið það eptir, sem aðrir hafa haft mikið fyrir að nema.

Á Íslandi eru margir menn mótfallnir kúarækt, og halda fram fjárræktinni framyfir hana. Þeir segja, að fènu sè fljótar komið upp, það sè ábatameira og skemtilegra, og missirinn á stöku kind sè ekki eins tilfinnanlegur. Þetta er að nokkru leyti satt, eins og á stendur á Íslandi, en það sýnir um leið hversu skammt vèr erum komnir á leið í búskap vorum; hann er hjá oss á því stigi, að vèr tökum það sem liggur nægast fyrir oss og næst, á þann hátt sem forfeður vorir hafa gjört nú um seinustu aldirnar, en leitum ekki dýpra, og gætum ekki þess, að það er apturför að standa í stað. Vèr förum ekki einusinni svo lángt, að vèr náum forfeðrum vorum á tólftu og þrettándu öld, sem höfðu naut hundruðum saman, svín, geitfè, alifugla, og hlóðu hagagarða um þvera dali og hlíðar. Vèr skulum fúslega játa, að þær jarðir eru ekki allfáar á Íslandi, sem

eru einsog skapaðar handa fjárrækt; aðrar eru beinlínis lagaðar til kúahalds. Nú liggur þar beinast við, að hafa þann aðalstofn búskapar síns, sem jörðunni er laginn, en jafnframt þarf maður að gæta hins, að ætla ekki ofmjög uppá einn stofn, heldur leita sèr að fleirum, þeim er næst liggja, og gjöra sèr þá sem ábatamesta. Þess þarf einnig að gæta, að velja sèr þann bústofninn sem stöðugastur er og óhvikulastur, og sem jafnframt sýnir mesta búmennsku og hefir mesta framkvæmd og framför í sèr fólgna. Þessum kröfum fullnægir kúabúið miklu betur en sauðabúið. Þó að sauðabúið kunni að vera aðgengilegra í fyrsta áliti, auðveldara og ábatameira, þá er það miklu lausara og hvikulla á fótum, ef það vantar stólpann þann sem kúabúið er. Af því kúaræktin þarf mikla fyrirhyggju og góða, til að komast vel á fót, þá venur hún menn til miklu meiri áhuga um það, sem er mest áríðanda fyrir búmanninn, og það er að vera ætíð byrgur; hann neytir þessvegna krapta sinna betur, því hann sèr að með því eina mótinu hefir hann mestan ábatann af vinnu sinni. Það er einúngis vankunnáttu að kenna, ef búmaðurinn hefir ekki annan eins hagnað af kúabúi sínu eins og af sauðbúi, þar sem jörðin er löguð til þess, og á Íslandi er hver jörð svo lögnð, að þar má hafa kúabú að mun, sem verði fótur undir öllum búskapnum að því leyti sem bjargræðinu viðvíkur, og gefi jafnvel af sèr þaraðauki afgáng til verzlunar, ef rètt er á haldið. »Ekkert hundrað lausafjár er eins arðsamt í búi manns eins og væn kýr,« segir búmaður einn í Gesti Vestfirðíng[1], og það ætlum vèr fullkomlega satt vera, ef maður kann með að fara. Vèr þurfum varla að geta þess, að naut og uxar eru seldir alldýrt, og væri nóg til af þeim á Íslandi, þá gæti þau ekki einúngis unnið margskonar verk við jarðræktina, plægt, ekið heyjum og s. frv., heldur og einnig gengið úti á vetrum

[1]) Gestur Vestfirð. V, 106.

þegar sæmilega viðraði. Væri kominn upp fjöldi af þeim, svo að þeim yrði safnað á einn stað hópum saman, mætti selja æ því fleiri til annara landa, einkum til Englands, sem kaupir nú og flytur naut frá Jótlandi og víðar að. Það eina, sem bagar oss í þessu sem öðru allra mest nú sem stendur, er það, að vèr höfum of litla vöru og of dreifða; að auka vöruaflann og geta safnað sem mestu á einn stað er það, sem mest getur gagnað oss; en þetta getur bezt komizt á með frjálsri viðleitni manna, þegar verzlanin og vöruflutníngarnir er gjört sem auðveldast, því þá kennir hagnaðurinn manni bezt hvað hentast er. Smjör er á Íslandi sjálfu svo útgengilegt, að það mundi verða selt ómælt ef það væri þar eptir falt; til annara landa væri það einhver hinn bezti varníngur, ef það væri vel verkað, og er það ein hin mesta nauðsyn fyrir búmenn á Íslandi og búkonur, að læra meðferð á mjólkinni, og einkum tilbúníng á smjöri og ostum, því þar undir er kominn allur sá ábati, sem menn geta haft af góðu búi; kunni maður það ekki, þá gengur meira til spillis en hagurinn verður. Ostar eru ein hin bezta vara frá þeim löndum, sem hafa mestan landbúnað, bæði nær og fjær, og reynslan sýnir, að frá Íslandi gæti komið hinir beztu ostar, ef þar væri lögð alúð á. — Nautahúðir eru einnig ágæt vara, og eru fluttar frá fjarlægustu löndum, svo ekki væri að óttast að ekki gengi út af þeim jafnvel heilir skipsfarmar, ef þeir væri þareptir til. Hèr er ekki að sinni ástæða til að fjölyrða um meðferð eða tilbúníng á varníngi þessum, því aðalatriðið er að bæta kúakyn landsins og auka og efla nautaræktina; þegar það er gjört og menn hafa lært lag á því, þá kemur hitt að nokkru leyti af sjálfu sèr. Ef kúabú vor væri í nokkru lagi, ætti að vera að minnsta kosti hèrumbil þriðjúngi meiri nautpeníngur en nú er, að tiltölu við fólksfjöldann, og yrði verzlunar-varníngur á ári af honum til útflutníngs að minnsta kosti 60,000 dala virði; má þar af sjá, að oss

vantar ekki lítið til að ná eðlilegum þroska í búskap vorum í þessari grein.

Það er ekki vor ætlan, að vèr ættum að sinni að bæta kúakyn vort með því að kaupa útlent kyn, og blanda því saman við vort. Menn hafa áður haft þenna sið, af því menn hugsuðu ekki að kynið gæti batnað af sjálfu sèr, lið fram af lið, með því að vanda meðferð á því og velja allt hið bezta úr því, einkum til tímgunarinnar. En þetta hafa menn lært á seinni tímum. Vort innlenda kúakyn er eins gott og óvandað kyn annarstaðar, og jafnvel betra, því þó ekki sè í öllum greinum farið rètt með kýr hjá oss, þá er þó farið skást með þær af húsdýrum, nema ef vera skyldi eldishestar hjá stöku manni. Það má því óhult ætla, að kúakyn vort gæti náð sömu framförum og annarstaðar, ef þær breytíngar væri gjörðar sem þyrfti í meðferð þess. Að kaupa útlent kyn er ætíð nokkuð viðsjált, því fyrst og fremst geta verið á því gallar, sem menn ekki þekkja, þar næst er flutníngurinn með misjafnri meðferð, og að síðustu verður varla hjá því komizt, að ekki verði mart ólíkt því, sem það er vant áður, í meðferð þess og hjúkrun, en þetta getur valdið óþrifum og jafnvel sjúkdómum, sem geta orðið næmir. Þetta er þó einúngis eða helzt að óttast meðan kúarækt vor stendur á svo lágu stigi, en því minni háski er að því, sem oss fer meira fram í þeirri grein. Sá eini sem hefir reynt það, og með góðri heppni, var Magnús Stephensen í Viðey, en hann var og á sinni tíð manna færastur á Íslandi til að gjöra slíkar tilraunir. Ef nokkuð væri keypt af útlendu kyni fyrst um sinn, þá ætti menn helzt að kaupa griðúngskálfa únga af hinum beztu útlendu kynferðum, þeim sem hafa þá kosti er helzt eru kjósandi eptir því sem hagar til á Íslandi, en það er einúngis efnaðra og góðra búmanna meðfæri.

Þegar undir því er komið að auka og bæta kúabúin á landi voru, þá er það tvennt sem mest ríður á, annað að

hafa nóg fóður, eða að auka og bæta fóðuraflann, annað að auka áburðinn. En af því þetta hvorttveggja heyrir til jarðræktinni, þá getum vèr ekki farið hèr um það mörgum orðum. Vèr skulum einúngis geta þess, að hver búmaður mun taka eptir, að heybyrgðirnar eru fóturinn undir búi hans, og margir af þeim, sem hafa orðið beztir búmenn og efnamenn á Íslandi, hafa lagt grundvöllinn með því, að koma sèr undir með hey og mat. Heyaflann má auka með mörgu móti, en vèr skulum stuttlega taka hèr fram þá aðferð, sem oss virðist bæði hagfelld og vel gjörandi, jafnvel fyrir efnalitla menn og frumbýlínga. Maður velur sèr blett, 10 eða 20 eyrisvelli, eptir því sem maður hefir þrek til, og friðar þetta vel, slèttar það og ræktar með fullri alúð, og á skömmum tíma mun það gefa allt að kýrfóðri af dagsláttunni, því þetta hafa margir fengið með þeim ræktarmáta sem nú tíðkast. Nú er þá ljóst, að þessir 10 eða 20 eyrisvellir vel ræktaðir gefa manni fóður handa 10 eða 20 kúm, og það er meira kúabú en menn eru vanir að hafa hjá oss á seinni tímum. Og þó menn legði ekki nema helmíng af þessu í áætlun, væri það samt mikill munur. Því fyrst er sjálfur heyaflinn meiri, þar næst er vinnusparnaðurinn, því hèr geta tveir vinnumenn og tvær vinnukonur eins hæglega unnið upp 20 dagsláttur, eða fóður fyrir 10 kýr að minnsta kosti, eins og menn geta nú með margföldum mannafla, af því menn hafa allt undir, og svo að segja allt óræktað, þýft, grýtt og óberjur; í þriðja lagi hefir maður eptir sem áður allt hitt af jörðinni til hagabeitar, heyskapar og ræktar, á hvern máta sem maður getur bezt. Auk þess sem maður ræktar til grasyrkju þannig, eða meðfram því, hefir maður kálrækt og kartöplurækt til matar og fóðurs, og þar sem engjarækt verður við komið má hafa margfaldan ávöxt við það sem nú er, með því að veita af vatnsaganum, lokræsa og veita síðan fersku vatni á, eptir að engið er þurkað upp áður og allt

hið skaðlega vatn af runnið. Þessi jarðyrkjumáti er svo nytsamur og nauðsynlegur á Íslandi, að ef hann yrði almennur í hinum víðlendu mýrasveitum, þá gæti þar af leidt jafnvel breytíng í loptslagi, hlýindi og hollusta, sem bætti margfalt jarðargróðann. Vèr gjörum alls ekki ráð fyrir kornyrkju, því jafnvel þó reynslan sýni að hafrar og bygg, hör og hampur o. fl., geti að líkindum vaxið á Íslandi til góðra nota og ábata, þá virðist oss nú sem stendur það liggja næst sem einfaldast er og sízt getur brugðizt, og það er grasræktin, kál og kartöplur. Þegar sú rækt hefir komið oss á kreik og gefið búskap vorum fastan grundvöll, þá getur önnur betri og fullkomnari rækt komið í staðinn, ef hún er oss lagin eða hagfelld landi voru.

Einn hinn mesti galli á kúarækt hjá oss er tilhögunin í fjósunum; þau eru víða bæði dimm, lág, óhreinleg og vatnslaus. Ef úr því væri bætt, mundi fljótt sjá góðan mun á kúaræktinni. Eins er um áburðinn, að hann er hvorki hirtur vel nè aukinn sem mætti, og er það annar galli, sem má bæta úr þegar menn að eins vilja. Margar bendíngar hafa verið gefnar íslenzkum búmönnum um að auka áburðinn, en of lítið hafa þær afrekað. Jón Kjernested hefir gefið eina hina styztu og einföldustu hugvekju um áburðarauka [1]: að rètta hesta sína á næturnar að sumrinu til, og bera í rèttirnar mold, þáng, hreina ösku og sèrhvað annað, og láta blandast og troðast saman; einnig að láta fèð liggja í færikvíum á sumrin. En aðalefnið er, að opna jarðveginn fyrir áburðinum, og fá hann sem mest til að samlagast jörðinni, því meðan áburðinum er klínt ofan á harðvallar-grasrót eins og nú, öld eptir öld, getur jörðin aldrei notið hans, og varla að hálfu. Kæmist á búnaðarskóli á Íslandi, væri það í mörgum greinum hentugt, að þar yrði bæði gjörðar tilraunir á ymsan hátt og sýnt verklega

[1]) Klausturpóst. 1820, 102-104.

hvað bezt gæti farið; en ótölulega mart er það, sem menn geta komizt uppá af sjálfum sèr, og hugviti sínu og eptirtekt, ef menn vildi einúngis láta sèr umhugað um að taka sèr fram, og vera samtaka í því; þetta yrði þar að auki bæði hinn bezti undirbúníngur undir búnaðarskóla, því það vekur eptirtekt manna á þörf sinni og gagni; það yrði hvöt til að koma honum upp, og það yrði hin mesta stoð og stytta fyrir hann, þegar hann væri kominn á.

## 2. HESTAR.

Ólafur Stephánsson. Um hesta. (1788). Rit hins íslenzka lærdóms lista fèlags VIII, 26—70.

Fácinar athugasemdir um stóðhrossa val, uppeldi og meðferð á hestum. Bóndi útg. Jakob Guðmundsson. Reykjav. 1851. 8vo, bls. 10—13, 27—30, 65 –71.

Vort íslenzka hestakyn hefir lengi þótt afbragð í sinni tegund. Í fornöld voru Íslendíngar mestu hestamenn, bæði við reiðir og hestavíg. Þá voru og fluttir hestar til annara landa af Íslandi, einkum til Noregs, en þó varla öðruvísien til afbrigðis. En á síðari tímum hefir verið sjaldgæft að hestar væri fluttir, og varla eða aldrei hafa þeir verið til sölu. Hinir íslenzku hestar komast nú meir og meir í verð, af því þeir hafa þá kosti, að þeir eru þolnir, harðir og ekki fóðurfrekir. Á reið heldur enginn danskur hestur út við íslenzkan í þoli; íslenzki hesturinn er og bezti vagnhestur, því hann er bæði þýður og þolinn. Menn hugsuðu lengi frameptir, að íslenzkir hestar væri ekki færir til að draga plóg, og var það talin ein mótbáran móti jarðyrkju á Íslandi; en nú hafa menn sýnt til þess mörg dæmi víða, að þeir eru vel færir til plógs, þegar plógurinn er lagaður við þeirra hæfi. Að stærð og kröptum nær hestakyn vort ekki því hinu stóra kyni, sem almennast er orðið í Danmörku og annarstaðar, en þegar því er boðið það, sem samsvarar eðli þess, þá hefir það aðra kosti, sem vega upp á móti. Þessvegna eru menn nú í Danmörku farnir að sækjast eptir

íslenzkum hestum, einkum til reiðar og til að aka með lèttum vögnum. Verð þeirra er nú komið upp í 100 til 120 rd. í Danmörku, einkum síðan farið var að flytja þá til Englands. Á Íslandi vitum vèr til á seinni árum, að gefið hefir verið mest 100 dalir fyrir bezta reiðhest; fyrir 150 árum síðan var tólf dala Brúnn, sem Jón biskup Vídalín átti, dýrasti hestur á öllu Íslandi.

Hrossatalan á Íslandi hefir með öllu farið vaxandi um það tímabil, sem vèr höfum töflur fyrir, því eptir þeim hefir tala hrossa á öllum aldri verið þannig:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1703 | samtals | 26,909 |
| — 1770 | — | 32,289 |
| — 1783 | — | 35,939 |
| — 1784 | — | 8,683 |
| — 1804 | — | 26,524 |
| — 1833 | — | 38,638 |
| — 1853 | — | 40,485 |
| — 1859 | — | 39,827[1]. |

Hrossatalan er því einna mest nú sem hún hefir nokkurntíma verið. Þetta getum vèr þó ekki álitið sem neina verulega framför í búskap vorum, heldur miklu framar sem vott þess, að menn eru fúsir að taka það, sem næst er hendinni; síðan menn fóru að geta selt únghryssi, sem menn hafa getað látið alast upp sèr að kostnaðarlausu án allrar hirðíngar, þá hafa menn látið úngviðið lifa, að því leyti sem vetrarhörkurnar hafa leyft því það, en þetta er engin hirðíng og engin búmennska.

Englendíngum hafði lengi leikið hugur á íslenzku hestunum, en meðan verzlunin var einokuð var ekki að hugsa til að kaupa hesta á Íslandi, eða að flytja þá til annara landa. Eptir 1816 var sama að segja, því enginn útlendur maður gat staðizt að gjalda 50 dali af hverju lestarrúmi framyfir innanríkismenn. Konúngsúrskurður 17. Septbr. 1828

[1]) Skýrslur um landshagi á Íslandi II, 100—101; I, 65; II, 861.

leyfði einum manni að flytja hesta til Orkneyja með 10 dala lestagjaldi, en vèr vitum samt ekki til að þessa leyfis hafi verið neytt. Ár 1851 var enskum skipum leyft að fara til Íslands til hrossakaupa, með þeim skilmálum, að þeir mætti engar vörur flytja til landsins, og gjalda 14 mörk af hverju lestarrúmi, en síðan 1854 hefir verzlan þessi verið frjáls, sem önnur, og hefir verið flutt á ári 2-300 hestar og stundum meira, mest til Skotlands, og helzt af Suðurlandi. Árið 1855 voru fluttir utan 244 lifandi hestar, og er það líklega svosem 4400 dala virði á fyrstu hönd; stundum hefir verið selt fyrir miklu meira, eptir skýrslum þeim, sem staðið hafa í íslenzkum blöðum. Þegar vèr tökum saman þær skýrslur, sem vèr höfum um hestaflutníng af Íslandi, þá verður sú verzlun þannig:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1851 | flutt utan | 219 | hross | á 15 rd. . . . | 3285 rd. |
| 1853 | — — | 344 | — | á 17—19 rd. . | 5982 — |
| 1855 | — — | 244 | — | á 18 rd. . . . | 4392 — |
| 1857 | — — | 266 | — | á 19 — . . . | 5054 — |
| 1858 | — — | 436 | — | á 22 — . . . | 9592[1] — |

Á Skotlandi hafa íslenzkir hestar verið seldir 1859 á 7 pund (rúma 60 dali), og er það verð þeirra á aðra hönd; má þar af sjá, að flutníngurinn hefir allvel borgað sig, nema óhöpp hafi komið fyrir. Það gjörir einnig flutnínginn hagkvæmari og ábatameiri, þegar skipsrúmið er einúngis lagað til hestaflutníngs. En þegar maður þekkir hesta verð annarstaðar, þá mega menn undrast, að hestar skuli vera seldir á Íslandi fyrir 15—20 dali, þar sem hesta verð í öðrum löndum skiptir hundruðum dala. Þetta kemur ekki svo mjög af því, að vèr látum hafa af oss í kaupunum, heldur af hinu, að þessi varníngur vor er í sjálfu sèr ekki meira virði, eins og hann er. En þetta kemur aptur af meðferð vorri á hestunum. Á sumum stöðum, þar sem

[1]) Þjóðólfur VI, 203—5; IX, 152; X, 130. — Skýrsl. um landsh. I, 619.

góð hagagánga er, hleypa menn upp hrossafjölda og stóði, sem gengur sjálfala og hirðir sig sjálft vetur og sumar, dregst vel fram þegar gott er, en kvelst og horfellur þegar illt er í ári. Þar af leiðir, fyrir utan skömmina, tvöfaldan skaða: fyrst fyrir jörðina, að hún verður víða upp urin, eyðist og skemmist og blæs upp, og þar næst fyrir sjálft hestakyn vort, því það nær ekki að fá hálfa þá kosti, sem það gæti fengið ef það væri vel hirt og valið. Hèr kemur því fram hinn sami galli, sem er á öllum vorum búskap, að vèr treystum því að mestu eingaungu, sem náttúran býður oss sjálfkrafa, en höfum ekki framkróka með að styrkja hana, verja oss og skepnur vorar fyrir áföllum hennar, þar sem mannlegri forsjá er auðið, og hafa þá útsjón og fyrirhyggju sem þörf er á, til að bæta atvinnuvegu vora. Vèr getum með þessu móti fengið að vísu mart svo að segja fyrir ekkert, en vèr missum líka enn meira fyrir ekkert, og njótum svo lítils af þeirri ánægju, að geta sagt, að vèr höfum fyrir atorku og kunnáttu náð miklum ágóða af landi voru, og bætt það á allan hátt, svosem menn geta sagt víða annarstaðar. Ef vèr tökum til dæmis hestana, þá þurfum vèr að velja þá einsog kýrnar að sínu leyti, koma upp góðum og vönduðum stóðhestum, aðgreina það kynið, sem er ætlað til vinnu, frá því sem er ætlað til reiðar, o. s. frv. — Viljum vèr fá væna hesta, þá þarf einnig að fara vel með bæði fylmerar og folöldin, meðan þau eru að þroskast, en þessi meðferð er enn undir því komin, eins og með kýrnar, að menn hafi nóg og gott fóður handa skepnunum, því vanti það, þá er eins þetta eins og hvað annað í búskapnum á völtum fæti. Sè þetta allt hjá manni í góðu standi, þá verða hestarnir að vísu manni sjálfum dýrari, en þá verða þeir og miklu meira virði, enda að tiltölu meir en kostnaðinum svarar, og það sem mest er vert: menn geta sýnt afbragðs skepnur, sem menn hafa sæmd og ánægju af, auk þess gagns og ábata, sem þær

veita manni. Ólafur stiptamtmaður Stephánsson hefir talið upp í ritgjörð sinni um hesta, þeirri er áður var nefnd, ýmislegt það af hestum, sem hafa má til varníngs, auk þeirra sjálfra, og er nóg að geta hèr um hrosshárið, sem er haft til margra hluta, og gæti verið eins mikils virði eins og ull vor er nú sem stendur, ef það væri hirt og vandlega hreinsað.

### 3. SAUDFÈNADUR.

Hastfer. Um sauða tíngun á Íslandi. Khöfn. 1761. 62 blss. 8.

Ólafur Stephánsson. Um gagnsmuni af sauðfè (1785). Fèlagsr. V, 66—114.

Magnús Ketilsson. Um sauðfjárhirðíng. Hrappsey. 1778. 8 + 168 + 22 blss. 8.

Ádrepa um meðferð á sauðfènaði. Gest. Vestfirð. I, 48—57.

Runólfur Sigurðsson. Um fjárpestina. í Lanztíðindum 1850, Nr. 11—12, 13—14.

Fjárbæklíngur eptir Hálfdan Jóakimsson o. fl. Akureyri 1855. 60 blss. 12.

Einfaldar reglur um fjárhúsabyggíngu og sauðfjár rækt. Bóndi, bls. 4—10, 17—19, 33—36, 49—54.

Um fjárhús. Hirðir I, 16, 22—24, 27—28 (og allvíða annarstaðar góð ráð um ýms atriði fjárræktar).

Sauðfèð hefir nú um lángan tíma verið hið mesta uppáhald meðal vor, og á einnig skilið að vera það, því það er ein hin fegursta og ábatamesta og fjölhæfasta eign af öllu kvikfè; af því fá menn til fæðis, klæðis og skæðis, og til verzlunar að auki, því mikill þorri af varníngi vorum, einkum á seinni tímum, er af sauðfènu kominn; og ekki einúngis það, heldur er það sú eign, sem þolir oss einna mestar handvammir, því hversu ótt sem það fellur á stundum, margopt fyrir trassadóm og fyrirhyggjuleyi, þá rennur það jafnskjótt upp aptur sem fífill í brekku, undireins og í ári lætur, feitt og fèlegt, snoturt og fjörugt eins og áður. Menn hefði ástæðu til að óska, það væri

ekki eins fjölgunarsælt og óvandleikið einsog það er, því þá neyddi það menn til að hafa betri umhyggju fyrir sèr, og vanda betur meðferðina. En þegar þessu er nú þannig varið, hversu margfalt gagn og þúsundfaldan ábata gæti þá ekki sauðfèð gefið oss, ef vèr vildum venja oss á betri meðferð á því. Þetta er jafnvel reynslan búin að sýna oss, þar sem fjárræktin er bezt á landi voru, svosem til skamms tíma hefir verið í nokkrum sveitum í Norðurmúla sýslu og Þíngeyjar sýslu, og hjá stöku mönnum annarstaðar. Það er mart í eðli landsins og fjárins, sem gjörir, að það dafnar svo vel og tímgast á Íslandi: það eru hin miklu og góðu heiðalönd og fjallalönd, sem eru rètt sköpuð til fjárhaga; það er hið kalda og heilnæma loptslag, og það, er þar af leiðir, að fèð getur lifað svo víða samkvæmt eðli sínu, frjálst og frítt; það sem fríar það við marga kvilla, þegar engin þrif eru höfð á því, er eðli þess, að það skiptir ull sjálfkrafa eins og villt fè, og er rúið en ekki klippt. Fyrir þessa skuld verður fè á Íslandi með einfaldri rækt hèrumbil á borð við bezta fè annarstaðar, þar sem meiri alúð er lögð við það. En þessvegna er það einnig, að þeir menn, sem hafa ritað um búskap á Íslandi á seinni tímum, hafa gjört svo mikið úr sauðfjáreigninni, að kúabúin hafa orðið útundan, og allir hafa stundað að eiga fè, jafnvel miklu meira en að tiltölu á þeim stöðum, sem ekki eru fjárlönd heldur kúa. Þar á móti hafa menn enganveginn notað fjárlöndin einsog nota má, því það er óbrigðult, að hafi maður fastan fót undir búi sínu, sem er fóðurbyrgðirnar, jarðræktin, kúabúið, þá er það einmitt til ræktar jörðinni og bóta, að setja ríflega fè í haga sína. Vèr vitum til þess dæmi í Múla sýslum og víðar, þar sem menn hafa farið að reyna fyrir sèr með fjárrækt, að þar hafa verið sett 500 fjár í haga, sem menn sögðu fyrir 20 árum síðan ekki bæri nema 200, og hefir jörðin ekki einúngis borið það vel, heldur farið batnandi; en auðsætt er það, að meiri

búsýslu þarf til að halda 500 fjár sèr til gagns, en til að halda 200, og það ætti búmenn vorir að hafa sèr fast fyrir augum, að það er ekki nóg að koma upp höfðatölunni, og láta hana falla út og að einsog flóð og fjöru, eptir því sem í ári lætur, heldur þarf að auka fóður, hús og hirðíngu, að því skapi sem fènu er fjölgað.

Þar í er fjárræktin innifalin, að halda því fè á jörð sinni, sem hún getur að jöfnu borið vel haldið, og að bæta svo jörðina smásaman og auka fjárstofninn hvað eptir, að hann sè alltaf byrgur og á föstum fæti. Ef maður fer að eiga opt undir góðum vetrum, vorbata og allri þesskonar heppni, þá má maður byggja uppá á Íslandi, að maður verður fyrir fjártjóni fyr eður síðar, og það því hryggilegasta og sneypulegasta fyrir eigandann, sem til er, að sjá skepnur þær, sem honum eru af guði gefnar til lífsuppheldis og forsjár, velta útaf í eymd og volæði. En beri þetta títt að, þá er ekki þar með búið, heldur er þarmeð öll fjárrækt á enda meðan svo stendur, engin skepnan nær sínum fulla þroska, kynið úrættist smásaman og fyllist af sjúkdómum, óþrifum og ótímgan, og seinast þarf lángan tíma og mikla alúð til að rètta það við; ekki að nefna, að mestur eða allur sá hagnaður hverfur og ónýtist, sem maður getur haft af að ala upp og hafa gott og fallegt fjárkyn í fullum blóma.

Eptir þessu sem áður er sagt er það auðsætt, að hinn fyrsti skilmáli fyrir sauðpeníngsrækt er, einsog að sínu leyti við kúaræktina, að maður ætli sèr aldrei meira en hann getur vel haldið, til að vera ætíð byrgur og geta farið vel með skepnur sínar. Annað mál er það, og það er kannske í engu vandasamara en við sauðfènað, að með mörgu móti má hafa hagsýni og komast af með meira eða minna svo vel sè, svosem þar, sem er hagasælt á vetrum, eða útigángur sem vèr köllum, eða fjara, eða því um líkt, en þetta er undir lagí komið, og verður bezt lært af eptirtekt og hjá

góðum fjárbændum, en það geta þeir einir með rèttu heitið, sem hafa rækt og gætni á fè sínu, ekki hinir, sem ekki hugsa um annað en koma upp höfðatölunni aptur og aptur jafnóðum og allt fellur, svo þeir eiga kannske að hausti til 600 fjár, en vorið eptir um Jónsmessu 60. Sú grundvallarregla fyrir bóndann, sem vèr áður höfum tekið fram, að koma fyrst og fremst föstum fótum undir bú sitt með nægum heyforða og byrgðum, er eins í þessari grein hin ypparsta, og leiðir alla farsæld búskaparins með sèr, ef henni er rètt fylgt. Vèr skulum einúngis færa til tvö dæmi, en vèr þykjumst vita að lesendur vorir geti hver um sig tilfært margfalt fleiri: einn bóndi hafði sèr hálft annað hundrað fjár, og þóttist ekki hafa meiri mannafla á jörð sinni til þess allt væri vel haldið, en hann hèlt það svo vel, að fè hans var afbragð; hann hafði æfinlega full not af sínu fè, felldi aldrei í hor og ekki því líkt, því fè hans var allt vel í holdum á vorin, hann hèlt allri ull sinni, eins af gemlíngum og ám sem sauðum, og þó hart væri í ári hafði hann ár hvert sína jöfnu ull í kaupstaðinn; eptir hann kom annar bóndi á jörðina, sem hèlt sömu reglu, en hann gat haldið þar þrjú hundruð fjár, sem hinn hafði helmíngi minna, og þó allt vel haldið; þar eptir kom hinn þriði, og hafði þá reglu, að hann kvaðst vilja hafa fullt gagn af góðu árunum og ekki spara jörðina, sem nóg væri til: þegar harðærin kæmi mundi maður geta haft ráð með að selja í tíma sèr fyrir penínga, og hafa sitt uppúr fjölguninni; en það fór öðruvísi, maðurinn bjóst ætíð við góðum vetri og tímdi ekki að selja eða skera um haustið, af því honum þóttu prísarnir lágir, hann kom sèr því upp fjórum hundruðum fjár og setti ríflega á, en þegar fram á kom og fór að harðna vænti hann alltaf eptir hlákum og högum, og fór að taka traustataki heytuggu frá kúnum; síðan fór allt að dragast fram með sulti og seyru, og seinast varð útúr að hann hèlt kúnum og 20 kindum um

vorið. Hann sagði samt, að þetta væri ekki annað en hallæri og guðs kross, sem ekki væri sèr að kenna, og hèlt því áfram sinni búskaparreglu, fór að koma upp fè á ný, og það gekk bæði fljótt og vel, en í hvert sinn sem hann var tæplega búinn að ná tölunni hinni fyrri, þá fèll á ný, og svo koll af kolli. Þetta var nú að eins um höfðatöluna, en hitt var lakara, að fè hans, sem drógst þannig fram, varð æ lakara og lakara, hans þrjú hundruð fjár gjörðu ekki eins mikið gagn einsog hálft annað hundrað áður, og það á þeim árunum sem allt var í uppgángi, en stundum var hann næstum málnytulaus. Ull hans var úrþvætti og kaupmenn gjörðu hana annaðhvort ræka, svosem þegar hann átti minnst, eða tóku hana með afföllum, þegar hann hafði mikið af henni. Allt hans ástand var því líkast eins og manns þess, sem er á áralausum bát: í góðviðrinu líður hann áfram hægt og ánægjulega, einsog lauf fyrir straumi, en þegar fyrsti stormur kemur er hann bjargarlaus og lífþrota, nema einhver sèrleg heppni vili til, en hvergi er háskalegra að tefla uppá slíka heppni en í búskap á Íslandi, þar sem bæði er óblítt og hart loptslag í sjálfu sèr, og landið þar að auki í lángri órækt.

Það ætlum vèr, að hið fyrsta og bezta meðal til að auka og bæta fjárræktina hjá oss sè, að bæta meðferðina á fènu, og jafnframt því að hafa nákvæma aðgætni á hrútum og hrútsmæðrum, velja það til tímgunar sem bezt er, og þeim kostum búið sem maður helzt vill kjósa, og á þann hátt að bæta smásaman og laga kynferðið. Það ætlum vèr, að hið íslenzka sauðfè sè að eðli sínu til þeim kostum búið, að vel megi bæta það af þess eigin kyni og þurfi ekki að blanda það útlendu. Fyrst um sinn er það næst hendi, að blanda við fjárkyn nágranna sinna úr næstu hèruðum, þeirra sem bezt fjárkyn eiga, eða úr fjarlægari hèruðum; en þegar lengra væri komið, og fjárrækt og meðferð fjárins komin á betri fót, þá væri engin hætta þó

keypt væri af útlendu kyni til samblöndunar, eins og vèr sjáum nú að Englendíngar kaupa ekki einúngis fjárkyn, heldur allskonar alidýr og alifugla úr ymsum löndum, og rètt sem leika sèr að ala þessi kyn og blanda þeim á ymsan hátt, án þess að nokkuð verði meint við, en sumt nær þeim framförum og yfirburðum, sem nú eru ekki dæmi til annarstaðar, og er þetta að vísu ekki ætíð til ábata á hverri einstakri skepnu, en það sýnir list og lagkænsku búmannsins, og er honum til skemtunar og frægðar bæði nær og fjær.

Það er ekki tilgángur vor, að kenna meðferð á fè í þessu ritkorni, en nokkrar grundvallarreglur eru þó svo mikilvægar, til þess að eignast gott fè, að vèr getum ekki leidt hjá oss að geta þeirra. Þar tilgreinum vèr helzt, að fara sem bezt með lömbin fyrsta árið, bæði að þrifum og fóðri, og ríður engu minna á þrifunum en á fóðurgjöfinni. Menn ætti að gjöra sèr að stöðugri reglu að gjöra lömbum sínum bað að vori til, þegar þau eru skilin frá, og enn fyrri ef á þau sakir óværð og ótímgan. Hrútlömb á að gelda ekki seinna en þriggja vikna gömul. Um fráfærurnar ætti annaðhvort að baða lömbin öll, helzt úr valz-leginum[1], og hann væri án efa bezt og hentugast meðal, því hann er bæði ódýr (2—3 skildínga fyrir kind, og minna ef hann yrði almennur) og bætir ullarvöxtinn allra

[1]) Þessi lögur er kenndur við Waltz nokkurn, dýralækni á þýzkalandi, sem fyrstur kenndi að samsetja hann 1812; þessi lögur er bezta varnarmeðal við hörundskvillum, og óbrygðult meðal við kláða á fè. Samsetníng hans er kennd í mörgum af reglum þeim, sem hafa verið prentaðar sunnanlands um ráðin við fjárkláðanum. Fimm pund og 6 lóð af því meðali, einsog það fæst í lyfjabúðinni, skal þynna með 20 pottum kúahlands og 80 pottum vatns, og er það nóg bað fyrir 100 rúins fjár eða 60 í alullu. Lögurinn má ekki koma í eyru, augu eða nasir kindunum, þegar baðað er. Sex manns, og þó sumt sè kvennfólk eða únglíngar, geta baðað 400 fjár á dag í alullu eða 600 rúins fjár. Lýsíng dýralæknanna 1857, bls. 14, 21.

bezt; en væri ekki kostur á því, þá gefa þeim heitt bað úr tóbakksseyði, eða keitubað og síðan hrálýsi; er það látið drjúpa í herðakambinn og í mön eptir hryggnum og niður í bógana, brýzt það þá sjálfkrafa um kroppinn. Um haustið á maður að taka lömbin snemma inn, svosem um veturnætur, og gefa þeim vel fram yfir miðjan vetur; vel væri að gefa þeim bað þegar þau eru tekin á gjöf, og munu þau þá þrífast betur. Eptir fóðrinu fyrsta veturinn fer þroski kindarinnar um alla æfi. Til tímgunar ætti aldrei að hafa lambhrúta eða lambgymbrar, heldur láta hvorttveggja ná þroska sínum; hrútar ætti að vera að minnsta kosti á öðrum vetri og gymbrar eins; þar með verður kynið öflugra og hraustara, og að öllu bragðlegra. Að hafa saltsteina í fjárhúsum eða salta hey er mjög gott til heilsu fjárins, eða að gefa því glábersalt, einkum snemma vetrar, þegar það er tekið á gjöf, og varast ætti að beita fè út á hèlu eða reka það í vatn í snöggum kulda, án þess að gefa því hey á undan. Á hverju vori, þegar fè fer úr ullu, ætti að gefa því gott bað, helzt úr valz-leginum, þó það væri að öllu heilbrigt, og sömuleiðis jafnvel á haustin. Lembdar ær þurfa einkum góða gjöf, og mega alls ekki magrar verða, þar á móti skaðar ekki gilda sauði þó þeir eigi nokkuð harðara, og sè haldið skarpt að beit, þegar einúngis þess er gætt, að þeir missi ekki kviðinn. Ekki ætti að mjólka ær lengur fram eptir á haustum, en til höfuðdags, og láta þær síðan hafa næði í högum, þartil þær verða teknar á gjöf. Húsrúm handa fènu er áríðanda, bæði að fjárhús sè mátulega rúmgóð, þur og ekki hlý, en þó frí við dragsúg; þessvegna er það mjög skaðlegt, að húsin leki eða verði blaut (og má varna því með grindagólfum), einsog að hafa opin kuml úr garðanum og inn í heygarðana, sem víða er. Væri höfð nákvæm tilsjón með útbeit fjárins á vetrum, vötnun þess, húsrúmi og húsaþrifum, þá bregzt það varla, að bráðapestin mundi sjálfkrafa hverfa úr fènu, því hún virðist mest vera sprottin

af hastarlegum breytíngum hita og kulda inni og úti, eða athugalausri útbeit. Að litnum til getur maður vanið fè sitt eins og maður vill, og af því hvít ull er í hæstu verði þá er ábatamest að afla hennar. Til þessa á maður fyrst og fremst að velja hvíta hrúta, og einkanlega gæta þess, að túnga þeirra og gómfylla sè ekki flekkótt, sama er um gymbrar og ær. Það er einnig gott, að hafa sem mest hvítt kríngum ærnar um fengitímann: hvitklæddan smala, hvíta fjárhunda og sem mest hvítt bæði úti og inni. — Þeir sem vilja fjölga fè sínu sem mest að höfðatölunni til eru mjög fegnir að fá tvílembt, en þetta er þó reyndar eins lítils virði eins og hitt, að eiga helmíngi fleira fè að höfðatölunni til, því tvö ónýt lömb eru minna verð en eitt gott. Það sem vèr þurfum mest af öllu að hafa hugfast er, að fjölgun fjárins er einkis virði, og jafnvel skaðleg og óbúmannleg, ef henni fylgir ekki betri rækt fjárins að sömu tiltölu; sú eina fjárfjölgun er teljandi, sem hefir samsvarandi rækt í för með sèr, svo að bóndi á að geta sagt: ekki það, að hann eigi nú hundrað fjár fleira en áður, heldur að hann bæði eigi og sè nú eins byrgur að halda hundrað fjár fleira bæði að húsum og heyjum, eins og hundraði færra fè, sem hann hafði áður. Þá hefir búi hans í raun og veru farið fram með hverri kind sem hann bætti við sig, en annars hefir því í raun og veru farið aptur, því hann hefir tildrað upp búinu nokkuð hærra en það var áður, en af því allt er á trèfæti og veltur um koll í fyrsta harðæri, þá hefir hann þess engin sönn og varanleg not, heldur er hann eins og barnið, sem byggir sèr spilahús, eða maðurinn, sem bygði hús sitt á sandi; það fellur allt um koll við fyrstu vindhviðu, eða fyrstu flæði.

Þetta hafa verið forlög vor híngaðtil, að koma upp töluverðum fjölda fjár, og missa síðan mestan hluta; en þetta er því háskalegra, sem menn gjöra fjárstofninn, sem er valtur og stopull í sjálfu sèr, en margfalt valtari og

stopulli með slíku búskaparlagi og fjárrækt, að sínum aðal-bjargræðisveg og bjargarstofni í mörgum sveitum. Ef vèr rennum auga yfir fjártöluna á ymsum tímum, þá sjáum vèr eigi allítinn mun, og gefur að skilja hversu mikill skaði það er landinu að missa fè hundrað-þúsundum saman, og hversu mikill arður væri að geta haldið stofninum sem mestum og bætt hann. Hver kind sem fargast er leiguberandi innstæða, sem fargast með leigum og leiguleigum. Fjártalan á Íslandi hefir verið þessi, eptir töflunum:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1703 | samtals | . . 278,994. |
| — 1770 | — | . . 140,056. |
| — 1783 | — | . . 236,251. |
| — 1784 | — | . . 49,615. |
| — 1804 | — | . . 218,818. |
| — 1833 | — | . . 568,607. |
| — 1843 | — | . . 606,536. |
| — 1849 | — | . . 619,092. |
| — 1853 | — | . . 699,812 (lambær: 223,965). |
| — 1859 | — | . . 440,649[1] (lambær: 144,603). |

Það er mjög eptirtektarvert fyrir búmenn vora, að fjártalan 1859 var hèrumbil þriðjúngi minni en 10 árum áður, og sýnir það oss, hversu valt er völubeinið á fjáreigninni, og hversu mikil nauðsyn er á að hafa góðar gætur á þessum mikilvæga bjargræðisstofni á landi voru.

Ef oss heppnaðist að koma fjárrækt vorri á fót, og að fjölga fènaðinum sem landið leyfði, jafnótt og vèr bættum fjárkynið, þá væri oss opinn vegur til að selja fè úr landi, og mundi enginn efi á vera, að Englendíngar mundu kaupa af oss því meira sem vèr hefðum meira að selja, og með því meira hagnaði fyrir oss, sem vèr værum lagnari á að

---

[1]) Skýrslur um landsh. II, 100—101; I, 61; II, 877. — 1859 eru lömb talin 130,000 eptir ágizkun. — Í fjártölunni 1703, 1770, 1783 og 1784 munu lömb ekki vera talin.

vera samtaka, og koma miklu saman á einn stað á sem skemmstum tíma og með sem minnstri fyrirhöfn. Vèr getum ekki selt þeim 50 sauði, því það tekur engu að flytja svo lítið; ef vèr hefðum 500 sauði á tilteknum degi á einum verzlunarstað, þá mundi vera tilvinnanda að senda skip eptir þeim; en ef vèr hefðum 5000 sauði, sem vèr gætum safnað á einn stað á tilteknum tíma, þá mættum vèr vera vissir um nóga aðsókn frá mörgum höndum. Þannig er allt undir því komið, að varan sè ekki einúngis góð, heldur og einnig svo mikil, að það launi kostnaðinn að flytja hana, en flutníngur á fènu frá oss getur ekki orðið til neins verulegs ábata nema með gufuskipum.

## 4. ULL.

Magnús Stephensen: Um ullarvarníng. Klausturpóst. 1821, 78—83.

Þórður Sveinbjarnarson: Fáein viðvörunarorð um ullarverkun. Sunnanpóst. 1835, 110—112.

P(áll) M(elsteð): Ennþá fáein orð um verkun íslenzkrar kaupstaðarvöru. Sunnanp. 1836, 74—79, 85—89.

Hugvekja um vöruverkun á Íslandi. Reykjavíkurpóst. 1847, 97—105.

Ullin hefir nú um lángan aldur verið einn hinn mesti kaupeyrir vor Íslendínga. Í fornöld er þess ekki getið, að óunnin ull hafi verið flutt af landinu, en þar á móti var þá mestur varníngur landsmanna vaðmál og vararfeldir, og var þetta góður kaupeyrir, einkum í Noregi, eins og sjá má víða í hinum fornu sögum vorum og í kaupskrám. Á Íslandi eru þó í kaupskránum ekki einúngis metin vaðmál, bæði hafnarvaðmál og mórend vaðmál, vararfeldir og röggvarfeldir, heldur og einnig ull óunnin, bæði af sauðum, ám og gemlíngum[1]. Ull er í hinum fornu kaupskrám með

[1]) Fjárlag hèrumbil ár 1100 í Íslenzku Fornbrèfasafni I, 165—167 ár 1200, sst. I, 315—17; ár 1280 í Jónsbók, kaupab. VI. kap.

lágu verði: í kaupskránni um ár 1100, og í Jónsbók, eru þrjár vættir sauða ullar (240 pund) taldar í hundrað, þar sem nú er talin hálf önnur vætt (120 pund), og er þó bezta hundrað eptir núveranda gángverði; hefir þá ullin verið í fornöld hálfu ódýrari en nú að verðaurum; þó eru tvær vættir ullar taldar í hundrað í Árnes sýslu um ár 1200, og er þá ullin einúngis fjórða parti ódýrari en nú að verðaurum, en þriðjúngi ódýrari en í hinni elztu kaupskránni og í Jónsbók. — Í verzlunartöxtunum 1619, 1684 og 1702 er ull ekki nefnd með íslenzkum varníngi, og ekki er heldur tilgreint að neitt sè flutt frá landinu af ull árin 1624 nè 1630, en á átjándu öld er farið að flytja talsvert af henni, laungu áður en hún kom í verzlunartaxta (1776), og er talið flutt:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| ár | 1734 . . . . | 335 | skippund | eða | 107,205 | pund |
| — | 1743 . . . . | 265 | — | — | 84,800 | — |
| — | 1753 . . . . | 208 | — | — | 66,560 | — |
| — | 1764 . . . . | 124 | — | — | 39,680 | — |
| — | 1772 . . . . | 6 | — | — | 1,920 | — |
| — | 1779 . . . . | 23 | — | — | 7,360 | — |
| — | 1784 . . . . | » | — | — | 11,059[1] | — |

var verðið á ullinni þó ekki hátt um þær mundir, því í taxtanum 1776 er sett á Íslandi 16 rd. 56 sk. skippundið af hvítri, og 14 rd. 88 sk. af svartri eða flekkóttri, en í Kaupmannahöfn var gjört ráð fyrir hún gengi 28 rd. skippundið af hvítri og 26 rd. af flekkóttri, það er 7 til 8 skildínga pundið, en ekki nema 4 til 5 skildínga pundið á Íslandi, og er það ekki eptir kúrantreikníngi meira en 7—8 skildíngar í núverandi peníngum; eins var verðið lágt móti vörum, því þá fengust ekki meira en tvö almanök fyrir

[1]) Bech. Om den islandske Handel. bls. 97; Skýrsl. um landsh. I, 79.

ullarpundið, og tvö pund af hvítri ull þurfti til að kaupa einn pott af fjögra gráða brennivíni, og að því skapi var allt annað. Eptir að verzlunin var losuð 1786 og verðið á ullinni fór að hækka, hefir útflutníngur af henni farið æ vaxandi, svo að flutt hefir verið utan af hvítri ull og mislitri þannig:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1806 | ..... | 260,304 pund. |
| — 1816 | ..... | 416,375 — |
| — 1840 | ..... | 942,035 — |
| — 1849 | ..... | 1,397,148 — |
| — 1855 | ..... | 1,596,223[1] — |

Eptir að verzlan á Englandi varð frjálsari, svo að þángað má afgjaldslaust flytja óunna vöru, hefir verð ullarinnar frá Íslandi stigið lángt framyfir það sem áður var, meðan kaupmenn urðu að flytja hana alla til Kaupmannahafnar, og selja hana, helzt til Svíþjóðar, með lágu verði. Verðið á ullinni hefir verið þannig á Íslandi um hin seinustu 20 ár, eptir því sem almennast hefir verið:

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| ár 1840 | hvít ull | 24 | sk. pd., | mislit | 20 | sk. | pund. |
| — 1841 | — | 24 | — | — | 20 | — | — |
| — 1842 | — | 22 | — | — | 18 | — | — |
| — 1843 | — | 18 | — | — | 16 | — | — |
| — 1844 | — | 18 | — | — | 16 | — | — |
| — 1845 | — | 20 | — | — | 16 | — | — |
| — 1846 | — | 22 | — | — | 20 | — | — |
| — 1847 | — | 24 | — | — | 20 | — | — |
| — 1848 | — | 18 | — | — | 16 | — | — |
| — 1849 | — | 18 | — | — | 14 | — | — |
| meðalverð 10 ára | | 21 | sk. | | 18 | sk. | |

[1]) Skýrsl. um landsh. I, 79, 93, 579.

| ár | 1850 | hvít ull | 21 | sk. pd., | mislit | 19 | sk. pd. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| — | 1851 | — | 25 | — | — | 21 | — |
| — | 1852 | — | 27 | — | — | 22 | — |
| — | 1853 | — | 30 | — | — | 25 | — |
| — | 1854 | — | 30 | — | — | 25 | — |
| — | 1855 | — | 29 | — | — | 24 | — |
| — | 1856 | — | 34 | — | — | 29 | — |
| — | 1857 | — | 42 | — | — | 34 | — |
| — | 1858 | — | 25 | — | — | 20 | — |
| — | 1859 | — | 36 | — | — | 30 | — |
| meðalverð 10 ára . . . | | | 30 | sk. pd. | | 25 | sk. pd. |

Mismunurinn á verði ullarinnar, sem það hefir vaxið á seinustu 10 árunum móti 10 árunum þar á undan, verður því 9 skildíngar á pundi af hvítri og 7 skildíngar af flekkóttri. Þetta sýnist í fljótu áliti lítilfjörlegur munur, en skoðum vèr hvað það verður um allt land, og munum vèr fá nýja sönnun fyrir því, hversu mart smátt gjörir eitt stórt. Ef vèr miðum við ullarsöluna 1855, og vèr gjörum við, eins og þá, að flutt sè frá Íslandi á einu ári 4500 skippund af hvítri ull og 500 skippund af mislitri, þá verður munurinn þessi:

á hvítri ull 9 sk. pund., það er 30 rd. skippundið, eður fyrir 4500 skippund . . 135,000 rd.
á mislitri ull 7 sk. pund., það er 23 rd. 2 mk. skippundið, eður fyrir 500 skippund . 16,000 —
það er um allt land 151,000 rd.

eða rúm hálf önnur tunna gulls, sem landsmenn græða á muninum. Þetta sýnir oss, hversu mjög mikið ríður á að verð vörunnar hækki, og hversu oss ætti að vera annt um að leita allra ráða til þess, að gjöra varníng lands vors girnilegan og eptirsóktan, því þar eptir fer verðið. Einúngis skildíngs munur á einu pundi af ull er fyrir allt landið

16,666 rd. 64 sk. virði. Þetta gefur oss tilefni til ymsra skemtilegra reiknínga og eptirtektar verðra: 1784 var öll sú ull, sem flutt var frá Íslandi, tæplega 35 skippund, og með þáveranda kaupverði hèrumbil 550 kúrant-dala virði fyrir landið; nú fyrir skömmu seldu landsmenn 4500 skippund fyrir hèrumbil 100 dali skippundið, eða alls fyrir 450,000 rd., það er nærri hálf milljón á ári fyrir óunna ull eingaungu. Þannig getur varníngurinn og verð hans aukizt. Vèr sjáum enn framar hèr af, að alþíng kostar landið ekki fullan skildíng af hverju ullarpundi, þegar það kostar mest, og á hverju ári þá ekki meira en tæpan hálfan skildíng af hverju pundi, það er hèrumbil sjötugasti partur af því sem landsmenn fá fyrir þessa einu varníngstegund. — Einn skildíngur á hverju ullarpundi er hèrumbil það sem latínuskólinn kostar, og ef menn bættu ullarvarníng landsins svo mikið, að hann yrði 4 skildíngum meira virði hvert pund, gæti menn fyrir það haft nóg fè til að halda fjóra bændaskóla, sinn í hverjum fjórðúngi, sem hvor um sig kostaði eins mikið og latínuskólinn. Það er óþarfi að rekja þessa reikńinga lengra, því hver einn getur með sjálfum sèr rakið þá, og sèð um leið, hversu mikið má gjöra, ef rètt er að farið, og hvort það er landinu eða landsmönnum sjálfum að kenna nú sem stendur, að framförin verður minni en efnin eru til og vænta mætti.

Nú skulum vèr skýra nokkuð frá forlögum ullarinnar á seinustu árunum hèr í nálægum löndum. Sá er aðalmunur á íslenzkri ull og þeirri, sem annarstaðar fellur venjulega, að ullin hjá oss er »tekin af« fènu, en ekki klippt, einsog annarstaðar; kemur þetta af því, að hjá oss er fènu haldið nær villtu. Þetta hefir sína kosti, en það hefir einnig sína ókosti. Það gjörir auðveldara að halda við fjörugum og bragðlegum fjárstofni, en það venur menn á að treysta náttúrunni, veðrum og vetrum, og slá slöku við að nota náttúruna hóglega, og styrkja hana með bú-

mennsku sinni. Af þessu leiðir einnig mun á ullinni sjálfri, einsog hverjum gefur að skilja, því þegar ullin losnar sjálfkrafa á kindinni, og dettur seinast af ef hún er ekki tekin, einsog á öllu villtu fè, þá þornar upp hvert hár smásaman, eða einsog visnar, og missir vökva þann eða fitu, sem er í því meðan það er lifandi á kindinni. Þetta sjáum vèr bezt á því, hver munur er á vorull og haustull í þessu efni, að vorullin er miklu þurari og fituminni, en haustullin þvöl af fitu, því þar er hvert hár í fullu lífi á kindinni. Meðan að fjárrækt vor er í því ástandi sem hún er, þá er varla ástæða til að breyta þessu, enda hefir það ýmislega kosti, sem koma sèr vel: það er handhægt, það forðar að nokkru leyti hörundskvillum, og það er ef til vill aðalástæðan til þess kostar, sem hefir mest komið íslenzkri ull í verð á Englandi, að hún hefir á sèr einskonar glansa, þegar hún er komin í vefnað, sem menn hafa ekki orðið varir við á vefnaði úr annari ull. Ef menn vildu venja fè til að klippa það, þá mætti það víst hæglega, með því að klippa það áður en ullin tæki að losna, en til þess að menn skemmdi ekki fyrir sèr, þá þyrfti það fè, sem klippt væri svo snemma, bæði gjöf og húsaskjól og alla meðferð svo vandaða, að menn hafa varla á Íslandi nú sem stendur neina hugmynd um það. Vèr vitum dæmi til, að Davíð Skeving sýslumaður í Haga á Barðaströnd reyndi það, og lèt vel yfir það hefði heppnazt vel, en af því tilraun þessi var, eins og margar aðrar tilraunir á Íslandi, einskonar rælni, gjörð »að gamni sínu« en með engri fyrirsjá, og þar að auki á óheppilegum tímum, þá hvarf hún eins og hún kom. Samt hefir sira Jón í Möðrufelli gjört ráð fyrir að klippa lömb og úngar ær, og mun hann því hafa reynt það.

Í Danmörk er fè klippt tvisvar á ári, í fyrra sinn í Juni eða Juli, og heitir sú ull »loðull«, hún er dýrust, og kostar nú hèrumbil 60 skildínga pundið þar sem hin íslenzka

kostar 45 eða 46 skildínga; í annað sinn er klippt í September eða Oktobr., og er sú ull kölluð sumarull, hún er hèrumbil 6-7 sk. ódýrari pundið en loðullin. Þar að auki er sumstaðar haldið spanskt fè, og er ullin af því vandlega skilin að eptir gæðum. Hin almenna danska ull er talin bezt frá Lálandi, og þarnæst frá Jótlandi, þar sem eru heiðarlönd en þó ekki sendin. Menn klippa einnig ullina af gærum af dauðu fè, og selja hana, er henni þá venjulega skipt í þrjá flokka eptir gæðum; en þessi ull er í engum metum, því hún er bæði óhrein og ótótleg, viðlíka og haustull hjá oss, af því að mjög fáir þvo kindurnar áður en þeim er slátrað, og ekki heldur ullina á eptir. Þegar sauðaskinn eru rotuð með kalki, þá er safnað ullhárunum, sem af skinnunum losna, og er sú ull seld og kölluð »kalkull«, hún er svo stutt í sèr eins og klippt tog, og svo stökk í sèr, að enginn skyldi halda hún yrði notuð til neins, en hún er hvít á litinn og getur litið vel út að því leyti, hún er og seld á 15 til 30 skildínga pundið eptir gæðum. — Af danskri er hin bezta sjálenzka dýrust nú sem stendur, og er seld meðal kaupmanna á 64 skildínga pundið, eða hèrumbil 215 rd. skippundið. Til Kaupmannahafnar flyzt einnig töluvert af ull frá Rússlandi, og er sumt af þeirri ull ekki fèlegt sýnum, þellítið og fullt af illhærum; en þessi ull er stundum eignuð Íslandi, og seld sem íslenzk ull, því »góð eru börn til blóra«, og þess vitum vèr dæmi fyrir skömmu síðan. Þetta höfum vèr af því, að vanda ekki meðferð á varníngi vorum, að annar, sem er enn verri, getur gengið undir voru nafni, og spillt enn meir því orði, sem á íslenzkum varníngi liggur. Nú sem stendur er minni hluti af ull frá Íslandi fluttur til Kaupmannahafnar, en meiri hluti hennar fer beint til Englands, og það sem til Kaupmannahafnar flyzt er sent til Englands jafnskjótt og það kemur í land. Verðið í Kaupmannahöfn í hópakaupum til útflutníngs er talið (í Mai 1861):

hvít íslenzk ull, skippund . . . 150—160 rd.
mislit — — — . . . 132 —

Til Þýzkalands er annaðhvort ekkert eða mjög lítið keypt af íslenzkri ull, og verzlunarfulltrúinn í Hamborg Pontoppidan hefir ekki getað útvegað neinar skýrslur um, hvað árlega kæmi til Hamborgar eða Altona, heldur hefir hann skýrt stjórninni frá, að enginn hafi getað sagt sèr það; hann gjörir ráð fyrir, að öll ull frá Íslandi fari til Englands. Tollur í Hamborg af innfluttum varníngi er að öðru leyti ekki annar en hálfur af hundraði, og þaraðauki er skipagjald, sem hefir verið lækkað töluvert á seinni árum; gánga þessi gjöld jafnt yfir alla.

Í Noregi er ull tollfrítt til innflutníngs, og hefir verið flutt þángað frá öðrum löndum þetta, sem hèr greinir:

1855 fluttist til Noregs 3044 pund af hvítri ull frá Íslandi[1].
1856: 212,748 pd.; þar af frá Danmörk 84,213 pd.
1857: 183,626 — — — 73,710 —
1858: 181,973 — — — 153,778 —

þar af tekur Christiania optastnær helmínginn eða meira, en ekki er tilgreint hvað af þessu sè íslenzk ull; hinn danski verzlunarfulltrúi í Christiania (Andersen) heldur, að það hafi verið mjög lítið, og gengið mest til að tæta í tukthúsinu og vinnuhúsinu þar í bænum; segir hann, að í tukthúsinu sè tætt á ári hèrumbil 20 skippund af íslenzkri ull. Frá Íslandi hefir stundum verið flutt beinlínis 100 til 120 skpd. af ull á ári til Noregs, helzt að norðan og austan. Í Christiania þykja íslenzkar vörur allgóðar eptir verði þeirra, en þess er ekki getið, hversu miklu hærra verði þær gæti náð, ef þær væri betri. Frá hinum minni

[1]) Skýrsl. um landsh. I, 582.

kaupstöðum í Noregi gánga íslenzkar vörur til Christiania, og svo hefir verið um það lítið af ull (3 skipp. 276 pd.) sem var flutt til Mandal 1859. Í Kristjánssandi getur verzlunarfulltrúinn þess, að íslenzkur varníngur hafi ekki sèrlegt álit á sèr, og ullin frá Íslandi sè borguð lakar en góð ull frá öðrum löndum; 1859 um haustið fengu menn ekki nema 24-28 sk. (norska) fyrir pundið, þar sem gefið var 32 sk. fyrir góða ull annarstaðar að. Í Björgvin og norður-kaupstöðunum í Noregi gefa menn sig ekki mikið að ullarkaupum, en kaupa ullarföt unnin [1].

Á Englandi og Skotlandi eru það einkum þrír staðir, sem kaupa ull frá Íslandi; fyr hefir það verið Liverpool og Hull, en á seinni árum eru einnig komnir ullarkaupmenn í Sunderland, Edinborg og Leith, og segja menn nú, að ekki muni á neinu standa hvort sem ull er send frá Íslandi til Leith, eða til hinna fyrri staðanna. Síðan að verksmiðjurnar fóru að fjölga á Englandi, og hin enska ull að hækka í verði, hefir hin íslenzka ull einnig komizt í verð; menn hafa uppgötvað, að hún varð höfð til ymsra hluta, sem menn hèldu áður að hún væri ekki hæf til. Þegar togið er kembt úr henni þá er það sem eptir verður (þelið) bæði mjúkt og gott, og gengur liðlega út. Mullens, verzlunarfulltrúi í Liverpool, hefir skýrt frá þessu, og segir um leið, að væri vara þessi vel vönduð frá Íslandi, þá mætti selja tvöfalt meira af henni á Englandi, án þess verðið lækkaði.

Til Englands og Skotlands hafa verið fluttir beint frá Íslandi svo margir sekkir ullar, sem nú skal telja:

| | 1852: | 1853: | 1854: | 1855: | 1856: | 1857: | 1858: | 1859: | 1860: |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | 3120 | 4928 | 2945 | 2288 | 3132 | 2959 | 3015 | 2932 | 2190 |
| og þaraðauki frá Kaupmannahöfn til Hull | | | | | | | 2820 | 2946 | 618 |
| tilsamans | | | | | | | 5835 | 5878 | 2808 |

[1]) Matthiesen í Kristjánssandi 4. Mai 1860; Konow í Björgvin 5. Juni 1860.

Af hinni íslenzku ull hefir allt til þess fyrir skemmstu verið mest sókzt eptir norðlenzkri ull, einkum úr Þíngeyjar sýslu, því hún hefir verið bæði þelmikil, mjúk, bragðleg og hrein. Sunnlenzk ull hefir verið talin lökust, einkum vegna þess hún hefir verið verst þvegin, vot og söndug. Þar hefir verið fyrst og fremst 4 skildínga munur á pundinu (13 rd. 32 sk. á skippundi), og þarnæst hefir hin sunnlenzka ullin ekki selzt fyr en hin hefir verið upp gengin. Menn hafa sagt á seinustu árum, að hin norðlenzka ull hafi fremur gengið úr gildi, en hin sunnlenzka batnað, og kann að vera nokkuð sè tilhæfi til þess, að minnsta kosti er nú verðmunurinn minni en áður, og ull úr öðrum fjórðúngum mun vera stundum seld sem norðlenzk, en hvort það stendur lengur en þángaðtil Sunnlendíngar eru búnir að koma upp fè sínu aptur, er óvíst, og er þó allt þar undir komið. Það er ekki ómerkilegt að jafna saman ullarverðinu á íslenzkri ull á Englandi við ull annarstaðar að, og skulum vèr skýra frá sem var í Liverpool 1860. Þángað fluttust alls 30,848 sekkir, og var þaraf nærri helmíngur (14,331) frá Austur-Indíum, 3058 frá Rússlandi, 1978 frá Englandi og Skotlandi, 540 frá Íslandi. Dýrust af allri ull var Alpaka (2652 sekkir), og kostaði hèrumbil 10 mörk pundið; bezta ull frá Australíu hèrumbil 5 mörk pundið, íslenzk hèrumbil 36—40 skildínga, og á borð þar við var ull frá Sýrlandi og meðalull frá Persíu og Kína. Í August 1860 var seld hvít ull sunnlenzk úr skipi fyrir 12¼ d. (39 sk.) pund, og stundum voru boðnir 13 d. (41 sk.) fyrir beztu hvíta ull norðlenzka[1]. Um mislita ull var ekki spurt, en um tíma mundi hafa mátt koma út einhverju litlu af beztu mislitri fyrir 11 d. (33 sk.) pundinu.

---

[1]) Skýrslur frá Greame & Co. Februar 1860; Smith & Mullens 18. Decbr. 1860. — Á Englandi er hèr talið eptir enskum pundum, sem eru hèrumbil tólftúngi minni en dönsk.

Mart er það, sem gjöra mætti til að koma ullinni á Íslandi í hærra verð, og er það fyrst í því fólgið, sem maður getur bætt hana í sjálfu sèr, þar næst í því, sem má bæta hana í meðferðinni. Það er eitt af því sem fjárkyni fylgir, það eru ullargæðin, og þessvegna ríður á því fyrst og fremst, að velja hrútana sem bezta að því leyti. Viðgjörðirnar á fènu, og einkum lömbunum, leggur þar næst grundvöllinn til ullargæðanna, því sá, sem á horað fè á hverju vori og hálfdregið, getur aldrei vænt góðrar eða mikillar ullar af fè sínu; hann má þakka fyrir, ef höfuðið »slórir af« á kroppnum. Meðferðin og hirðíngin verður að vera þessu samfara, því þrifin eru kindinni og hverri skepnu við hálfa gjöf; þessvegna ætti enginn að forsóma böðin, sem vèr áður nefndum, og einkum valz-löginn, því þau borga sig margfalt. En þar að auki kemur meðferðin á ullinni sjálfri, og mætti reyna mart í því atriði, svo sem til dæmis að skipta ullinni sundur, eða »sortera« hana, og það ekki einúngis eptir gæðum, heldur og eptir lit, því að blanda saman ull af öllum lit skemmir mjög mikið verðið; það væri og án efa reynanda, að taka ofanaf ullinni, og selja þelið sèrílagi og togið sèrílagi, væri það mikil bót á ullinni sjálfri, og hlyti að geta borgað sig, ef menn yrði samtaka við kaupmenn í því efni. Öllum þeim, sem verzla með íslenzka ull, kemur saman um, að það sem spilli mest fyrir henni sè óhreinindi og illur þvottur, svo þeir óska einkis framar en þess, að hún verði betur þvegin. Þetta er eins hið sanna gagn landsmanna einsog hver önnur umbót á varníngi þeirra, því þeir mega vera vissir um, að kaupmenn sjá sèr þann farborða sem þeir geta, einsog þeim er ekki láanda, og fella ætíð ullina ríflega við þann muninn, sem hún er óútgengilegri, einkum þegar þeir hvekkjast árinu áður (sjá ullarverðið 1857 og 1858); eins væri það landsmönnum enginn hagur, þó þeir gæti komið því til leiðar með forsómun sinni, að kaupmenn færi sjálfir

að láta þvo ullina, því þarmeð ynni þeir það, sem landsmenn gæti unnið, ef þeir hefði upp lokið augum sínum í tíma.

Þvottur á ullinni er í sjálfu sèr svo auðveldur, fyrir hvern þann sem vill, að ekki ætti að þurfa annað en benda á að hans þyrfti með; þar hjá er það án efa víst, að mart fólk á Íslandi mun vera svo vandað, að það metur æru sína svo mikils, að það vill ekki láta flytjast frá sèr í önnur lönd það sem því sjálfu og þjóðinni allri er til mínkunar; en af því vèr ímyndum oss þó, að margir kunni að vera, sem ekki hafa rètta hugmynd um þetta, þá þykir oss rètt að taka hèr fyrirsögn á ullarþvotti eptir einni íslenzkri merkiskonu, sem bæði hefir verið í sveit og í kaupstað, og þekkir nákvæmlega alla aðferð fólks í þessu efni, einmitt þar, sem hún er hvað skást á Íslandi. Hún segir orðrètt svo fyrir:

»Það heyrir fyrst til góðs ullarþvottar, að byrja nógu snemma, ekki seinna en á áliðnum vetri, að safna þvaginu, sem til þvottarins þarf, því úr engu þvæst ullin eins vel, þegar það er hreint og nógu gamalt orðið, en nýtt er það að engu gagni. Sóda og sápuvatn er bæði dýrara og lakara. Þegar safna þarf, þá er fyrst að hafa hreina tunnu, standandi á þokkalegum stað, með þèttum hlemm yfir, svo ekki komi ryk eða neinn óþverri þar í; ílátið sama má hafa í mörg ár, því það fúnar ekki, heldur verður trèð í því þurt og hart. Áður en farið er að þvo ullina er bezt að tína úr henni allt stórt mor og smástrá, sem ekki fara við þvottinn, heldur festast í ullinni. Bezt er að þvo úti við bæjarlæk, setja þar hlóðin og hafa sem allra stærstan pottinn þegar mikil er ullin. Þenna pott skal láta rúmlega millum hálfs og fulls með hreint nógu gammalt þvag, og þegar það er orðið vel heitt, svo maður þoli ekki niðri í því með hendinni, en þó ekki sjóði, þá skal taka af óhreinu ullinni mátulega stóra þvælu og láta í pottinn, og dýfa

ullinni niður með priki, sem á að vera ekki mjög mjótt, og slètt heflað, svo ullin tolli ekki í því. Síðan skal taka grind, sem sè svo löguð, að hún falli yfir hálfan pottinn að ofan, eða þann helmínginn, sem snýr frá þvottakonunni (fyrir þessa grind er vant að hafa grindameis, en það er miklu óhentugra), og þarf þessi grind að vera stöðvuð vel, svo hún tolli. Á meðan ullarþvælan liggur niðri í þessum heita þvottalög, tekur þvottakonan stamp með köldu vatni, og lætur standa þar við hliðina á hlóðunum, á einhverju mátulega háu. Ullin þarf að liggja í pottinum hèrumbil 5 til 8 mínútur, og skal hræra með hægð af og til í pottinum með prikinu, en þó varast að ullin fari í dróma, eða komi á hana snúníngur; að því búnu skal færa ullina upp á grindina, þá er áður var getið, og láta síga úr henni þvottalöginn niður í pottinn aptur, svo ullin liggur á grindinni meðan þvottakonan tekur nýja þvælu og dýfir henni í löginn, en þegar það er búið, þá lyptir hún ullarþvælunni af grindinni með hendinni og prikinu yfir í vatnsstampinn. Þá rennur þvottalögurinn úr ullinni út í vatnið, og nú vindur hún ullina lauslega upp úr þessu vatni, og hefir það til að bæta í pottinn smátt og smátt, eptir því sem mínkar í honum. Bezt er að skipta þessu vatni hèrumbil við fjórðu hverja þvælu, og taka nýtt vatn úr læknum aptur í stampinn. Vel þarf að halda við eldinum, að eigi kólni um of í pottinum þegar í hann er bætt köldu úr stampinum. Nú kemur þvotturinn í læknum, og ríður eins mikið á að hann gángi myndarlega og vandvirknislega, eigi ullin að verða vel hvít. Bezt er að leggja breiða brú yfir lækinn neðan við bunu, og að þvottakonan búi um sig á brúnni og skorði vel körfuna eða lárinn, sem hún þvær í undir bununni, svo að karfan byltist ekki við hverja þvælu, heldur standi föst og kyr; til þess er bezt að hafa flatan slèttan hellustein í botninum á körfunni. Óhreinu ullina er bezt að hafa hægramegin við sig, en hina vinstramegin,

sem búið er að þvo úr læknum, og verður hún að liggja á borðum, eða hurðum, ef eigi er annað til, því eigi má kasta henni votri á jörðina. Með þvottinn í læknum er engin önnur regla en sú, að hafa ekki of mikið í körfunni í einu, og taka ekki fyr ullina uppúr en vatnið er öldúngis tært, hvernig sem rótað er við ullarþvælunni, kasta henni svo upp á borðið og láta síga vel úr, áður en hún er borin þángað sem hún á að þurkast; svo er ullin látin einsog í smá-drílur, og ekki breidd fyr en daginn eptir. Nokkrum dögum áður en þvegið er þarf að hreinsa vel slèttan hól eða brekku, þar sem á að breiða ullina, svo þar sè ekki nein óhreinindi, sem geti tollað í ullinni, hafa hreinar hendur þegar vot ull er snert, breidd eða tekin saman; í stuttu máli: hafa alla nærgætni og hreinlæti, en umfram allt þarf að þurka ullina vel, og eins vel að þvo og þurka mislitu ullina, eins og hina hvítu, því hún er í raun og veru ekki verri en hin ullin, nema af því menn eru vanir að vera enn kærulausari um verkunina á henni, og láta í hana allrahanda rusl; þessvegna helzt er hún ætíð í lægra verði en hvíta ullin.«

Mörg önnur aðferð er til að þvo ull og gjöra hana hvíta, en þessi er hin einfaldasta og hægasta, því henni verður komið við hvar sem stendur, á hverju bygðu bóli, og þarf ekki annað en viljann til að framkvæma hana. Það mun og sannast að segja, að á Íslandi vanti í þessu efni framar viljann en máttinn og kunnáttuna, því menn eru svo skammsýnir í því, einsog í peníngshöldunum, að fara einúngis eptir tölunni, en ekki eptir gæðunum. Menn telja til, að menn geti »lagt inn« sem flest ullarpundin, en menn gá ekki að hinu, sem meira er vert, að pundafjöldinn án gæðanna er í hæsta lagi til ábata í eitt skipti, en gæðin varníngsins gefa manni svo að segja fasta rentu, því allir þeir, sem eiga að nota varnínginn, sækjast eptir að fá hann góðan, og bjóða kappboð í þann sem

beztur er, kemst því góði varníngurinn í hærra og hærra verð, og allir keppast eptir að fá hann, en þaraf hefir sá mestan hagnað og stöðugan sem býr hann til, meðan hann heldur áfram að vanda varníng sinn. Eptirsókn eptir vörunni getur að vísu hleypt verðinu upp að nokkru leyti og um nokkurn tíma, en vörugæðin ein halda verðinu við til lengdar og eptirsókninni sjálfri, því vondri vöru spyr enginn eptir, nema til að kaupa og selja hana með afföllum.

### 5. TÓVINNA.

J(ón) J(ónsson, prestur í Möðrufelli). Sendibrèf um tóvinnu á Íslandi (1830). Ármann á alþíngi III, 117-138.

Vèr gátum þess áður, að á fyrri tímum hefði tóvinnan haft yfirborðið yfir ullina í íslenzkum varníngi, en síðan verzlanin losaðist hefði tóvinnan mínkað, en ullin óunnin orðið aðalvarníngur. Allir þeir, sem hafa ritað um þetta efni, hafa álitið þetta illt merki, því þeir segja, eins og þeir segja satt, að með því að flytja ullina óunna úr landi, þá missir maður vinnulaunin, og hinir, sem vinna ullina og spinna og vefa, fá þessi vinnulaun. En þegar maður segir þetta, verður maður að gæta að mörgu öðru um leið, og er þá einkum það aðgætanda, hvort vèr höfum þær tilfæríngar og kunnáttu, að vèr getum unnið alla ullina oss til eins mikils gagns, eins og að selja hana óunna, eða hvort vèr höfum nóga ull, sem hægt væri að koma á einn stað og vinna með meiri ábata en nú gefst. Hèr liggur það fyrst og fremst beint fyrir, að ekki er hugsanda til, að vinna í höndunum geti afkastað því, sem verksmiðjur geta afkastað; en þegar svo er, þá er það í sjálfu sèr engin ógæfa, þó maður seli ull sína óunna, þegar maður getur keypt aptur klæði og dúka allskonar miklu ódýrara en maður getur búið þá til sjálfur. Þetta verður einúngis ógæfa með því móti, ef maður fær sèr þá ekkert annað til starfa, og leggst í

iðjuleysi og deyfð, af því mann vantar ull að tæta. En þetta er sjálfskapað víti, því ætíð og allstaðar á heimilum er nóg til að gjöra, ef menn nenna því, eða hafa lag á að hitta uppá það sem gagn er að, þó engin ull væri til. En nú er það því betra, að bæði er nóg ull til tvískiptanna, og fólki er víða svo tamt að fást við tóvinnu og hefir svo gott lag á því, að ekki þarf annað en byggja á því sem er, til að koma þessu efni í gott horf með eigin efnum. Á Norðurlandi hefir tóvinnan lengi verið í allgóðu lagi, og fyrir austan í Múlasýslum eins, svo að á sumum bæjum hefir verið snild að sjá vinnubragðið; fyrir vestan og sunnan hefir það verið jafn-lakara, en einúngis af ólagi og skeytíngarleysi, sem getur lagazt með tímanum, ef fólk vill sjálft.

Vèr höfum áður getið þess, að í fornöld var mikill varníngur fluttur af Íslandi í vaðmálum og vararfeldum; og eru ótal vottar um það, þó vèr getum nú ekki sett það fram í tölum. Um marga af þeim, sem utan fóru, er sagt, að þeir hafi haft allan farareyri í vaðmálum. Á kaupskipum frá Íslandi voru vaðmál og vararfeldir helzt nefndir til varníngs. Í öllum landaura reikníngi vorum er vaðmálið undirstaðan, því hundraðið mun í fyrstu vera hundrað álnir vaðmála. Á seytjándu öld getum vèr fyrst fundið skýrslur í tölum um það, hvað flutt hefir verið frá Íslandi af tóvöru, og skulum vèr geta þess til samanburðar:

| | vaðmál. | peisur. | sokkar. | vetlíngar. | ullarband. |
|---|---|---|---|---|---|
| ár 1624: | 12,251 al. | » | 72,231 pör | 12,232 | » |
| - 1630: | 4,042½— | » | 21,694 — | 13,004 | » |
| - 1734: | 6,672 — | » | fyrir 5655 rd. og 141,415 pör að auki | 50,074 | » |
| - 1743: | 876 — | 1211 | 213,696 pör | 110,507 | » |
| - 1753: | 7,218 — | 1061 | 359,975 — | 65,629 | » |
| - 1764: | 400 — | 1026 | 252,495 — | 59,309 | » |

| | vaðmál. | peisur. | sokkar. | vetlíngar. | ullarband. |
|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | (1771) |
| ár 1772: | 765 al. | 736 | 161,799 pör | 46,394 | 25 pd. |
| - 1779: | 521 — | 884 | 136,977 — | 186,624 | » |
| - 1784: | 832 — | 1313 | 175,641 — | 94,061 | 2,944 [1] — |

Eptir að verzlanin á Íslandi var gefin lausari, hefir tóvaran frá Íslandi verið þessi, að svo miklu leyti sem vèr getum fundið í verzlunarskránum:

| | vaðmál. | peisur. | sokkar. | háleistar. | vetlíngar. | ullarbd. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | | tals | pör | | pör | pd. |
| ár 1806: | 11 stykki | 6282 | 181,676 | » | 283,076 | 9,328 |
| - 1816: | » | 2047 | 99,271 | » | 68,421 | 16,611 |
| - 1840: | 2067 al. | 1889 | 111,027 | 21,773 | 126,886 | 570 |
| - 1849: | 5802 — | 8405 | 59,534 | 31,611 | 78,962 | » |
| - 1855: | 2602 — | 2530 | 59,721 | 9,584 | 27,109 [2] | » |

Þessar tölur gefa oss svo mikið yfirlit yfir tóvöruvarnínginn, sem er nóg til þess að sýna oss aðalstefnuna, en hún er sú, að vaðmálssalan til útlendra virðist hafa fremur mínkað síðan á seytjándu öld að jafnaði, en prjónlessalan vaxið á átjándu öld að miklum mun, og mínkað svo aptur töluvert, einkum þegar vèr lítum ekki einúngis á tölurnar, heldur og á ullarvöxtinn og töluverða fólksfjölgun á landinu á seinni tímum framar en áður var. Samt megum vèr á hinn bóginn einnig gæta þess, að á fám vörum er meiri verzlan innanlands en á vaðmálum, t. d. að norðan til suðurlands o. s. frv., og er það ekki í verzlunartöflur fært; sama er að segja um allt það prjónles, sem selt er á

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 88, 89, 98; Sig. Hansen í Skýrslum um landsh. I, 79.

[2]) Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79, 93-94, 612-614.

skipum til sjófólks af ymsum þjóðum, og nemur það stundum miklu. Það virðist því, sem tóvinna á Íslandi sè ekki öllu minni nú, en hún hefir verið um hinar næstu aldir að undanförnu. En þó munurinn væri verulegri en hann jafnvel er, þá höfum vèr ráðníng þeirrar gátu hjá sira Jóni í Möðrufelli, í ritgjörð þeirri er vèr nefndum í upphafi þessarar greinar (Árm. III, 123-124). Hann skýrir þar frá, að eptir verðlaginu sem kaupskrárnar frá 1702 og 1776 settu, og stóð til 1788, þá gat vinnukonan áunnið hèrumbil $5\frac{3}{11}$ tunnu mjöls um árið með því að vinna tóvinnu, t. d. tvinnabandssokka, en eptir verðlaginu sem var 1830 þá gat vinnukonan varla áunnið rúgtunnu árið um kríng með sömu vinnu. En af hverju kemur nú þessi munur á verðinu? — Nokkuð kemur af því, að kaupskrárnar hafa að öllum líkindum sett verð á þennan varníng í hærra lagi að tiltölu, í þeim tilgángi að gjöra tóvinnunni nokkurn hagnað, því vèr megum minnast þess, að Gottrúp átti þátt í kaupskránni 1702 og Jón Eiríksson 1776; þessvegna var þá eðlilegt, að verðið fèlli síðar, þegar það var ekki lögbundið. En þar að auki eru vörugæðin orsökin, að varníngur vor er illa úr garði búinn: klúr, en þó einkum óbragðlegur og illa lagaður. Enn fremur er sú orsökin, að af því hjá oss skal vinna allt í höndunum, með einföldustu verkfærum, sem eru heilum öldum á eptir tímanum, þá verður oss vinnan svo miklu dýrari en öðrum, sem hafa spunavèlar, kembivèlar, gufuvefstóla, prjónavefstóla, o. s. frv. — En til að hafa þessar vèlar þarf miklu meiri kostnað og kunnáttu en vèr höfum enn fengið, og þarhjá efni til að láta vèl sína alltaf hafa nóg að gjöra. Eigi að síður getum vèr með hagnaði og vandvirkni ekki einúngis unnið fallega og þokkalega og framar öllu varanlega tóvinnu handa sjálfum oss, heldur og jafnvel til sölu til annara, ef vèr að eins leiðrèttum þá galla, sem nú eru á þessari vinnu, og höldum oss þó um leið til þess sem einfaldast er.

Mest af þeirri tóvinnu, sem frá Íslandi er nú flutt, fer til Kaupmannahafnar, er þar mikið selt til sjófólks, en mest fer þó aptur þaðan til annara landa, sumt til Hamborgar og svo til Hollands, sumt til Noregs og sumt til Svíþjóðar.

Í Kaupmannahöfn er verðið talið þannig (í Mai 1861):

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| eingirnissokkar íslenzkir . . . | á | » rd. | 20 sk. | til | » rd. | 24 sk. |
| tvinnabandssokkar — . . . | á | » — | 34 — | | » — | 38 — |
| tvinnabandspeisur — . . . | á | 1 — | 16 — | | 1 — | 40 — |
| vetlíngar — . . . | á | » — | 8 — | | » — | 14 — |

Á Englandi halda menn að mikið mætti selja, einkum handa sjófólki, sem fer á siglíngar í norðurhöf eða í suðurhöf, en þar sem er um grófa og verðlitla vöru í sjálfu sèr að gjöra, þar verður allt komið undir að tilbúníngurinn sè auðveldur og fljótur, lagið fallegt, útlitið gott og bragðlegt og vinnan ósvikin. Um þetta efni mætti meira segja, en vèr getum að þessu sinni komizt yfir, en vèr getum samt ekki staðið af oss að bæta því hèr við, sem hin áðurnefnda íslenzka merkiskona hefir ritað oss, enda er það og kostur við reglur hennar, að þær eru einfaldar og taka það eitt sem næst hendi liggur, og engum er ofvaxið að geta gjört nú sem stendur; en hennar orð eru þessi:

»Eg hefi opt heyrt kvartað um, að íslenzka tóvinnan væri svo hræðilega ólaglega prjónuð, og hefir verið mest talað um á sokkunum þessa mjóu knèsbót, sem sumir hafa svo heimskulega mjóa, og þykir sokkurinn verða við það fallegri í laginu; en það er þvert á móti: þeir sem eru óvanir við þetta prjónalag þykir það lýta sokkinn, og þegar búið er að þvo hann fer enn ver. Sè hann þveginn úr sápuvatni, þá hleypur hann þar eins og annarstaðar, svo nú verður hann allur strengdur að ofan, en þrengslin verða optast um kálfann, þegar sokkurinn er lítill og úr smáu haustullarbandi. Sumir láta sig draga um fáein lóð af ull,

með því að spinna bandið of smátt, en gá ekki að því, að ullar-sparnaðurinn vinnst margfaldlega upp á hinu, að vinnan gengur seinna bæði með að spinna og prjóna, og svo verða þó sokkarnir ómyndir á endanum, þunnir eins og sía og óútgengileg vara; fínir geta þeir ekki heitið, úr svona óvandaðri smábandsull, en til skjóls áttu þeir að vera, og sterkir til slits, og það eru þeir heldur ekki. Þessvegna gengur tóvaran frá Færeyjum lángtum betur en hin íslenzka, og er seld að miklu leyti eptir vigt; þar er bandið haft svo ullarmikið, að það sem er svona sæmilega fljótt að prjóna getur prjónað peisuna á dag. Íslenzka tóvaran selst einúngis til þeirra, sem sækjast eptir hlýindunum en kæra sig minna um prýðina; þeir sækjast eptir því sem er haldgott, því margir þeirra eru sjómenn og erviðismenn, sem eru fátækir og hafa ekki efni á að kaupa opt eða dýrt; en þegar nú íslenzka tóvaran reynist illa, þá segir einn öðrum frá og varar hann við: ‚þetta skaltu ekki taka, því það var svo og svo', sem hann útmálar eptir því sem hann hefir talanda til. Á þennan hátt getur eitt illt sokkapar og sviksamlega tilbúið spillt fyrir áliti á allri íslenzkri tóvöru á einum stað, ef óheppilega vill til. Fólk er auðtrúa um þá hluti, sem það þekkir lítt eður ekki. Margur segir á Íslandi: ‚það er nógu gott! það ber ekki á því innanum svo mikið prjónles'; en einhverntíma og einhverstaðar kemur hvert par sèrílagi til skoðunar, og verður keypt og tekið til slits, og þá koma svikin fram og spilla fyrir, meira en margan grunar. Það er álitið svo lítils virði að prjóna sölusokk, að við það er lögð víða lítil alúð; vinnubrögðin á mörgum heimilum gánga ofur reglulítið og tilsagnarlítið, þar slær sinn með hverju lagi og opt er sama vinnan unnin á eins margan hátt, eins og þeir eru margir sem að henni vinna, og þessu eru menn svo vanir, að þeir sem fyrir eiga að ráða láta það svona vera, þó þeim ekki líki það, því friðurinn er fyrir öllu. Únglíngarnir alast víða

upp við of mikið tilsagnarleysi, og fá of sjaldan vissar reglur að gánga eptir við hvert verk sem þeir læra, kenna þeir sèr svo lagið sjálfir, eptir því sem þeir hafa þá lag og gáfur til; af þessu verða menn opt einhæfir og sjálfbyrgíngslegir, þykjast sjálfum sèr einhlítir um allt, þykjast gjöra fullvel verk sín sjálfir, og taka sèr það sem niðurlægíng að láta segja sèr til, þegar þeir eru orðnir (sem menn kalla) fullorðnir. Opt er það, að þeir, sem minnst kunna og minnst hirða um að vanda verk sín, eru hvað lakastir í þessu efni, þó eru hinir fleiri, sem að vísu gjarnan vilja læra það sem betur fer, en þegar þeir hafa lært það, eru þeir allt of hirðulausir að halda því áfram með alúð og vandvirkni, sem til allrar vinnu þarf ef rètt er skoðað; eða þeir þykjast vera orðnir svo gamlir, að þeir nenni ekki að breyta til þaðan af, og sè komnir á þenna dag fyrir því; það er eins og þeir þykist orðnir of gamlir til gott að læra. Af því eg gjöri nú samt ráð fyrir, að þeir sè fleiri, sem læra vili, dettur mèr í hug að skrifa hèr prjónareglur á fullkomnum hæðarsokk, einsog þeir eru nú ofnir eða prjónaðir.

Ekki er hægt að ákvarða lykkjutalið, hvað fitja skal upp, því verður bandið að ráða, en hèr er mælt svo fyrir, að sokkurinn er fitjaður upp með 32 lykkjur á hvern prjón af fjórum, það er 128 lykkjur. Fitina má hafa eins og hver vill, snúna eða með görðum, eins og venjulegt er. Síðan skal prjóna þenna bol jafnvíðan, án þess að taka úr eða auka í, góðan þumlúng yfir hálfa alin að lengd, og þá er sokkurinn hèrumbil svo lángur eins og þegar búið er að prjóna hinn svo kallaða slèttakálfa. Nú byrjar úrtektin á mjóaleggnum, sem skal gánga eptir umferðatölu og takast úr tvær lykkjur frá snúníngslykkjunni á báðum oddunum, eins og venja er, svo skal prjóna níu umferðir á milli úrtekta-umferðanna, og úrtekta-umferðirnar eiga að vera níu, eða með öðrum orðum: taka níusinnum úr, og prjóna

níu umferðir á milli. Þá skal hætta að taka úr, og prjóna slèttan bekk, hèrum fíngurhæð, ofan að hælstallinum. Mælíngar-hælstallur er betri en húfuhæll, en bezt er þó að mæla ekki bandið, af því það verður opt misjafnt, nær ekki heim sumstaðar, en verður aptur sumstaðar ofmikið, og á þá að snúa lykkjunum alla aðra umferðina á hælnum, svo að hælstallurinn verði rètthverfur. Hælstallurinn má vera fíngurhæð á lengd; skal taka fjórum sinnum úr á oddunum við snúníngslykkjuna, og prjóna hvert sinn tvær umferðir á milli, áður en hællinn er felldur af, svo hann búi ekki til totu. Þegar leisturinn er tekinn upp, skal taka upp sex lykkjum fleira á hvern hælprjón en eru, til að fá mátulega víðan leistinn. Ekki má skipta á hælprjónunum, eða láta fara saman lykkjurnar af ristarprjónum á hælprjónana, fyr en búið er að prjóna svokallaða túngu, sem er prjónuð á þessa leið: fyrst skal prjóna sex umferðir, þegar búið er að taka upp, taka svo úr á hælprjóns-oddunum, sem snýr að ristarprjónunum, seinustu lykkjuna, og prjóna sex umferðir á milli; svona skal taka þrisvar úr, og prjóna í hvert sinn sex umferðir á milli. Nú er túngan búin, og nú á leisturinn að vera mátulega víður. Þá er prjónað fram að úrtekt, án þess að taka úr eða mæla á hælprjónunum, sem sumir gjöra. Ekki er hægt að gefa reglur fyrir lengdinni á leistinum; margir hafa það fyrir reglu, að láta leistinn verða eins lángan fram að úrtektinni eins og hann er víður til, og fer það dável optastnær; fallegra er, að leisturinn sè fremur í lengra lagi, því hann á fyrir sèr að styttast. Nú byrjar úrtektin: fyrst skal taka úr hverja tíundu lykkju, prjóna níu rèttar á milli og taka svona úr umferðina í kríng; prjóna svo níu umferðir á milli, taka svo úr hverja níundu lykkju; prjóna átta rèttar og taka úr þá níundu umferðina í kríng; prjóna enn átta umferðir á milli, taka svo þá áttundu úr í úrtektar-umferðinni og prjóna sjö umferðir á milli; svona skal úrtektin gánga, að einlægt fækka

lykkjurnar milli úrtektanna og umferðirnar sem prjónaðar eru á milli, t. d. sex næst, svo fimm, og frameptir því, einsog áður er sagt, þángað til ekki eru nema fjórar lykkjur á prjóni; þá skal draga uppúr og sauma vel fyrir. Bezt er að prjóna allt á heldur digra prjóna, svo að prjónlesið verði mýkra og láti betur eptir.«

Það sem næst liggur fyrir oss að gjöra við tóvinnu vora, til að bæta hana, er að koma sèr saman við kaupmenn um lag á henni og um það, hverju maður helzt á að sinna, því mikil árabreytíng er á því, hver tegund tóvörunnar er útgengilegust. Menn ætti að gánga í smáfèlög í sveitum um þetta mál, og fá kaupmenn til að útvega sýnishorn af hverri varníngstegund, eins og hún ætti að vera (bandi, sokkum, háleistum, vetlíngum o. s. frv.), með verði því sem á því væri. Á sama hátt ætti þeir að taka sýnishorn af þesskonar dúkum eða öðru, sem unnir eru annarstaðar og vel mætti vinna úr íslenzkri ull, svosem sængurábreiður, gólfábreiður o. fl. — þegar fólk væri komið uppá að vefa þetta, ætti kaupmenn að taka með sèr til reynslu, og með því móti útvega íslenzkum varníngi kaupendur og koma honum í álit. Með þessu móti yrði almennt kunnugt, hvernig tóvinnan ætti að vera til að vera útgengileg, og þá yrði allar breytíngar, sem á hana gæti komizt, öllum ljósar og skiljanlegar, og þessvegna notasælar. Gæti þessi fèlög smásaman stækkað og haft meira um sig, væri það því betra; þau færi þá líklega að gefa verðlaun fyrir framúrskarandi tóvinnu, og byrja á ymsum öðrum fyrirtækjum, sem útheimta meiri samtök og meiri efni, en sem mundu geta komið að góðum notum. Þau færi líklega að finna, að menn hefði meira gagn af að fá sèr einfaldar vinnuvèlar, til að flýta fyrir, og á Íslandi væri kostur á slíku, þar sem bæði er nógur hestakraptur og vatnskraptur til að koma allskonar vinnuvèlum á gáng, sem eru ekki stærri en þar þarf á að halda. Þá fyrst, þegar vèr erum komnir

uppá að temja náttúruöflin oss til hjálpar, getum vèr vænt að hafa fullan hag af tóvinnu vorri, og þá fyrst getum vèr vænt, að hún gefi oss fullan arð.

### 6. TÓLG.

Magnús Stephensen. Bendíng um tólg. Klausturpóst. 1823, 76—79.

Flot og tólg hafa án efa í fornöld verið mikill hluti af varníngi Íslendínga, og að minnsta kosti í Noregi hefir mikið orð farið af, að Ísland væri auðugt af þessari varníngstegund; þessvegna var það spottnafn Íslendínga í Noregi, að kalla þá »mörlanda», en Norðmenn hafa ætíð átt bart í búi um feitmeti, og þurft að kaupa til búa sinna. Þegar vèr vitum fyrst til, hvað flutt var frá Íslandi af varníngi, er tólgin eìn af þeim vörutegundum, sem nemur töluverðu, og sala hennar helzt stöðuglega við. Þó er tólg ekki verðsett í kaupskránum fyr en 1776, og mætti þar af ímynda sèr, að landsmenn hefði ekki fyr selt tólg, heldur lifanda peníng, og kaupmenn sjálfir látið bræða tólgina. Vèr skulum telja hin sömu árin sem fyr eru talin, og finnum vèr þá að utan er flutt af tólg:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1624 | 134,800 | pund. |
| — 1630 | 53,500 | — |
| — 1734 | 125,552 | — |
| — 1743 | 152,096 | — |
| — 1753 | 139,936 | — |
| — 1764 | 116,112 | — |
| — 1772 | 36,144 | — |
| — 1779 | 194,908 | — |
| — 1784 | 78,087[1] | — |

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 87, 89, 97; Skýrsl. um landsh. I, 79.

Eptir að verzlunin breyttist hefir þessi varníngsgrein aukizt töluvert, sem og eðlilegt er, eptir því sem fjárfjöldinn hefir aukizt, og er talið í verzlunarskránum utan flutt:

| | | |
|---|---|---|
| ár | 1806 ....... | 191,664 pund. |
| — | 1816 ....... | 362,599 — |
| — | 1840 ....... | 440,979 — |
| — | 1849 ....... | 646,874 — |
| — | 1855 ....... | 932,906[1] — |

Tólg sú, sem frá Íslandi flyzt, er að mestum hluta sauðatólg, og þegar hún er hrein, er hún í miklu gengi til þess að hafa hana í kerti, er þá annaðhvort steypt úr henni einsog hún er, ef hún er hrein og góð, eða hún er hreinsuð á ný, þannig, að olíuefnið eða fitan (*elain*) er skilin frá tólgarefninu, sem vèr getum kallað storkuna (*stearin*), og síðan eru búin til kerti úr storkunni, sem eru skjallahvít og eru í miklu gengi, því þau eru bæði hrein og björt, drjúg og hreinleg, og brenna upp svo sjálfkrafa, að aldrei þarf að taka af þeim skar. Munurinn á verðinu er svo mikill, að þegar pund af tólg kostar 24 sk. eða 4 rd. lísipundið, þá kostar lísipundið af einföldum kertum 4 rd. 48 sk., en af storkukertum (stearin-kertum) 10 rd. 64 sk., eða fjögur mörk pundið. Svo mikill verðmunur getur fram komið með því að bæta vöruna og kunna rètt að fara með hana. Hin íslenzka sauðatólg er í sjálfri sèr ágætlega góð, og kertasteyparar sækjast eptir henni vegna þess hún hefir minna fituefni í sèr en önnur tólg, og er þessvegna hentug til að gjöra úr storkukerti, þessvegna gengur hún ágætlega vel út, einkum ef hún er hrein og góð, því ef hún er óhrein eða blönduð, þá gefur að skilja, að sá sem kaupir hana til kerta verður að hreinsa hana og bleikja, og gengur þá svo mikið úr henni að lítið verður eptir, og þetta litla þarf enn ymsa meðferð til að

[1]) Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79, 93, 611.

geta orðið að ásjálegum og útgengilegum kertum. Frá Rússlandi kemur einnig mikið af tólg, en það er mest nautatólg, sem er miklu lakari en hin til kerta og þessvegna í lægra verði. Ef vèr nú hèldum tólg vorri hreinni og vandaðri, þá hefðum vèr í henni góða varníngstegund, sem ætíð væri útgengileg, og þegar lengra kæmist gætum vèr án efa með góðum hagnaði steypt kerti og sent utan, sem ekki er dæmalaust, því 1848 voru flutt frá Húnavatns sýslu einni 3735 pund í kertum, og frá Íslandi alls 3838 pund. En það er ógæfa vor hèr í þessu efni eins og annarstaðar, að margir hafa annaðhvort enga hugmynd um sinn sanna hagnað, eða þeir skeyta ekki um að leita hans öðruvísi en eptir gömlum vana, og margir kunna að vera þeir, sem hugsa, að kaupmaður hveti sig til af tómri eigingirni að vanda tólg sína og aðra vöru, til þess hann geti sjálfur haft allan ábatann; en þessu er ekki svo varið, því að vísu hefir kaupmaður ábata á að hafa ætíð bezta varníng, en alþýða hefir það líka, einsog dæmi eru til degi ljósari, því hvað er það sem hefir hækkað verð varníngs vors á seinni árum annað en einmitt það, að kaupmenn hafa fengið hann betur borgaðan í öðrum löndum? — Vèr finnum það ætíð, þó ekki sè fyr en vorið eptir, hvort kaupmenn hafa selt heppilega íslenzku vöruna haustið fyrir, eða ekki. Ef vèr nú vönduðum t. d. tólgina, þá yrði hún almennt eptirsókt, ekki að eins í Danmörk, heldur og í Noregi, á Englandi og víðar, en nú er það almennt óorð á henni, að hún sè óhrein, blönduð með nautatólg, gul og gömul. Þetta er líklega í upphafi sprottið af því, að menn hugsa að hafa pundatöluna sem mesta, til að láta í kaupstaðinn, en það er eins og með höfðatöluna á skepnunum, að ef varan er slæm, þá eru 100 pund af henni minna verð en 50 pund af góðri vöru, og í raun og veru eru þau verri en ekkert, því þau geta spillt góðri vöru annara, og komið óorði á allan landsins varníng ef illa vill

til, sem hverjum gefur að skilja, ef þau hitta þá fyrir, sem ætla að byrja að kaupa íslenzka vöru og nota hana. Svosem til dæmis um, að þetta er satt, skulum vèr geta þess, að í Kristjánssandi i Noregi fèkkst ekki 1859 meira en 16 skildíngar (norskir) fyrir íslenzka tólg, þar sem gefnir voru 24 skildingar fyrir vel hreinsaða norska tólg [1]. Það er þriðjúngs munur, og einúngis fyrir illa verkun.

Annmarkarnir á meðferð tólgarinnar hjá oss eru þeir helztir, sem áður er sagt, að mörinn er víða ekki tekinn nýr og hreinsaður; hann er lagður saman með blóði og tægjum, eitlum og óhreinindum, opt með óhreinum höndum þeirra sem slátra; hann er látinn verða gamall áður hann er bræddur; aðferðin við bræðsluna er ekki góð, og að síðustu er blandað í nautatólg og hverju sem menn geta tilfundið, hamsar og allt tekið með til að drýgja vigtina, en jafnframt í raun og veru til að spilla verðinu, meir en við þann muninn, sem tólgin þýngist á skálunum. Það er einhlítt meðal, ef vèr viljum bæta tólgina og sjá vorn eiginn hag, að forðast þetta, og þar með að taka upp einfalda meðferð á mörnum og bræðslu tólgarinnar, sem er hvers eins meðfæri ef hann hefir að eins rækslu á því, og svo mikla hugsun um sjálfs síns hagnað, að hann nenni því. Þessa einföldu meðferð hefir Magnús Stephensen kennt, og kveðst hann sjálfur, ásamt mörgum fleirum, hafa reynt, að hún væri hvað bezt til að fá góða tólg:

Þegar slátrað er þarf nákvæmlega að gæta þess, að hvorki blóð nè óhreinindi fari í mörinn. Nú skal taka mörinn glóðvolgan og hnoða hann svo vandlega sem bezt verður, þar til hann verður jafn og samþèttur, eins og brauðdeig; allar slýjur, sem ekki hnoðast sundur, tekur maður úr. Jafnóðum og maður hefir hnoðað lætur maður

[1]) Matthiesen verzlunarfulltrúi 4. Mai 1860.

það sem hnoðað er í pott, sem er yfir hægum glæðum, eða við jafnan og drjúgan hita. Varast skal að láta loga undir pottinum, svo hitinn verði ekki of megn, en bezt væri að hafa tvöfalda potta með vatni milli fóðra, sem væri hitað með vissri tempran, og bætt í jafnóðum og gufar upp, því þarmeð verður ætíð hægra að halda jöfnum hitanum, og bræðslan verður jafnari og drjúgari. Að rèttu lagi ætti allir að eiga sèr hitamæli, til þess að vita hvað hitanum líði. Það er grundvallarreglan, að hitinn sè jafn og hægur, en ekki snarpur. Maður lætur pottinn hálffullan af mörnum, sem hnoðaður var eins og fyr var sagt, og þegar mörinn fer að bráðna hrærir maður vel í, svo hið brædda komist ofaná, en hið óbrædda til botns. Það sem bráðnar fleytir maður jafnskjótt ofanaf, og varast að það sviðni við pottinn eða ofstikni, og síar það í hreint ílát eða pott. Með þessu móti vinnur maður þrennt: 1, þá næst mest tólg úr mörnum og verða minnstir hamsar; 2, tólgin verður hvít, hörð og góð, og aldrei þrá, ef hún stiknar ekki af ofhita; hún rennur ekki heldur niður í kertum; 3, menn spara sèr að brytja og saxa mörinn, og þó hann sè saxaður verður hann aldrei bræddur svo, að ekki verði miklir hamsar; fari maður síðan að bræla þá, fær maður tólgina flekkótta, blakkleita eða gulleita, sem rennur niður ef hún er höfð í kerti.

Sè tólgin bræld eða þrá, verður hún aldrei bætt svo, að hún verði góð, en þarámóti ef hún er blökk og óbragðleg, þá má gjöra hana hvíta og harða, og drjúgari til kerta með salmíaki og áluni, en þar á er þó töluvert vandhæfi, að menn skemmi ekki fyrir sèr þegar menn vilja bæta; enda þurfa menn ekki á þessu ráði að halda, ef menn fylgja hinum einföldu ráðum sem áður eru gefin, og margir hafa reynt til fullnustu. Hèr er í rauninni um mikið að tefla, því einskildíngs munur á hverju pundi af tólg er 10,000 dala munur fyrir allt landið, og sjáum vèr þar enn ljósan

vott, hversu landsins almenna gagn er í raun og veru allt byggt á, að hver einstakur maður vandi verk sín og gjöri skyldu sína. Í þessu efni ætti maður því fremur að geta vænt þess, sem hið almenna gagn er hèr samtvinnað gagni hvers einstaks, svo að sèrhver einn getur vænt sèr álitlegs hagnaðar einúngis með því, að fylgja einföldum reglum, og sýna nokkurn þrifnað og nokkra vandvirkni.

### 7. SAUÐAKJÖT.

Vèr höfum áður skýrt frá, að nautakjöt hefir verið flutt utan af Íslandi á fyrri öldum, þegar kúabú voru þar meiri en nú eru; en nú á síðari tímum hefir ekki annað kjöt verið flutt utan, svo neinu nemi, en sauðakjöt. Naut eru einúngis seld í kaupstaði til sláturs eða til matar útlendum skipverjum, en sauðakjöt er nú venjulega saltað niður í tunnur og flutt utan, helzt til Kaupmannahafnar, og selt þar. Þessi varníngur hefir lengi haldizt við, og eptir því sem ráða má, þá er líklega sama meðferð á honum enn í dag, eins og hún var fyrir 200 árum síðan. En það er einkennilegt við þenna varníng, að hann er tilbúníngur kaupmanna sjálfra, því það er venjan, að þeir kaupa fèð á velli og láta sjálfir slátra og salta kjötið niður, og svo mun ávallt verið hafa, því svo er gjört ráð fyrir í kaupskránni 1776, sem er hin fyrsta er setur verð á nýtt kjöt, og segir að landsmenn slátri í kaupstaðnum. Af sauðakjöti hefir verið flutt frá Íslandi eptir verzlunartöflunum:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1624 | ....... $2537\frac{1}{2}$ | tunnur. |
| — 1630 | ....... $946\frac{1}{2}$ | — |
| — 1734 | ....... 4032 | — |
| — 1743 | ....... $5277\frac{1}{2}$ | — |
| — 1753 | ....... 4430 | — |
| — 1764 | ....... 4138 | — |
| — 1772 | ....... 1528 | — |

| | | |
|---|---|---|
| ár 1779 . . . . . . . | 698½ | tunnur. |
| — 1784 . . . . . . . | 1628[1] | — |

Hver tunna er nú talin að vigt 14 lísipund, og mun það vera eptir gömlum sið. Eptir verzlunarbreytínguna 1786 er flutt utan frá Íslandi:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1806 . . . . . . . . | 2966 | tunnur. |
| — 1816 . . . . . . . . | 1111 | — |
| — 1840 . . . . . . . . | 737 | — |
| — 1849 . . . . . . . . | 1235 | — |
| — 1855 . . . . . . . . | 3362 | — |
| — 1859 . . . . . . . . | 1900 | — |
| — 1860 . . . . . . . . | 400[2] | — |

Vèr getum ráðið af þessu, að um miðja átjándu öld hefir verið mest flutt af kjöti frá Íslandi, en síðan minna, og kemur það án efa bæði af því, að menn sækjast minna eptir íslenzku kjöti en fyr, vegna þess, hversu það er illa verkað, enda mun verkun þess vera að tiltölu lakari nú en áður, við það sem annarstaðar er, því hjá oss stendur allt við sama og forn venja hefir verið, en aðrir hafa tekið sèr fram, og eru nú vandlátari með meðferð á kjöti en fyr; og meðfram einnig af því, að Íslendíngum mun ekki vera útbæriseyrir í kjöti sínu, nema þeir fái það betur borgað en kaupmenn vilja eða geta gjört, þegar þeir fá það ekki selt fyrir hærra verð en nú tíðkast.

Enginn getur efazt um, að íslenzkt sauðakjöt hljóti að vera í sjálfu sèr svo gott sem sauðakjöt getur bezt orðið, ef rètt er með það farið; það hlýtur því að vera handvömm ein, og meðferðinni að kenna, að það gengur

---

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 89, 87, 97; Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79. — Árin 1764—1772 er þess getið, að fluttar hafi verið utan 7 tunnur árlega af söltuðum sauðatúngum.

[2]) Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. á Ísl. I, 79, 93, 610; Dagbladet 11. Januar 1861.

ekki út nema til fæðu handa tukthúslimum eða þeim, sem fátæktar vegna gángast fyrir því, að það er með vægara verði en annað kjöt, og þetta kemur aptur þar af, að það er álitið lakara. Gallarnir á meðferð þess eru auðfundnir á því, að samskonar kjöt er flutt frá Íslandi saltað niður frá einstöku mönnum, og er þá svo gott sem nokkuð salt- kjöt getur verið. En þessir gallar á meðferðinni eru marg- háttaðir, og á ymsum orsökum grundvallaðir. Fyrst er slátrunin hroðaleg og óhreinleg, og er það því að kenna, að allt gengur í fumi um sláturtímann, og allir eru þá slátrarar sem geta skorið kind á háls; þá er mest hugsað um að afgreiða verzlunarmennina, fylla tunnurnar og koma skipinu af stað, en minna um hitt, að vanda svo meðferð á kjötinu, að það verði sem bezt verzlunarvara, enn síður það, að breyta til um meðferð á því, eða bæta hana, eða taka upp aðra betri. Það er einn af hinum gömlu ann- mörkum, að kjötið er ekki vandlega skilið að eptir tegund- um sínum, úngt frá gömlu o. s. frv.; þó er enn skaðlegri sá, að hvorki saltið nè söltunin er í neinu vönduð: saltið er gróft, og söltuninni er hroðað af. Þar við bætist, að kjötið er pressað í tunnunum, líklega til flýtis, svo sterk- lega, að úr því fer allur vökvi, og það verður hart eins og steinn þegar frá líður, og eiginlega enginn manna-matur. Það er og auðsèð á kjötinu, að því er rètt eins og velt innanum öll óhreinindi, bæði á jörð og af, og þetta gjörir það svo ótótlegt, að þrifið fólk býður við, og verst þó, að þessi óhreinindi eru svo grómtekin, að þau verða aldrei til fullnustu þvegin af.

Að svo miklu leyti, sem fè væri selt til slátrunar á Íslandi, og kjötið haft til verzlunarvöru, þá er það ætíð aðalregla, sem er ómissandi, að halda kjötinu öldúngis hreinu þegar slátrað er og þrífa það vandlega. En að öðru leyti ætlum vèr, að miklu betra væri að haga meðferð á því öðruvísi, og væri það helzt með tvennu móti. Ef á þyrfti

að halda fljótri afgreiðslu, þá virðist oss að bezt væri að geyma kjötið í þèttum kössum, mátulega stórum, leggja kroppana niður sem heilasta, núa þá vel alla í fínu salti og leggja þètt niður; með þessu móti, ef vel væri frá gengið, gæti kjötið haldizt nýtt og óskemmt um 6—8 vikur, meðan ferðin varir allra lengst til Kaupmannahafnar, og mætti þá selja það eins og nýslátrað með fullu verði, eða búa um það í salti, einsog menn vildi. En öllu betra væri þó hitt, að hætta öldúngis þeim tilbúníngi á kjötinu sem nú er, og sem ekki er, ef satt skal segja, nema öllum til skaða og skammar, og taka upp þann mátann, sem nú er að verða æ almennari, að sjóða kjötið niður á enskan hátt í loptheldar blikkdósir, svosem tvö pund í hverri. Þegar það er gjört, getur kjötið haldizt svo lengi sem vill, og skemmist aldrei, ef þar kemst ekkert lopt að. Þesskonar niðursoðið kjöt flytja Englendíngar nú um allan heim, og hafa fyrir nesti á lángferðum, bæði á sjó og landi, er það selt svo dýrt, að það borgar sig miklu betur að verka það á þann hátt, því á Englandi er hver tveggja punda dós seld fyrir hèrumbil 78—80 sk., eða pund af kjötinu soðnu hèrumbil á 36—40 skild., og má það heita nokkur munur frá 10—12 skildíngum, sem nú þykir vel borgað fyrir íslenzkt sauðakjöt í Kaupmannahöfn, með þeirri verkun sem nú er á því. Með því móti gæti kaupmenn gefið helmíngi meira fyrir sauðakjöt en nú, og væri það allmikill munur.

Hjá búmönnum á Íslandi er það gamall siður, að hafa hángið kjöt og skamta það til hátíðamatar. Vèr skulum nú enganveginn telja eptir hjúunum, að þau fái allan góðan viðurgjörníng, því það eiga dygg hjú skilið framar flestum öðrum, og mörgu góðu hjúi þykir einna skemtilegastur hátíðabragur að hángikjötinu. En ekki er því að leyna, að hángikjöts-tilbúníngurinn, einsog hann er hjá oss, er til mikilla ódrýginda í búi, og sviptir bæði húsbændur og hjú margri máltíð með mörgum hagnaði. Yfirhöfuð að tala eru

einætis máltíðir af flestum mat bæði dýrar og óhollar, frátekinni mjólkinni, en það er hollast að blanda matartegundum saman, og einkum kjötmat og fiski, við jarðarávöxtû, svosem korn (brauð), kálmeti, jarðepli o. s. frv. — Ólafur Stephánsson reiknar, að veturgamall sauður sè nóg máltíð handa 30 manns, og gamall sauður handa 50, soðinn í spað, þarsem þeir hrökkvi ekki hángnir fyrir helmínginn[1]. Hann bendir þar jafnframt til þess, hversu mikill sparnaður sè að kálræktinni til búnytja og matarforða, og verður aldrei ofsögum sagt af því, eða ofmjög hvatt til að meta kálgarðaræktina einsog hún er verð, því hún getur verið einn af aðalstólpunum undir góðu búi á Íslandi.

## 8. SKINNAVARA.

Egill Þórhallason: Stutt ágrip um verkun Grænlendínga á selaskinnum til báta og fatnaðar. — Fèlagsr. VIII, 172—178.

Magnús Stephensen: Um skinnaverkun (fimta búskaparhugvekja). Klausturpóst. 1820, 113—119, 127—133, 144—146; 1821, 64—65.

Baldvin Einarsson: Fáein orð um helztu atriði skinnaverkunar, eða um að barka og súta skinn. — Ármann á alþíngi IV, 138—171.

Um verkun þeirra skinna, sem til skinnklæða eiga að hafast, og um hirðíngu skinnklæða. — Bóndi, bls. 38—41.

Nautahúðir eru í öðrum löndum mikill kaupeyrir, en hjá oss er lángt liðið síðan vèr höfðum þær aflögu til verzlunar, svosem fyr gátum vèr. — Á seinni tímum höfum vèr mest haft sauðaskinn og lambskinn til sölu, geitaskinn, selaskinn, tóuskinn. Af því það er gaman að jafna þessum tegundum varníngsins saman sín á milli, þá skulum vèr tilfæra hvað utan er flutt af þeim á sömu árum og vèr höfum áður tilgreint, eptir því sem verzlunarskrárnar skýra frá:

---

[1]) Fèlagsr. V, 86.

| | nautahúðir | kálfskinn | sauðaskinn | lambskinn | geitaskinn og hafurstökur | selaskinn | mórauð og hvít tóuskinn |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| ár 1624 | 231 | 691 | 16,219 | 19,515 | 77 + 20 | 38 | 270 + 364 |
| — 1630 | 174 | 89 | 6,215 | 5,864 | 21 + 4 | 122 | 122 + 190 |
| — 1734 | 31 | » | 37,409 | 22,126 | 62 | » | 162 + 266 |
| — 1743 | 62 | » | 45,346 | 8,906 | 8 | » | 248 + 316 |
| — 1753 | 16 | » | 40,494 | 1,941 | 52 | 45 | 8 + 10 |
| — 1764 | 11[1] | » | 38,733 | 6,391 | 96 | 19 | 14 + 29 |
| — 1772 | 22 | » | 13,709 | 1,637 | 28 | » | 80 + 130 |
| — 1779 | 1 | » | 3,836 | 11,908 | 146 | » | 304 + 395 |
| — 1784 | » | » | 20,722 | | » | 25[2] | » » |

Frá því að breytíngin varð á hinni íslenzku verzlun hefir þessi skinnavara verið flutt frá Íslandi, eptir því sem verzlunarskýrslurnar tilgreina frá hinum sömu árum sem vèr höfum áður tekið til dæmis:

| | kálfskinn og nautahúðir | sauðaskinn | lambskinn | hafurstökur og geitaskinn | selaskinn. | mórauð og hvít tóuskinn. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| ár 1806 | (engin) | 32,803 | 7,427 | » | » | 145 |
| — 1816 | » » | 53,689 | | » | » | 1243 |
| — 1840 | » » | 5,105 | 10,961 | » | 124 | 218 |
| — 1849 | » » | 3,745 | 13,405 | 804 | » | 396 |
| — 1855 | » » | 12,712 | 29,385 | 385 | » | 367[3] |

Það sem vèr tökum helzt eptir um þenna varníng er, eins og vèr höfum áður sagt, að skinnavara af nautpeníngi er nú ekki föl hjá oss, og hefir lengi ekki verið; kemur

[1]) Sumar skýrslur segja, að á árunum 1764—1772 hafi verið fluttar frá Íslandi að meðaltali 71 nautahúð árlega.

[2]) Bech. Om Handelen paa Island, 87—89, 97—98; Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79.

[3]) Skýrsl. um landsh. I, 79, 95, 616—617.

það af því, að kúabúunum hefir hnignað að öllu samtöldu mikið síðan á seytjándu öld, en fólksfjöldinn meiri, og þarf því á öllu sínu skóleðri að halda. Sauðaskinnin eru án efa öll, eða mestmegnis að vísu, af því fè, sem selt er í verzlunarstaðina til slátrunar, enda eru þau flest um það tímabil, þegar mest var flutt utan af kjöti, um miðja átjándu öld. Lambskinnin vekja óskemtilegar hugleiðíngar um búhölda vora, því vèr getum hèrumbil miðað árferðið og ástand manna á milli á vorin eptir tölu lambskinna þeirra sem koma í kaupstaðinn. Þegar gott er í ári, og fèð allt í góðu standi vel fram gengið, þá þurfum vèr ekki að hugsa til að finna mikið af lambskinnum í verzlunartöflunum, en þegar hefir verið harður vetur, og einkum illt vor ofaná, allar ærnar dregnar fram horaðar, svo þær fæða ekki lömb sín, og sumt veltur útaf, bæði ær og lömb, þá er lambskinnasalan í blóma sínum. Lambskinnasala vor er því fremur ómennsku og óláns vottur, en hitt, einsog auðsætt er, því þó aldrei væri lambið sett á vetur, þá munar það miklum hagnaði að láta það lifa sumarið yfir, þegar það kostar ekkert, og skera það að haustinu til, annaðhvort dilk eða haustlamb.

Skinnaverkunin hjá oss er nú því miður, og hefir líklega ætíð verið, þvínær engin, og þótt ritgjörðir þær, sem nefndar eru í upphafi greinar þessarar, hafi gefið þarum nokkrar reglur, sem án efa munu vera góðar, og svo lagaðar, að hver einn sem vill geti fylgt þeim, þá ber ekki á að þær hafi verið teknar til greina almennt. Nú er það þó hægt að sjá, að skinnavaran getur á Íslandi verið ein hin bezta varníngstegund, þó aldrei væri nema vèr seldum hrá skinn, en þó einkum ef vèr gætum verkað þau vel til þess sem þarf til búa vorra sjálfra. Góð verkun og þrifnaður á skinnunum gjörir þau haldbetri og hentugri til hvers sem vera skal. Þar með verða þau drjúgari, eða með öðrum orðum, maður þarf færri skinn til heimilis síns

og getur selt því fleiri, og þar er enginn efi á, að sútarar eða skinnarar mætti geta haft fulla atvinnu víða á Íslandi með því að verka skinn, bæði til sölu og fyrir undirgjöf handa þeim, sem ekki geta verkað sjálfir. Með því mætti Íslandi ávinnast töluverður ábati.

Vèr skulum nú hèr einúngis tala um þá skinnaverkun, sem til bús þarf, svosem til skóleðurs og skinnklæða, og verður það þá fyrst fyrir oss, að allir kvarta um haldleysið, sem er í því fólgið, að skinnin eru hvorki þètt, og heldur ekki góð til slits, því þau eru fúagjörn, gljúp og meyr í sèr. Þetta kemur af, að skinnin eru ekki hreinsuð nýflegin, og harðna svo upp með kjöttægjum og límvökva þeim sem í þeim er, en undireins og skinnið vöknar aptur, þá leysist þetta í sundur, og feygir allt skinnið, svo það verður bæði gisið og fúagjarnt. Öll skinnaverkunin er því fyrst og fremst undir því komin, að ná úr skinnunum allri fitu, kjöttægjum og holdrosa, þarnæst að gjöra þau stinn og seig og þètt. Þegar um nautshúðir er að gjöra, eða hrossaskinn, þá skal verka þær húðir á þann hátt, að leggja þær nýflegnar í vatn, helzt rennanda, í tvö dægur. Þá skal taka þær upp og breiða þær, með holdrosann upp, á sívalan ás. Nú sezt maður upp á ásinn, og skefur með íbjúgu járni, sem til þess er gjört, staðgott en ekki beitt, allan holdrosa og himnur innan úr skinninu, og færir það fyrir sèr á ásnum eptir því sem þarf, þartil það er allt hreinsað. Nú getur maður búið sèr til kalk [1], með því að brenna krákuskeljar þartil þær molna í dupt, láta svo dupt það í góðan stamp og slá vatni á, þá rýkur úr skeljaduptinu, því það er kalk, og ólgar það, en maður hellir í það smásaman vatni, þar til það hættir að rjúka, og heitir það þá slökkt (leskjað)

[1]) Sveinn Pálsson. Um kalkverkun af jörðu og steinum, með litlum viðbæti um tilbúníng skeljakalks. (1789). Fèlagsr. IX, 91—143.

kalk, en óslökkt (óleskjað) kalk heitir áður en vatninu er hellt í. Þetta kalk hrærir maður nú sundur í vatni, þó ekki svo, að það leysist allt upp, og lætur nú húðina vera í þessu í einn, tvo eða þrjá daga, en snýr henni opt, þartil menn finna hárið farið vel að losna. Nú lætur maður húðina aptur í vatn rennanda um tvö dægur, og þvær vel úr kalkið og öll óhreinindi; síðan hengir maður hana aptur upp á ásinn, með hárraminn upp, og skefur nú hárið af með sköfunni, á sama hátt og holdrosann áður. Þeir sem ekki hafa kalk, núa holdrosann vel í muldu salti, vefja síðan saman húðina og leggja í heitt hús, svosem í fjós, þartil af henni kemur súr rotnunardaun og maður finnur hárið losna; þá tekur maður og skefur hárið af og skolar síðan húðina vel í rennanda vatni. Þessi er undirbúníngur skinnanna, en þar til kemur sú aðferðin, sem er höfð til að styrkja þau og þètta, og það er að búa til á þau bólguseyði. Það er annarstaðar gjört úr byggi með súrdeigi í volgu vatni, en hjá oss mundi þartil nægja snarpvolg mjólkurmysa. Í þetta eru skinnin látin, og mega þau liggja þar um hríð, en maður tekur þau upp við og við og lætur þau ofaní aptur, þartil maður sèr þau eru orðin þrútin upp og bólgnuð, og að mestu gagnsæ. Það er merki þess, að þá er úr skinninu allur sori, óhreinindi og límvökvi, og er það þá búið undir að barka það eða súta, og eru til þess ágætlega hentug efni á Íslandi, sem er lögur af víði, sortulýngi, beitilýngi og ymsum grösum, svo sem heimilisnjóla rót og leggjum og mörgu fleira, sem sjá má í Grasafræði Hjaltalíns, Grasnytjum sira Björns Halldórssonar, og mörgum öðrum íslenzkum ritum; telur Magnús Stephensen þetta allt upp greinilega. Þegar lögurinn er sterkur, verður húðin gagnbörkuð á nokkrum vikum, en sauðaskinn á nokkrum dögum, og verða þessi skinn margfaldlega haldbetri en þau, sem eru tekin til slits eptir að þau hafa verið hert með öllum óhroðanum, rètt eins og þau komu af skepnunni.

## 9. BEIN.

Þórður Sveinbjarnarson: Um nautkinda og hrossa bein sem verzlunarvöru. Búnaðarrit Suðuramtsins Húss og bústjórnarfèlags, I. 1, 47—51.

Það er ekki mjög lángt síðan, að menn fóru að taka upp að búa sèr til áburð og blanda hann og gjöra hann að verzlunarvöru, einsog hvað annað, sem menn geta haft not af. Menn höfðu þá rannsakað jörðina og fundið efni hennar, og sèð það, að þegar hún ber ávöxt þá er það með öðrum orðum svo, að hún veitir fæðu og fóður að nokkru leyti þeim gróðri, sem á henni vex. Það efni, sem þessi gróður þarf með, tæmist úr jörðinni, og hún getur ekki ár eptir ár fædt þann sama gróður, eða borið sama ávöxt, nema henni sè bætt upp það efni aptur, sem sú gróðurtegund hefir tekið frá henni. Þessvegna hafa menn tekið uppá ymsum ráðum, til þess að frjófgunarefni jarðarinnar geti haldizt við og ekki mínkað, og miðar þartil bæði sáðskiptin, það er að sá sínu sæðinu hvert árið eptir annað í sömu röð, til þess að hvert þeirra undirbúi jörðina undir hitt, sem á eptir kemur, og sömuleiðis tilbúníngur á ymsum áburði, sem menn velja eptir því, hverra efna jörðin helzt þarfnast[1]. Eptir að menn fengu gufuna fyrir ambátt, þá var hægt að vinna það mart í þessu efni sem áður gat engum dottið í hug, því nú þarf ekki annað en setja sèr gufuvèl og láta hana mala saman hvað sem menn vilja. Englendíngar hafa fyrstir manna komið þessu á lopt, og hefir hið afarháfa verð á öllum landvörum valdið því, einsog hverjum gefur að skilja, því þá fer það að borga sig fyrir bóndann að rækta vel jörð sína og bú sitt, þegar hann getur sèð vissan og mikinn arð vinnu sinnar, svosem

---

[1]) Um þetta er talað greinilega í stuttu máli í nokkrum ritgjörðum um jarðyrkjuna á Íslandi í Nýjum Fèlagsritum (IX. og X. ári) og í ritgjörð Guðmundar Ólafssonar um ætlunarverk bóndans.

hann getur nú, ef hann fylgir rèttu ráði. Nú geta Englendíngar látið gufuna mala sèr allt það sem notað verður til áburðar, og hún malar þeim með því gull, einsog Fenja og Menja möluðu Fróða konúngi, því áburðurinn eykur jörðinni nýtt gróðrarmagn, en sá gróður er lífgun skepna og manna, og sú auðsuppspretta, sem er gullvæg, eða rèttara að segja gulli betri. Eitt af því, sem er orðið verzlunarvara síðan að þetta komst á, eru beinin úr allskonar dýrum; eru þau möluð í gufumylnum í dupt, og seld síðan og blönduð með öðrum áburði, og er það atvinnuvegur margra að verzla með bein, láta mala þau og selja af beinamjölinu heila skipfarma, en almúgafólk og vinnufólk safnar beinunum og selur þau þeim sem kaupa handa mylnunum. Á Íslandi væri nú engin vanþörf á, þó vèr söfnuðum sjálfir beinum vorum, og möluðum þau; en meðan dugnaðurinn er ekki orðinn meiri en hann er nú, þá er betra en ekki þó menn seli það sem þeir geta ekkert gagn haft af, og er þá eins gott að safna öllum beinum saman, sem falla til á hverjum bæ, halda þeim hreinum og selja þau til verzlunar. Að því sem vèr vitum til, var það fyrst 1832, að Thomas Thomsen í Reykjavík, verzlunarstjóri þeirra Flensborgar-kaupmanna, sendi til Flensborgar 23 skippund, og seldi þau þar fyrir 4 rd. skippundið. Nokkru síðar (1838) sendi hann 41 skippund af beinum til Englands, en hann gaf 12 skildínga fyrir lísipundið eða 15 mörk fyrir skippundið; vann hann þá fyrir flutníng og kostnað sinn 9 mörk á skippundinu. Í verzlunartöflunum finnum vèr, að árið 1849 hafa verið flutt utan frá Íslandi 40½ skippund af beinum, og var það mest úr Norðurmúla sýslu, en 1855 voru einúngis flutt 4 skippund, allt úr Árness sýslu; sýnist það á þessu, að Íslendíngar eru ekki eins og Grettir sagði um sig, að þeir »lúti laungum að litlu«, heldur má miklu framar segja um þá, að þó þeir tali mikið um fátækt sína og fátækt landsins, þá gjörist

engin þjóð nú á tímum stórlátari en þeir, og óhlífnari í að kasta burtu mikilla penínga virði á ymsan hátt, og skeyta engum skaða eða fjármissi, þegar þeim býður svo við að horfa. Ef að menn gjöra við, að 200 skippundum af beinum yrði hæglega safnað í hverjum fjórðúngi lands árlega, eða 800 skippundum alls, og fengist fyrir hvert 2 rd. 48 sk., þá væri það þó 2000 rd., sem kalla má að menn fyndi í sorphaugunum, og láti liggja þar ár frá ári og að engu verða, þegar menn hirða það ekki. En þetta gæti einnig orðið miklu meira með tímanum, þegar menn væri farnir að komast uppá að hagnýta það.

## 10. GEITFÈ, SVÍN, HREINDÝR.

B(jörn) J(ónsson í Lundi). Stuttur og einfaldur leiðarvísir um meðferð á geitfè. Ármann á alþíngi II, 134—153.

Ólafur Jósepsson Hjort. Um hreindýr. (1788). Fèlagsr. VIII, 77—104.

Vèr getum talað um þessi dýr öll í einu, af því þau eru öll svo að kalla »milli húsgángs og bjargálna« í búnaði vorum; sum haldast við, en þó ekki í miklum metum; sum eru komin í órækt og fyrirlitníng; sum hafa verið í einskonar virðíng, en geta ekki notið hennar.

Geitfèð hefir í fornöld verið víða á Íslandi, sem örnefnin sýna: Geitafell, Hafrafell, Hafratindar, Geitaberg, Geitstekkur, og ótal fleiri hèr og hvar um allt land. Af fjárlagsskránni hinni elztu má sjá (Fornbrèfasafn I, 162—167), að geitfè hefir um ár 1100 verið í viðlíka metum og sauðfè, og sama er að ráða af verðlaginu í Jónsbók, en í fjárlagsskránni í Árness sýslu um ár 1200 (Fornbrèfasafn I, 315—317) er geitfè ekki nefnt, og ráðum vèr þar af, að það hafi ekki þá verið haft í Árness sýslu, allrasízt til neinna muna. Um lángan tíma var það, að geitfè var hvergi haldið á búi nema í Fnjóskadal, en nú á seinni árum eru farnar að dreifast af því stöku kindur í önnur

hèruð, svosem í Eyjafjörð og Skagafjörð, vestur í Dali og vestur í Vestfjörðu, og suður í Borgarfjörð, en ekkert austur svo að getið sè. Eigi að síður er geitfè góð eign ef vel er á haldið, eins og skýrt er frá í hinni greinilegu og vel sömdu ritgjörð í »Ármanni«, sem þegar var getið. Það er sá eini gallinn, að ekki dugar að fara í geitahús að leita ullar, en þó þetta kyn vanti ullina, þá er bæði mjólk og smjör, ostar, kjöt og skinn af því ríkulegt endurgjald þarfyrir, og allir hafa verið samdóma um, að gjöra engu minna úr geitfè en sauðfè að öllu samanlögðu. En einkanlega eru þær jarðir lagaðar fyrir geitfè, þar sem er kvistland og góð vetrarhagbeit.

Svín hafa menn haft á Íslandi í fornöld svo mörg, að ótrúlegt mætti þykja ef örnefnin bæri þess ekki svo ljósan vott. Þegar á leið hefir svínaræktin minkað, og það er helzt á stórbúum að getið er um svín, svosem í búi Guðmundar ríka á Reykhólum. Á sextándu öld og síðan munu varla hafa verið svín á búum upp til sveita. Menn hafa jafnvel haft óbeit á svínum, og hafa enn í dag, og mætti geta þess til, ef það væri ekki ofdjarft til getið, að þetta væri sprottið frá Mósis lögum, eða frá biblíunni, því Gyðíngum er eins og vèr vitum bannað að eta óhrein dýr, og þar með er talið svínið. Það má finna fleiri atriði hjá oss, þar sem einskonar gyðíngatrú eða kenníngar frá Gamla Testamentinu hafa komið fram, að sínu leyti einsog vèr getum rakið viðbjóðinn á hrossakjöti fram til kathólsku trúarinnar, eða til kristniboðsins, af því að kristniboðarar vildu framar öllu vekja viðbjóð á því, sem var ypparsti rèttur á borðum í blótveizlum heiðíngjanna. Á seinni tímum eru margir við og við farnir að koma sèr upp svínum, og hefir það einkum verið í verzlunarstöðum og kríngum þá, en vèr eigum lángt í land til þess, að svínarækt geti orðið að verulegu landsgagni, sem hún mundi þó eflaust geta orðið, ef henni væri nokkur alúð

sýnd. Eptir þeirri kunnáttu sem hjá oss er, getum vèr helzt hugsað oss svín höfð í veiðistöðum og á sjáfarjörðum, þar sem töluvert berst að af sjáfarafla, og allskonar úrkasti. Ef menn eru ekki vandfýsnir með kjötmetið, þá geta menn vel alið svín á þessu nærþví kostnaðarlaust, en sè menn vandlátari, eða vili vanda eldið betur eða selja svínakjöt og flesk, þá geta menn alið þau nokkra mánuði, áður þeim er slátrað, og mun það án efa svara kostnaði, ef þeir færi með sem kynni.

Hreindýrin eru, sem allir vita, flutt til Íslands fyrst hèrumbil 1770, og var það tilgángurinn að þau skyldi tímgast þar og verða einskonar búsmali og málnyta, eða í stuttu máli, að hreindýrið skyldi verða eins nytsamt dýr á Íslandi eins og það er á Finnmörk. Reynslan hefir sýnt, að dýrin geta lifað á Íslandi og tímgast, en not þeirra hafa lítil orðið, og þessvegna hafa sumir hafizt máls á, að færa sèr þau í nyt á annan hátt en híngaðtil, og haldið, að það væri handvömm ein, að þau væri ekki tamin og haldin sem alidýr. En þó tilgángurinn með flutníng þeirra til landsins hafi vissulega verið góður, þá höldum vèr þó, að skaði og ábati af þeim hafi hèrumbil eða þó tæpast jafnað sig, og að mikill ókunnugleiki, annaðhvort á dýrunum og þeirra eðli, eða á landinu og á landsmönnum, eða hvorutveggja, hafi lýst sèr þar, er menn ímynduðu sèr að þau gæti orðið að notum öðruvísi en til veiða. Þeir sem eiga að hafa not af þessum dýrum, verða að vera þeim og þeirra eðli háðir; þeir verða að vera einskonar hjarðmenn, og fylgja hjörð sinni, því þeir lifa mest af henni. Þannig lifa Finnar, þeir búa þar sem hreinar þeirra hafa haga, og þegar hagalaust er orðið, og dýrin leita sèr að annari beit, þá verður Finnurinn að fylgja eptir með allt sitt hyski. Hann verður því að búa í tjöldum eða gömmum, leita til fjalla stundum og stundum til fjöru, allt eptir því sem dýrum hans hagar. En þetta er ekki búnaðarháttur

eða eðli Íslendínga, og því verða þeir aldrei hreindýrabændur. Nú skyldi menn þá hugsa, að þeir gæti náð villidýrum og tamið, og vanið þau þannig sèr til nota; en bæði sýnir reynslan, að það hefir aldrei heppnazt, og það hefir Hjörtur prestur einnig sagt í ritlíng þeim, sem vèr þegar nefndum, að vilt hreindýr yrði trautt eða aldrei tamin, enda eru þau hreindýr, sem kölluð eru tamin, meir en hálfvilt og mjög óstýrilát, en þau hin viltu, sem tekin verða til tamníngar, hlaupa fyr eða síðar frá manni og í hóp hinna viltu, og nást þá trauðlega aptur. Ef hreindýr ætti að verða nokkur bústofn á Íslandi, þá yrði að fá þángað Finna, sem byggi á sinn hátt með hjörðum sínum, og er það efasamt, hvort þarmeð væri nokkuð verulegt áunnið, því þeir yrði þá að flytja með sèr hjarðir sínar af tömdum dýrum. Vèr ætlum, að hreindýr á Íslandi verði aldrei til annara nota, en til að æfa skyttur á dýraveiðum.

### 11. ALIFUGLAR: HÆNS, GÆSIR, ENDUR O. fl.

Meðal ymsra annara hluta, sem sýna, að búmennska manna á Íslandi í fornöld var miklu meiri og fjölskrúðugri en á seinni tímum, er það, að þá höfðu menn alifugla á bæjum, eins og títt er í öðrum löndum. Hænsa-þórir fór með hæns úr Borgarfirði og norður í land með öðrum varníngi, sem hann hafði til sölu; það sýnir, að þá hafa verið hæns höfð á bæjum í Borgarfirði, og svo hefir líklega víða verið. Ásmundur á Bjargi í Miðfirði hafði 50 gæsir á búi, og kjúklínga marga, sem Grettir var settur til að vakta, svo sem segir í Grettis sögu. Í hinum fornu lögum vorum er gjört ráð fyrir alifuglum og marki á þeim, má þar af sjá, að það hefir verið almennt að hafa þá á bæjum. Nú er það óvíða að menn sjái alifugla á bæjum, helzt hæns, en ekki er haft neitt val á þeim fuglum, eða útvegað betra kyn, sem þó er að fá, t. d. frá Englandi eða Skotlandi, því þar hafa margir menn skemtun af að ala

upp eins fugla og dýr af ymsu kyni og með ymsum tilbreytíngum. Vèr viljum nú enganveginn ábyrgjast neinn sèrlegan ábata í dalatali af alifuglum á Íslandi, sízt á meðan menn eru að læra að fara með þá, en það er í marga staði skemtilegt að halda alifugla á bæjum, þegar það er gjört með þrifnaði og rækslusemi, og þar að auki er verulegt gagn að þeim, til að fá meiri tilbreytíng í mataræði og nokkuð til að gæða með fólki sínu á tyllidögum. Í varpeyjum eru bein not að alifuglum, því þeir lokka fugl að sèr. Til þess að sýna, að alifuglar geti þó gefið af sèr ekki lítið, þá skulum vèr geta þess, að til Englands hafa fluzt frá Belgiu og frá Frakklandi hænsaegg milljónum saman, og eru keypt fyrir ærna peninga; væri því þareptir egg að fá á Íslandi af alifuglum, þá væri þau fyrst og fremst mikill búbætir heimafyrir, og þar að auki mætti selja þau ómælt og flytja þau til annara landa, ef þareptir væri nóg til af þeim, og menn kynni að búa vel um þau, sem er hægt, ef þau eru tekin ný og lögð niður svo ekkert lopt komi að þeim. Kjöt af alifuglum má sjóða niður eins og annað kjöt, til geymslu eða til sölu; gæsabríngur eru seldar reyktar til sælgætis, og svo er ótölulega mörg aðferð til að hagnýta sèr þessi gæði á ymsan hátt, eptir því sem menn hafa lag og kunnáttu til.

## 12. VILLIFUGLAR: ÆÐUR, LUNDI, FÝLÍNGUR, ÁLPT, RJÚPA o. fl.

Ólafur Stephánsson: Um æðarvarp. (1784). Fèlagsr. IV, 208—233.

Um æðarvarp og dúnhreinsun. Gestur Vestfirð. II, 73—112; III, 97—99.

Meðferð fiðurs og vöndun þess. Gest. Vestfirð. II, 51—60.

Ólafur Ólafsson: Um fuglaveiðina við Drángey á Skagafirði. (1783). Fèlagsr. III, 216—229.

Einhver hin heppilegasta og fegursta framför í búnaði vorum á seinni tímum er það, hversu aukizt hefir víða æðarvarp og dúntekja. Það virðist svo, sem menn

hafi fyrst farið að leggja alúð við þessa rækt á Breiðafirði, enda er þar og bezta færið til þess; síðan fór það að útbreiðast, og fyrir sunnan einkum fyrir alúð Skúla landfógeta Magnússonar og þeirra feðga Ólafs stiptamtmanns og Magnús Stephensens, sem vörðu æðarfuglinn með munni og penna. Nú eru án efa allir orðnir sannfærðir um, að fugl þessi sè eitt hið fegursta og nytsamasta hlynnindi sem landið á, og í öðrum löndum, þar sem æðarfugl er, hafa menn nú á seinustu árum farið að sjá, hver yfirsjón þeim hafi orðið, að leggja ekki rækt við fuglinn og friða hann, og taka fram dæmi Íslendínga í þeirri grein. Ýmsir merkir menn hafa orðið til þess hjá oss, að styðja að rækt æðarfuglsins, og að bæta hreinsun dúnsins, og hefir það ekki orðið ávaxtarlaust, þó sumt megi betur verða en enn er. Eptir því sem sagt er frá, þá hefir enginn dún verið hreinsaður á Íslandi fyrst framanaf, og í elztu kaupskránum er ekki getið um dún sem verzlunarvöru; 1624 og 1630 er enginn dún heldur talinn með útfluttri vöru. Bogi Benediktsson á Staðarfelli hefir sagt svo frá, að Jón Pètursson í Brokey hafi fyrstur manna á Vesturlandi farið að hreinsa æðardún, og komið verði á hreinsuðum dún fyrst upp í slèttan dal (krónu) og síðan upp í spesíudal (spesíu), en áður var óhreinsaður dún seldur eptir Búalögum[1], eða pundið á alin. Á átjándu öld er farið að telja dún með útfluttum vörum, bæði hreinsaðan og óhreinsaðan, og ætlum vèr það hafi þá mest verið úr Breiðafirði. Í kaupskránni 1776 er fyrst talinn æðardún hreinn og óhreinn með tilsettu verði, sem er 1 rd. 56 sk. fyrir pund af hreinsuðum, en 14 sk. fyrir pund af óhreinsuðum, og munar það allmiklu fyrir þá sem nenntu að hreinsa, en fyrir pundið af hreinum dún gat maður þá fengið hartnær

---

[1]) Feðga-æfi epti Broga Benediktsson, bls. 11.

hálftunnu af mjöli. Það sem talið er flutt frá Íslandi á átjándu öld er þetta:

| ár | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| ár 1734 | hreinsaður dún | 172 pund, | óhreinsaður | 5936 pund |
| — 1743 | — | — 142 — | — | 4750 — |
| — 1753 | — | — 172 — | — | 3174 — |
| — 1764 | — | — 331 — | — | 1992 — |
| — 1772 | — | — 281 — | — | 1097 — |
| — 1779 | — | — 2401 — | — | 76 — |
| — 1784 | . . . . . . . . . . . . | alls 1930 pund[1] | | |

Það er eptirtektar vert, að 1779 er dúninn mestallur hreinsaður, og þar að auki orðinn að tiltölu miklu meiri en áður, kemur það án efa af því, að kaupskráin frá 1776 gjörir svo mikinn mun á hreinsuðum dún og óhreinsuðum, og líklega jafnframt því, að hreinsaður dún hefir þótt vel borgaður í kaupskránni. Eptir að verzlunin varð frjálsari, eða frá 1786, hefir verið flutt af æðardún frá Íslandi eptir verzlunartöflunum:

| ár | | |
|---|---|---|
| ár 1806 | . . . . | 2184 pund. |
| — 1816 | . . . . | 6480 — |
| — 1840 | . . . . | 5329 — |
| — 1849 | . . . . | 3991 — |
| — 1855 | . . . . | 4116[2] — |

Þeir sem þekkja vel til gizka þó á, að flutt sè 6000 pund árlega frá Íslandi á seinni árum[3], og er það ekki ólíklegt, því mart er selt í smákaupum til einstakra manna, sumt til Frakka og til ymsra annara. Þegar þar að auki er bætt við því, hvað selt er og lagt til rúmfata í landinu sjálfu, þá sjáum vèr, að þessi varníngsgrein er mikils virði og

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 98; — Sig. Hansen í Skýrslum um landshagi I, 79.

[2]) Skýrsl. um landshagi I, 79, 94, 615.

[3]) Gest. Vestf. II, 111.

verð þess, að henni sè allur sómi sýndur. Það er kunnugt, að Íslendíngar hreinsa sjálfir dún sinn, en Grænlendíngar selja sinn óhreinsaðan, eða lítt tíndan, og er hann hreinsaður í Kaupmannahöfn, á kostnað konúngsverzlunarinnar, er haft til þess húsrúm og ofn og einfaldar tilfæríngar, sem lýst er í »Gesti Vestfirðíng« III, 97—99, en fátækar konur vinna að hreinsuninni, og er hún vel vönduð, svo að dúninn verður teygður einsog þráður. Munurinn á hreinsuninni kemur einnig fram í verðinu, því eptir verzlunarskránni í Kaupmannahöfn er verð á grænlenzkum dún 7 rd. 72 sk. til 8 dala, þegar íslenzkur dún gengur frá 4 rd. 80 sk. til 5 rd. 72 sk.; má þaraf jafnframt sjá, að hinn grænlenzki er að mestu jafn að gæðum, en hinn íslenzki er mjög misjafn. Þó borgar það sig vel að hreinsa dúninn betur, því t. d. á Englandi mætti vel fá eitt pund sterlíng, eða hèrumbil 8 rd. 80 sk., fyrir pundið af bezta dún, eptir því sem kunnugir segja, og er það nær helmíngi meira en nú er gefið fyrir íslenzkan dún.

Þeir sem hafa mikinn dún ætti að byggja sèr ofn til að þurka hann í, sem væri svo lagaður, að hann hèldi vel hitanum, en tæki ekki reyk í sig nema til hitavaxtar. Yfir eldinum ætti maður fyrst að hafa járnhellu, og svosem þverhönd ofar aðra, með smágötum á. Þegar hellurnar eru orðnar heitar þá lætur maður dúninn á efri helluna, mátulega visk í senn, og jafnar hann og veltir til þess hann er þur allur, en götin eru til þess að vætan úr dúninum drjúpi þar í gegn, og hann þorni því fyr allur jafnt, en millibil milli hellnanna er haft til þess að tempra hitann, og fá hann jafnari. Þegar dúninn er orðinn vel þur, en ekki svo að hann breyskist, er hann tekinn milli handanna, mátulega stór visk í senn, og hreinsaður með því að velta honum á mjúkum ólarstrengjum eða selskinnsstrengjum, sem eru spenntir hver jafnsíða öðrum einsog á hljóðfæri, en þó nokkuð hallt niður á við að þeim sem hreinsar. Þá dettur

óhroðinn niður smásaman milli strengjanna, en dúninn verður svo hreinn og jafn, að maður getur teygt úr honum einsog spunninn þráð. Bezt er að hreinsa með höndunum, en varast að hræla dúninn, því það rífur hann og skemmir.

Lundinn er oss mjög gagnlegur fugl, því af úngum hans, er vèr köllum kofur, eða pysjur, fæst mest og bezt af fiðri því, sem flyzt frá Íslandi, og er það ekki lítill varníngur, en mætti þó vera miklu meiri og betri, ef vel væri á haldið. Fiður það, sem er flutt frá Íslandi, er að vísu ekki allt kofnafiður, en af því það mun vera yfirgnæfandi, þá er engin aðgreiníng gjör á því og öðru fiðri, svo vèr verðum að telja það í einu lagi. Vèr finnum, að flutt hefir verið frá Íslandi af fiðri:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1624 | 232 | pund. |
| — 1630 | 1248 | — |
| — 1734 | 2960 | — |
| — 1743 | 752 | — |
| — 1753 | 4528 | — |
| — 1764 | 416 | — |
| — 1772 | 608 | — |
| — 1779 | 1520 | — |
| — 1784 | 790[1] | — |

En síðan verzlunin var losuð hefir þetta verið flutt utan, eptir því sem í verzlunarskránum stendur:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1806 | 8,528 | pund. |
| — 1816 | 15,987 | — |
| — 1840 | 11,563 | — |
| — 1849 | 19,628 | — |
| — 1855 | 25,097[2] | — |

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 88—89. — Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79.

[2]) Skýrsl. um landsh. I, 79, 94, 615.

Fiðrið gæti hækkað töluvert í verði og orðið enn meir útgengilegt ef það væri betur verkað, en gallinn á því er sá, að fiðrinu öllu er slengt saman, í stað þess að hafa hálsfiður sèrílagi, bríngufiður sèr og bakfiður og vængjafiður sèr. Annar gallinn er sá, að fiðrið er opt illa þurkað, og ekki viðrað til hlítar, svo úr því fari allur óþefur; eða það er selt glænýtt, í stað þess að geyma það árlángt og hafa það vel hirt og viðrað. Að vèr ekki fáum oss til orða, þegar það er látið vera fullt af óhroða, heilum vængjum og vængja stubbum, svo það vellur af ýldu og maðki. Með slíkum sóðaskap má skemma allt, bæði fyrir sèr og öðrum, svo allur varníngur landsins verði forsmáður, og þeir eins, sem hafa hann á boðstólum, og því er miður, að íslenzkur varníngur hefir ofmjög átt því að mæta, landinu til hins mesta skaða. Ef menn vilja verka vel fiður sitt, og koma því í hærra verð, þá eru góð ráð lögð til þess í ofannefndri ritgjörð í »Gesti Vestfirðíng«, og getum vèr vísað til hennar, því hún mun vera samin af manni, sem var þessum hlutum nákunnugur.

Kofurnar sjálfar eru nú saltaðar niður og seldar manna á milli, en eins mætti og sjóða þær niður og selja, einsog fyr var sagt um kjötið.

Fýlíngur (fýlíng, fýlúngi, fýll) er mestur á Vestmannaeyjum, og útbreiðist óðum í Skaptafells sýslu austur með sjó; eptir því sem Faber skýrir frá, er hann og í. Látrabjargi og í Grímsey. Hann hefir nafn sitt af því, að hann hefir þá eina vörn móti óvinum sínum, að spúa á þá feiti eða lýsi, sem er svo daunillt og grómmikið, að mörgum býður við, og þessi óþefur loðir í fiðrinu, og í sængurfötum sem það er í, svo margir hafa viðbjóð á þeim. Vegna þessarar ólyktar er fýlíngafiður víða illa ræmt, en þar er enginn efi á, að ráð megi finna til að koma þessum daun úr fiðrinu, og gjöra það með því útgengilegt. — Sama er að segja um fuglinn sjálfan, að eins má taka af honum

brækjusmekkinn, og mætti þá sjóða hann niður á sama hátt og fyr er sagt.

Álptin er svo fagur fugl og skemtilegur, að þó hann væri til einkis varníngs nýtur, þá er það hin mesta skemtan að vita hann eiga bústaði svo víða á landi voru. Í öðrum löndum temja menn álptir, stýfa vængi þeirra, svo þær geti ekki flogið lángt, og hafa þær á tjörnum eða vatnarennum við bæi sína til gamans. Þetta mundu menn geta gjört eins hjá oss, og væri það mesta bæjarprýði. Álptin verpir nú, einsog vèr vitum, uppi á fjöllum, í vatnahólmum, og eru egg hennar afbragðs góð, en þegar hún er í sárum, eða fellir fjaðrir, fer hún flokkum saman ofan til sjáfar, og týnir þar fjöðrum sínum á víð og dreif, eru þær síðan tíndar saman og seldar til varníngs, og sömuleiðis álptarhamir. Það sem vèr finnum nú að hafi verið flutt fra Íslandi á ymsum tímum er þetta:

| ár | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| ár 1624 | álptarfjaðrir, | tals | » | álptarhamir, tals | » |
| — 1630 | — | — | » | — — | » |
| — 1734 | — | — | 12,800 | — — | » |
| — 1743 | — | — | 1,750 | — — | » |
| — 1753 | — | — | » | — — | » |
| — 1764 | — | — | 1,900 | — — | » |
| — 1772 | — | — | 400 | — — | » |
| — 1779 | — | — | 28,975 | — — | 48 |
| — 1784 | — | — | 16,093 | — — | 98 |
| — 1806 | — | — | 17,578 | — — | 55 |
| — 1816 | — | — | 30,550 | — — | 105 |
| — 1840 | — | — | 40,500 | — — | 260 |
| — 1849 | — | — | 21,875 | — — | 94 |
| — 1855 | — | — | 8,950 | — — | 87[1] |

[1]) Bech. Om Handelen paa Island. bls. 98; — Sig. Hansen í skýrsl. um landsh. 1, 79, 94, 115—116.

Þar sem fjaðrasalan virðist að hafa mínkað á seinni árum svo mjög, þá kann það að vera af því, að álptarfjaðrir hafa verið áður keyptar til penna, en nú eru stálpennar orðnir algengastir; nú eru keyptar í kaupstöðum svo kallaðar »algildar« fjaðrir og »hálfgildar«, en ekki minni.

Rjúpan er svo alkunnur fugl á Íslandi, og svo auðveiddur, að það er næstum undarlegt að Íslendíngar veiða ekki miklu meira af henni en þeir gjöra, jafnvel þó þarvið gæti áunnizt mörg máltíð til heimila þeirra, því rjúpan er allstaðar talin með beztu fuglum til borðs. Hana mætti eins sjóða niður, og geyma eða selja á þann hátt. Frá Íslandi hafa rjúpur helzt verið sendar til sælgætis, og sjaldnast taldar í verzlunartöflum, þó höfum vèr fundið, að árið 1855 hafa 10,000 rjúpur verið fluttar frá Íslandi til Danmerkur.

Margir eru þeir villifuglar á Íslandi, sem mætti veiða, og teljum vèr einkum þartil villigæsir og villiendur, heylær, selnínga o. s. frv. Til þess að veiða villiendur hafa menn ymsar veiðibrellur, sem menn setja upp í vogum og víkum eða árósum, eða tjörnum, þar sem þær hafast við. Menn búa sèr til úr trè eða einhverju lèttu efni myndir fuglsins, og mála þær með sömu litum; neðan í búkinn festa menn mjóan hlekk. Nú leggja menn smáriðið net í hríng, þar sem endurnar eru vanar að sækja að, og sá þar innaní hrognum eða einhverju því, sem þær sækjast eptir, festa síðan fuglmyndirnar ofaná netið hèr og hvar, og haga svo til, að fuglmyndin rètt syndi á vatninu, en netið í kafi. Þá sýnist öndunum, að þar syndi fèlagar sínir, og hænast þar að, stínga sèr síðan og koma þá upp í netið. Með þessu móti má veiða mikið af villiöndum, og með áþekku móti villigæsir, en æðarfugl ætti menn að varast að egna fyrir, því hann gjörir lítið gagn veiddur hjá því sem hann gjörir með því að færa oss dún og egg; það er því rètt og lofsvert, að lögin hafa sterklega friðað hann, og ætti allir að gjöra sèr að skyldu að halda stránglega það laga-

boð, því það hefir áunnið landi voru margra þúsunda dala virði, og þeir, sem hafa verið þess frumkvöðlar og fylgt því fram; en hinir spilla miklu landsgagni, sem af öfund eða skammsýnni fíkn leggja fyrir hann veiðibrellur, og reyna þarmeð til að veiða hann eða eyða honum.

### 13. FJALLANYTJAR: FJALLAGRÖS O. fl.

Það er alkunnugt, að á Íslandi vex fjöldi nytsamra jurta og grasa, og margir hafa ritað í bókum sínum um not þeirra, svo sem Eggert Ólafsson í »Búnaðarbálki«, sira Björn Halldórsson í »Grasnytjum«, Oddur Hjaltalín í »Grasafræði«, og nú nýlega hefir komið út laglega saminn bæklíngur um »íslenzkar drykkurtir«[1], sem óskanda væri að margir vildi færa sèr í nyt. Vèr minnumst ekki svo á þetta efni, að vèr hugsum þarmeð til varníngsauka, heldur miklu fremur til hins, að menn eiga þar hjá sèr jurtir, sem eru annaðhvort hinar sömu sem menn kaupa frá öðrum löndum í gyltum brèfum, stundum myglaðar og fúnar, eða þær eru aðrar og öllu skárri en hinar. Það eru þessvegna í raun og veru engar öfgar, þó jurtir þessar væri fyrst og fremst almennt hagnýttar, og þarnæst gæti orðið að varníngi, einsog jurtir eru annarstaðar, því ekki er til dæmis að taka teið annað en blöð af jurt, sem eru orðin að verzlunarvöru og seld árlega fyrir margar milljónir dala. Sama er um mart annað, og þegar vèr þykjumst ætla að spara kaffekaupin, og kaupum í þess stað »síkoríu« eða »Lövetand«, þá væri vert fyrir oss að hugsa eptir, að þetta sem vèr kaupum er ekki annað en malaðar og brendar hrafnablöku eða skarifífla rætur, sem hver einn getur tilbúið sèr til kaffes þegar hann vill, með mjög ein-

[1]) Alexander Bjarnason. Um íslenzkar drykkurtir, söfnun þeirra, geymslu, nytsemi, verkanir og tilreiðslu. Akureyri 1860. 64 blss. 16mo. á 24 skild.

földu móti[1]. Sama er að segja um teið, að þar sem vèr kaupum nú útlent tegras, optast uppþurkað, þá höfum vèr bezta og heilnæmasta tegras heima hjá oss, og troðum undir fótum víðahvar daglega, sem er blóðberg og rjúpnalauf. Það sem vèr viljum helzt drepa á hèr eru fjallagrösin, sem eru alkunnug og allvíða notuð, og þykja ætíð mikilsverð. Þau eru einnig metin sem ein af varníngstegundum landsins í verðlagsskránum á hverju ári, og venjulega talin hèrumbil 80 skildínga fjórðúngurinn, eða 8 skildínga pundið. Á seinni árum vitum vèr ekki til þau sè flutt utan sem varníngur, og ekki heldur um þann tíma sem einokunin stóð, en ár 1806 er talið að flutt hafi verið til Danmerkur 272 pund og 1816 sömuleiðis 448 pund. Þau eru mest keypt í lyfjabúðum og höfð til læknínga, því þau eru svo yfrið holl, einkum brjóstveikum. Vèr gjörum nú ekki ráð fyrir samt sem áður, að þau verði eða geti orðið neinn ábatasamur varníngur fyrir oss, en þau hafa þann kost, sem er í rauninni eins góður, að þau geta verið til hins mesta búbætis og sparað manni mikil kornkaup, en þetta er í sjálfu sèr eins mikils vert einsog þau væri ábatasamur varníngur. Vèr skulum þessvegna geta um í fám orðum, hvernig grösin verði hagnýtt með bagkvæmasta móti, og tökum vèr það eptir merkum manni, garðyrkjumanni *Schübeler* í Christjania.

Það er kunnugt hjá oss, að hafa fjallagrösin í grauta, en það eru færri sem sækjast eptir þessum grautum, því

[1]) ein aðferð, sem hefir verið kennd í Noregi, er sú: maður grefur ræturnar á vorin og safnar þeim, skolar þær vel, sker þær í smáa teninga, þurkar þær við linan ofnhita eða eld, og geymir þær á þurum stað. Þaðan tekur maður þær þegar á þarf að halda, svo mikið eða lítið sem vill, brennir kaffebaunirnar sèr og ræturnar sèr, blandar síðan saman og brennir hvorttveggja saman að lyktum í lokuðu íláti, síðan malar maður hvorttveggja saman. Brenni maður meira en á þarf að halda þarf að gæta þess, að afgánguriun sè geymdur á vel þurum stað.

þeir þykja heldur rammir, og ekki fagrir álits, en þetta kemur mest allt af tilbúníngnum. Vili maður nota grösin rètt, þá á maður að blanda með þeim, og hagtæra þeim á ymsan hátt og breyta til, en ekki hafa þau sem einmeti. Hinn nafnfrægi sænski efnafræðíngur *Berzelius* hefir rannsakað hver efni sè í fjallagrösunum, og fundið, að í 100 pörtum (vegnum) eru

| | | |
|---|---|---|
| af | remmuefni (*Cetrarin*) . . . . | 3,0 |
| - | sykurefni . . . . . . . . . . . | 3,7 |
| - | kvoðu (*Gummi*) . . . . . . . . | 3,7 |
| - | línsterkjuefni (*Stivelse*) . . . | 44,7 |
| - | blaðhlaupi (*Inulin*) . . . . . . | 36,2 |

Á þessu má sjá, að í fjallagrösunum eru 80 partar (af 100), eða 4/5 partar af sama efni eins og í rúgi, og að þau eru rík af þeim efnum, sem eru holl til manneldis; þar að auki eru þau góð til meltíngar. Þegar maður nú vill hafa grösin til matar, og ekki sækist eptir remmunni, þá tekur maður hana úr annaðhvort með því, að sjóða grösin í mjólk, því þá hverfur remman sjálfkrafa, eða með því, að leggja grösin í volga ösku-lút, af sömu tegund og höfð er til þvotta, en ekki eins sterka. Þar skulu þau liggja í tvær klukkustundir, og skal þvo þau síðan vel upp úr köldu vatni. Ætli maður að gjöra mjöl úr grösunum, þá þurkar maður þau vel og vandlega, lætur þau í ílát og malar þau síðan á almenna kvörn. Lyfsölumaður *Oellacher* í *Innsbruck* hefir búið til brauð á þann hátt, að hann hefir tekið 1 pund af rúgmjöli, $\frac{1}{4}$ pund af grasamjöli, $1\frac{1}{2}$ lóð af salti, $\frac{1}{2}$ lóð af kúmeni og ögn af geri eða súrdeigi, og gjörði hann brauð úr þessu og fèkk 2 pund 21 lóð af ágætlega góðu brauði; reiknaði hann hvað það kostaði sig, og fann að það varð þriðjúngi ódýrara en almennt rúgbrauð. Með hveiti má eins blanda, en ekki með byggi, því það samþýðist ekki. Mjölkökur með grasamjöli getur maður vel búið til á þann hátt, að maður tekur grösin, eptir að

þau eru afremmd og þvegin, saxar þau og sýður í vatni, þar til þau eru orðin að þykku hlaupi; þetta hnoðar maður saman við mjöl, þar til deigið verður mátulega fast, og síðan býr maður til kökurnar og steikir þær; blanda má og grasamjölinu saman við annað mjöl og hafa í kökur. —

— Þegar maður vill hafa fjallagrös í grauta, er bezt að taka grösin þegar þau eru afremmd og þvegin og saxa þau, síðan eru þau þurkuð, og má þá geyma þau svo lengi sem vera skal. Þegar til þarf að taka, eru grösin soðin hèrumbil tvo tíma í vatni, og skal hræra vel upp frá botni í pottinum, svo að suðan verði jöfn. Nú verður grauturinn tilsýndar eins og þykk súpa, og skal þá síla hana gegnum þunnan striga og vinda úr löginn. Lögurinu, sem síaður verður, er settur yfir eld á ný, og soðinn þángaðtil hann verður þykkur eins og venjuleg mjölsúpa; þá má og blanda í litlu af mjöli meðan verið er að sjóða; seinast lætur maður í dálítið af salti, og þarmeð er grauturinn búinn. Ef menn vilja hafa meira við, til matarbrygða, geta menn látið seinast í annaðhvort mjólk, eða blóðberg, saxaðan lauk, pètturselju, eða berjalög af góðum berjum. Úr grösum má og með sama hætti búa til graut, til að borða með rjóma einsog rauðgraut; þá lætur maður í meira mjöl, og seinast salt, hellir síðan grautuum í bolla, og lætur standa þartil hann er kaldur, þá er honum steypt úr á diska og borinn á borð einsog rauðgrautur. Það sem verður eptir þegar grasalögurinn er síaður er bezta fæða fyrir alifugla, einkum hæns; þau þrífast vel af því og leggja mikið af eggjum.

Á Íslandi hafa menn ekki fyrir að sía löginn frá grösunum, heldur borða menn þau heil eða söxuð í grautnum. Þetta er styzt og einfaldast, en hèr er sagt frá nokkuð vandaðri aðferð, til þess ef einhver vildi einnig reyna hana.

## 14. FJÖRUNYTJAR: SÖL, ÞÁNG, SALT O. FL.

Bjarni Pálsson. De alga saccharifera (um söl). Khöfn. 1749. 8vo.
Magnús Stephensen. Om de til Menneskeföde i Island brugelige Tangarter; i Dansk. Landhusholdn. Selsk. Skrift. Ny Saml. I, 487—520.
Benedikt Gröndal. Um pottöskubrennu af sjáfarþángi. (1788). Fèlagsr. VIII, 232—239.
Jón Eiríksson. Um saltgjörð. (1781). Fèlagsr. I, 61—75.
C. S. Münster. Ávísun um að tilbúa salt af þángi. Khöfn. 1809. 20 blss. 8vo.
G(uðmundur) St(ephensen). Um þángbrennslu. Ný Fèlagsr. XI, 102—105.
Jón Hjaltalín. Um þángbrennslu. Þjóðólfur VI (1854), 185—187; VII, 44—45, 51—52.

Líkt eins og vèr sögðum fyrir skemmstu um fjallagrösin, má og segja um fjörunytjarnar: þær eru ekki svo mjög atkvæðamiklar til varnings, sem þær eru í marga staði ein hin mestu hlynnindi til bús, er menn geta óskað sèr, í þeirra manna höndum, sem rèttilega kunna að hafa þeirra not. En þetta getur verið með svo margvíslegu móti, að það verður ekki talið í stuttu máli, og skulum vèr því að eins benda á það í fám orðum.

Til mannfæðu er helzt að telja af fjörunytjum söl og murukjarna eða bjöllur, sem sumir kalla. Söl eru að fornu lagi talin á 12 álnir vættin; sumir leggja þau að jöfnu við fjallagrös. Þau hafa frá alda öðli verið höfð til matar á Íslandi, og verið á sumum stöðum í mesta gengi; allir þekkja málsháttinn: »slíkt fá þeir sem sölin eta« (þá þyrstir), og söguna til þessa málsháttar, þegar Þorgerður í Hjarðarholti fèkk Egil Skallagrímsson föður sinn talinn af að svelta sig til dauðs með því, að lokka hann til að tyggja sölin, þángað til hann þyrsti á eptir. Á Írlandi, Skotlandi og Orkneyjum eru söl etin, bæði hrá og soðin. Á Grikklandseyjum láta menn söl í smásteikur sínar til sælgætis.

Söl taka menn helzt að áliðnu sumri, í August eða September, þvo þau upp í fersku vatni, og þegar þau eru orðin þur, þá leggur maður þau þètt niður í tunnur eða önnur ílát, og lætur þau liggja um nokkra mánuði; þau verða þá ljósari á litinn, og á blöðin setjast hvít smákorn, sæt á smekk; það köllum vèr hneitu; þessi hneittu söl eru yfrið hollur matur, einkum fyrir þá, sem þjást af harðlífi, meinlætum, gulu eða vatnssýki. Að öðru leyti er matreiðsla á sölvum svipuð því sem á fjallagrösum. — Ef menn vilja hafa murukjarna til fæðis, á að afvatna hann fyrst hèrumbil um tvö dægur, síðan skal saxa hann einsog kál, og sjóða hann með mjólk, mysu eða vatni, allt eptir því sem faung eru til, og gjöra úr honum graut, er hann þá holl og nærandi fæða[1]. Margar fleiri þarategundir eru ætilegar á sama hátt, og eru víða etnar í öðrum löndum.

Til fóðurs fyrir kvikfènað eru margar þángtegundir sèrlega góðar; má bezt sjá það á því, að fènaður etur varla nokkurt fóður með slíkri græðgi einsog fjörufóður, svo að það ætlar sèr opt ekki magamál, og þembist upp og verður jafnvel bráðdautt af þara áti, ef því er ekki ætlað af og haft gát á, svo það er hætt við, að mörg af þeim tilfellum, sem menn kalla bráðafár eða bráðapest, komi af óvarlegri beit á fè í fjöru, einkum þegar ekkert eða of lítið er gefið inni; væri það eptirtektar vert fyrir þá, sem búa á útigángsjörðum við sjó, hvort ekki væri svo, og að engin ástæða væri fyrir hinu, sem sumir vilja segja, að kindurnar eti í sig ólyfjan.

En einna mest gagn getur maður þó haft af þángi til áburðar, með því að safna saman og blanda við annan áburð, mold og ýmislegt annað, og láta svo rotna niður. Af því áburðurinn er eiginlega fóturinn undir allri jarðarrækt, þá verður aldrei nógsamlega brýnt fyrir mönnum á

[1]) Oddur Hjaltalín. Íslenzk grasafræði, bls. 333, 331.

Íslandi að gefa þessu gaum. Að bera þara upp á tún og dreifa honum þar og þurka hann, er jafnvel sýnilega betra en ekki, en þó má það heita ónýtt hjá hinu. Maður getur víða haft uppskeru á þaranum, einsog á túni sínu eða engi, sèr til hins mesta gagns; ætti þá að taka á ári tiltekið svæði og skera þar, og svo smásaman stykki og stykki með strönd fram, þartil svo væri vaxið á fyrsta stykkinu að nokkrum árum liðnum, að menn gæti farið að skera þar aptur. Allan lausan þara og þáng getur maður tekið jafnóðum og ekið saman. Nú býr maður sèr til gryfjur stórar, einsog kistur, steinlagðar innan, og lætur þar í hvað maður vill safna til áburðarins, ekki í kösum, heldur í reglulegum lögum, til dæmis eitt lag af þángi, annað af mykju, þriðja af mold, fjórða af fiskislori, fimta aptur af mykju o. s. frv., þartil gryfjan er full, eða nær því; efst lætur maður lag af kalki, sem vèr áður sögðum hversu mætti gjöra. Hafi maður ekki kalk, má hafa þètt jarðlag til sömu nota. Þegar þetta hefir legið um lángan tíma fúnar það, og verður bezti áburður.

Ein af hinum merkilegustu fjörunytjum er það, sem nú er að mestu eða öllu gleymt hjá oss, en hefir verið í fornöld mjög tíðkanlegt, eins á Íslandi einsog víða annarstaðar: að búa til salt. Um þessa saltgjörð er getið þegar í Landnámu, því Hallsteinn í Hallsteinsnesi í Þorskafirði hafði þræla sína við saltgjörð úti í Svefneyjum. Í Rángárvalla sýslu og þaðan alla leið austur með landi hefir verið saltgjörð lengi fram eptir öldum, sem kirkna-máldagarnir votta. Í Vestmannaeyjum hefir verið svo mikil saltgjörð, að menn hafa haft þurt salt, sem sjá má af því, að Odda kirkja átti að hafa þaðan, frá »Kirkjubæ fyrir ofan Leiti« (frá Ofanleiti?), fjóra saltbelgi á ári, flutta inn á land. Í Skaptafells sýslu er svo að sjá, sem menn hafi mestmegnis búið sèr til saltlög, en ekki þurt salt; sá lögur var kallaður salta, og var fluttur í skjólum. Á Kirkjubæjar klaustri var

það tilskilið í afgjald af sjáfarjörðunum í Meðallandi, að hver þeirra skyldi gjalda heim á staðinn tuttugu skjólur af söltu á hverju ári. Í Hornafirði átti Einholtskirkja saltfjöru, og austur í Borgarfirði Desjarmýrar kirkja sömuleiðis. Vestur í Miklaholts hrepp er einnig getið um saltgjörð, sem kirkjan ætti í Skógarnes landi[1]. Þar er enginn efi á, að saltgjörð þessi hefir verið mjög einföld, og einúngis til búneyzlu, en það er samt vottur um, hversu landbúnaði vorum hefir mikið hnignað á síðari öldum, að þessi nytsama iðn skyldi gleymast svo víða; en þar er sú bót í máli, að þessi kunnátta er ekki vandasöm, svo að hún getur orðið lærð aptur hvenær sem vera skal, og hún ætti að endurlifna, því hún er í mörgu efni þarfleg búmönnum. Það er kunnugt, að salt næst úr sjónum annaðhvort með hita eða kulda, eða hvorutveggja saman: með hita þannig, að þar sem sólarhiti er ekki nægur, þar sýður maður sjóinn þartil hann gufar upp smásaman, og verður þá saltið eptir á botninum; með kulda þannig, að maður lætur sjóinn frjósa í þar til gjörðum kerum eða lónum, brýtur síðan ísinn ofan af smásaman og kastar honum úr; það er vatnið í sjónum sem verður að ís, en það sem eptir verður er saltan, og verður sá lögur æ saltari, eptir því sem hann mínkar; má þá síðan sjóða þann lög við ofna, ef maður vill fá þurt salt, og hreinsa síðan. Það er alkunnugt, að einusinni var stofnað saltverk og soðið salt úr sjó við hverana í Reykjarfirði við Ísafjarðardjúp, og gekk það allvel um tíma, en fór um koll síðan fyrir óhappatilfelli og dugnaðarleysi. Á Reykhólum gjörðu menn ráð fyrir að ná mætti 1000 tunnum salts á ári, en það fórst fyrir og komst aldrei til framkvæmdar.

Úr þángi má einnig ná salti, með því að brenna það til ösku og hreinsa frá salt það sem í því er; menn hafa talið, að ein tunna salts fáist úr átta tunnum þángösku.

---

[1]) Miklaholts kirkju máldagi (1181). — Ísl. Fornbréfas. I, 273.

7

Á Jótlandi hafa menn brennt mest til þess marhálm og blöðruþáng. Á Íslandi ímyndum vèr oss, að bezt væri að ná salti á veturna, láta sjó frjósa fyrst og elda síðan söltuna; en þar á móti getur þángaskan orðið oss verzlunarvara einsog hún er.

Þángaskan hefir í sèr mörg efni, og sum dýrmæt, en þessi efni verða ekki aðskilin nema með miklum tilfæríngum. Þessvegna er það hægast og einfaldast og ábatamest fyrir hvern einstakan, að búa til þángöskuna og selja hana, en hinir, sem kaupa, selja hana aptur til þeirra, sem draga úr henni þau efni sem notuð verða. Þángaska þessi er kölluð kelp, og með því nafni geńgur hún í verzlun á Skotlandi, Orkneyjum og víðar. Þar safnar hver þángi, sem getur, á sinni jörð, brennir það og selur öskuna til kaupmanna, en þeir flytja hana þángað sem verksmiðjur eru og selja hana þeim sem geta notað. Þessir draga efnin úr öskunni og selja þau, og svo fær alþýða þau aptur í ymsum myndum, svo sem í lyfjabúðum og á ymsan hátt. Á Íslandi mætti þángaska eða kelp verða óþrjótanda, og svo hefir það reynzt bæði gott og mikið þegar þángbrenna var reynd þar 1807 [1], að hvergi annarstaðar er betra, en meðferðin er svo einföld, að kvennfólk og únglíngar geta gjört allt það er gjöra þarf, og gæti svo þángbrenna orðið dálítill atvinnuvegur á hverju bygðu bóli við sjó, og það sumstaðar að miklum mun. Ólafur Ólafsson sekreteri varaði við því einu, að láta ekki þángbrennu reyk leggja yfir tún eða engjar, því hann skemmi jörðina og gjöri hana ófrjófa, en þetta er og hægt að varast. Til að koma þángbrennu á hjá oss er það bezta ráð að fá mann, sem kann hana vel, annaðhvort af Suðureyjum eða

[1]) Lagasafn h. Ísl. VII, 114; samanbr. ritgjörð Dr. Hjaltalíns »um þángbrennslu« í Þjóðólfi VI (1854), 185—187; VII, 44—45, 51—52.

Orkneyjum, til að vera á Íslandi eitt sumar eða tvö, til að kenna hana út frá sèr, og munu menn þá fljótt komast uppá brennslumátann, sem ekki er vandlærður, en þó nokkuð viðsjáll í ymsu fyrir þá, sem ekki hafa nema bækur eptir að fara.

---

## II. SJÓVARAN.

Ólafur Stephánsson. Um sjáfar afla og fleiri vatnaveiðar á Íslandi. (1787). Fèlagsr. VII, 1—64.
G(uðmundur) S(cheving). Hugleiðíngar um þilskipaveiðar á Íslandi. Ármann á alþíngi IV, 83—106.
Lítil fiskibók, með uppdráttum og útskýríngum, handa fiskimönnum á Íslandi. Samin eptir fiskiveiðabókum W. Heins af Jóni Sigurðssyni. Khöfn. 1859. 42 blss. 8vo. (með tveim töflum).

Áður en vèr tölum um hinar einstöku tegundir af sjóvörunni, verðum vèr að tala fáein orð um fiskiveiðar vorar yfirhöfuð að tala. Því verður ekki neitað, að frá því að Kristján fjórði lagði verzlunareinokun á Ísland hefir stjórnin bersýnilega metið fiskiveiðarnar mest af öllu. Í öllum kaupskránum frá 1619 og til 1776 var hlynnt meira að fiskivörunum en landvörunum yfirhöfuð að tala, og afleiðíngarnar af þessu urðu heldur ekki án vitnisburðar. Í sjálfu sèr var þetta byggt á eðli hlutarins, því tilgángurinn var, að Danmörk skyldi hafa allt verzlunargagnið af Íslandi, en aðrir ekki, og aptur á móti skyldi Danmörk sjá Íslandi fullan sann og aldrei láta það bresta. En eðli verzlunarinnar verður ekki breytt með kaupskrám. Þegar Ísland neyðist til að eiga kaup við Danmörk eina, þá leitast Danmörk þar eptir því sem hana vantar, en ekki hinu, sem hún hefir nóg af, hvað sem lög og kaupskrár segja. Af því Danmörk hefir nú ætíð haft nóga landvöru, en ekki þar eptir sjóvöru, þá sókti hún meira

eptir sjóvörunni, ekki einúngis handa sèr, heldur og til að verzla með til Suðurlanda. Þegar nú landvaran varð að sínu leyti fyrir hallanum, móts við sjóvöruna, og var lakar borguð, þá leiddi beint þar af, að Íslendíngar fóru að meta minna jarðarrækt og allan landbúnað, en áður, og leggja meiri stund á fiskiveiðar. Þetta hefði samt getað orðið landinu mikill vegur til ávinníngs og verzlunar, og mikillar framfarar, ef þar hefði verið gengið að með alefli, einsog til dæmis stjórnin hefir gjört á Hollandi eða á Frakklandi, en stjórnin hèr lèt hvern sjálfala gjöra hvað hann gat, og hugsaði ekki um að styrkja og hvetja menn til að efla fiskiveiðarnar svo sem mest gat orðið, að eignast góðan útbúnað, góð fiskiskip og allt annað sem til þurfti; þvert á móti: Íslendíngar máttu um þær mundir ekkert eiga nema opna báta, til þess þeir gæti ekki komizt yfir hafið og farið ef til vildi í kapp við verzlunarfèlagið. En verzlunarábatinn lenti allur saman í Kaupmannahöfn, og kaupmenn þeir, sem græddu fyrirhafnarlaust á verzluninni, hugsuðu ekki um að auka atvinnuvegu landsins, eða um að efla framför þess, heldur einúngis um að hafa sinn vissa gróða af verzluninni eins og hún var. En Íslendíngar, sem ætíð hafa verið samheldislausir til að taka sèr fram, urðu afvanir sjómennsku, af því að missa allan hinn stærri skipa-útbúnað; þeir gátu ekki farið á sjó nema á smábátum, og vöndust því á að þykja þeir beztir; dugnaður og framtakssemi kafnaði niður, en kvíði og lítilmennska greri upp í staðinn. Sveitamenn fóru að vanrækja land sitt, og fara í þurabúðir til að eignast part í bát, þángað til þeir annaðhvort urðu bjargarlausir eða þeir urðu til í landsynníngnum á einhverju sínu feigðarfari. Opt verðum vèr varir við, að landsins beztu mönnum hefir staðið stuggur af þessari stefnu[1], en

[1]) »Orsakir til landsins ávallt hnignandi velmegunar leiðir herra amtmaðurinn (Ólafur Stephánsson) ljóslega fyrir sjónir, og með rökum

þeim fór eins og mörgum verður enn í dag, að þeir sjá annmarkana til að kvarta yfir þeim, en ekki til að reyna að bæta úr þeim, sem er þó aðalefnið málsins. Aptur á móti voru aðrir, sem vildu meta fiskiveiðarnar mest af öllu, og kölluðu þær aðal-atvinnuveg landsins.

Á seinni tímum hefir á þetta komizt eðlilegri stefna, jafnvel þó það sè ofmikið að ætlast til, að svo lángra tíma venja geti verið á ekki lengri tíma öldúngis brevtt og komin á rètta stefnu; hitt er lakara, að þessari rèttu stefnu er ekki framfylgt með þeim áhuga eða dugnaði, sem nú þegar ætti að mega vænta af oss, og vèr værum í verunni menn til að sýna, ef menn legðist á eitt með það. Vèr skulum ekki kýtast á um hvort meira sè vert, landbúnaður eða sjáfarafli, því það er hvorttveggja mikils vert, og hvorttveggja þess vert að því sè allur gaumur gefinn, því hvort um sig er fótur undir landsins velmegun og framför; hvort hefir sína yfirburði og sína annmarka, því hvort er af forsjóninni ætlað til að bæta annað upp og lètta undir með því, einsog hönd styðnr fót, eða hvor fóturinn annan. Þessvegna ríður á, að hvorugt sè forsómað, og að með hvorttveggja sè farið með lagi, svo að það fari ekki í bága við hitt. Þetta verður með því móti, að duglegir landmenn og duglegir sjómenn komist upp og mentist, hvorir í sinni grein. Oss virðist nú, að sú stefna, sem stjórnin hefir bent til í brèfi til stiptamtmannsins yfir Íslandi 21. Febr. 1859, sè hin eðlilegasta eptir því sem nú stendur á, og geti orðið að miklu gagni, ef henni yrði framfylgt til

---

sannar, að náttúrunnar umbyltíngar hafa eigi verið þau helztu nè sönnu efni til þeirrar djúplægu eymdar tröppu, sem landið hvað eptir annað er niður sokkið til, heldur þær stöðugu höfuðreglur allra útlenzkra kaupskaparfèlaga, að taka fiskiveiðarnar fram fyrir landbjörgina, og að uppörfa þær með öllum upphugsanlegum meðölum henni til afdráttar». (Jón Eiríksson) í Formála Fèlagsritanna VII. bindis.

að koma upp góðum og duglegum sjómönnum: að stofna fiskifèlög á Íslandi sjálfu, sem kaupmenn tæki þátt í með öðrum, sjálfum sèr til gagns, og að stjórnin síðan styrkti þessi fèlög þegar þau væri komin á, ekki svo með gjöfum, heldur með því, sem gæti verið þessum atvinnuvegi til styrktar, svo sem ymsu, er þyrfti til að efla útbúnaðinn, og einkum með því, sem styrkir allan sjáfarútveg á stærri skipum og siglíngar, sem eru hafnir góðar, kennsla handa sjómannaefnum, lèttir fyrir þá að komast í veg, lèttir fyrir eigendur að fá ábyrgðarsjóð handa fiskiskipum sínum, verðlaun fyrir framúrskarandi dugnað í sjómennsku og fiskiveiðum, lán móti fullu veði o. s. frv. — Vèr viljum einnig hafa þá von, að bæði Suðuramtsins húss og bústjórnarfèlag, og sömuleiðis fiskifèlag það, sem nýlega er boðið til að stofna í Reykjavík, beint í þá stefnu sem stjórnin hefir bent til, muni smásaman verða þess megnug, að koma fiskiveiðunum á stöðugan framfaraveg.

En framför fiskiveiðanna er mest komin undir útbúnaðinum með góð skip og góð veiðarfæri. Meðan vèr sækjum sjó mestmegnis á opnum smábátum, sem að vísu geta verið ábatamesta veiðiskip þegar vel fellur, en þola hvorki veður nè útisetur, þegar illa fellur, þá getum vèr ekki annað sagt, en að fiskiveiðar vorar og sjáfarútvegur standi á trèfótum. Allar þessar ferðir úr landi og í land, í bezta fiskiveðri eins og í óveðri, eru ekki smávegis tímatöf; allur sá róður fram og aptur, af því bátarnir eru ekki seglfærir, eða ekki lagaðir til siglínga, er ekki lítill erfiðisauki. Hætturnar ekki að nefna. Og svo hafa menn þar á ofan það mótlæti, að sjá útlenda menn lángt að vera komna á landstraumana með stóra flota áður en vèr komumst út, vita þá liggja djúpt og draga bezta fiskinn, meðan vèr komumst ekki lengra en á grunnmið, og ásökum þá svo fyrir að þeir dragi fiskinn frá landinu, en verðum þó eins sárir eða enn sárari þegar vèr sjáum þá liggja og draga fiskinn uppi

í þurum landsteinum. Menn hafa lengi hugsað, og hugsa kannske enn, að við þessu megi gjöra með bönnum af stjórnarinnar hendi, en oss hefir ekki orðið að því híngaðtil, og mun aldrei verða; hið eina einhlíta ráð við því er að vera með og fylla hópinn, og sýna bæði þeim og sjálfum oss, að vèr getum fiskað eins og þeir. Og vèr getum fiskað einsog þeir, eða betur, ef vèr fylgjum oss eins að því, og ef vèr ættum von á viðlíka styrk frá hálfu vorrar stjórnar, sem þeir hafa frá sinni, og það ætlum vèr að vona mætti. Það er með fèlagskap og samtökum og styrk stjórnar sinnar, að hinir útlendu menn hafa komið þessu á og haldið því við, og það er fèlagskapur og samtök sem vèr þurfum til að koma fiskiveiðum vorum á fót. Til samanburðar skulum vèr segja frá sögu um svenskt fiskifèlag, sem hefir stofnazt fyrir tveim árum síðan, einmitt til þess að bæta úr sömu annmörkum eða líkum, og eru á fiskiveiðunum hjá oss. Þeir fundu það Svíarnir, að þegar fiskimenn áttu að fara á smábátum heim og heiman, og þaraðauki verka fisk sinn sjálfir, þá eyddu þeir hèrumbil tveim pörtum af fiskitímanum í snatt fram og aptur, og fengu þó ekki tíma til að sinna afla sínum til að verka hann. Þetta var orsök til, að þeir hafa stofnað fiskifèlag, og hafa tekið mann einn, sem áður hefir verið á Íslandi og er kunnugur saltfisksverkun, til umsjónar við fiskverkunina hjá sèr, en fiskimenn sækja vestur fyrir Noreg, og veiða þar á fiskimiðum Jaðarbyggja. Fèlagsins fyrirætlan var, að kaupa fjögur skip með slúppusiglíngu, uppá 30—40 lestir hvert, sem væri svo löguð, að þau gæti tekið ofan háreiðann og heflað, meðan þau lægi á fiskimiðum; á hverju þeirra skyldi vera sex góðir fiskimenn og einn formaður, og öll áhöld til að salta fisk. Þessi skip skyldi sigla til fiskimiðanna, og taka þar við fiskinum af bátunum, salta hann og flytja hann í land; skyldi tvö af þeim vera á miðunum til skiptis, en tvö á ferð heim og heiman á víxl, færa heim

aflann í hendur þeim sem verka fiskinn fyrir fèlagið, og flytja út aptur sèrhvað, sem fiskimenn þurfa: mat, veiðarfæri, hamp, tjöru, segldúk, strengi, salt o. s. frv. Þau skyldi líka flytja fiskimenn fram og aptur, og skipta um þá þar sem þyrfti. Svo er gjört ráð fyrir, að 10 bátar fiski svo mikið á 12 dögum, að tvö söltunarskipin verði fullfermd, en fiski þeir minna, kaupa þau fisk af öðrum bátum. Nokkuð svipað finnst oss mætti til góðs ábata geta komizt til vegar á Íslandi, og það því heldur, sem þar er styttra en Svíar fara á fiskimið. Fèlögin hjá oss ætti að styðja allt að því, að koma upp góðum siglíngabátum til fiskiveiðanna, sem gæti haldið nokkuð betur sjó en þeir sem nú eru, og væri ekki eins skjóllausir. Þegar þessir stæði í sambandi við stærri þilskip, þá gæti þeir bæði farið lengra, af því þeir þola betur sjóinn, verið lengur úti og haft meiri veiðibrögð heldur en nú tíðkast, og þessvegna fiskað margfalt. Til þess að ná í fisk þann, sem gengur næst landi, getur fèlagið einnig haldið báta, og fengið með því tækifæri til að bæta lagið og útbúnaðinn á smábátunum, einkanlega að láta gjöra þá óvaltari og betur lagaða til siglínga, árarnar liðlegri o. s. frv., heldur en nú er tíðkanlegt t. d. á Suðurlandi.

### 1. Þorskur, lánga.

Ólafur Ólafsson (Olavius). Stutt ágrip um fiskiveiðar og fiskinetanna tilbúníng, brúkan og nytsemd. Khöfn. 1771. 48 blss. 12. (með tveim uppdráttatöflum).

Bjarni Einarsson. Um Terraneufs og klipfisksverkun. (1783). Fèlagsr. III, 1—27.

Friðrik Svendsen. Stutt ávísan til að verka klipfisk (byggð á 26 ára reynslu). Ármann á alþíngi III, 173—180.

S(veinbjörn) Ó(lafsson). Varúðarreglur við fiskverkun. Reykjavíkurpóst. 1848, bls. 88—91.

(Fiedler). Nokkrar athugasemdir um fiskverkun á Íslandi. (1844). Fjölnir VIII, 39—50.

Nokkrar reglur um fiskverkun, útgefnar að tilhlutun suðuramtsins 15. Febr. 1848. (á tveim blöðum í 4to).

Um verzlun á Íslandi. Ný Fèlagsr. XVI, 111—114.

Sá þorskur[1], sem veiðist kríngum Ísland, er einhver hinn allra bezti sem fæst úr sjó, og hefir þessvegna ætíð verið mjög útgengileg vara. Einkanlega sækjast menn eptir honum í Suðurlöndum, á Frakklandi og á Spáni, og það svo mjög, að þegar Frökkum var bægt frá að kaupa fisk á Íslandi, til þess þeir kæmi ekki í bága við verzlunarfèlögin, þá tóku þeir uppá að gjöra út skip sjálfir til fiskiveiða kríngum Ísland, og styrkja þann afla með miklum verðlaunum og afarháfum ójafnaðartolli. Þar af mynduðust hin frönsku fiskifèlög, og jafnvel smásamlög af frönskum sjómönnum, gömlum og úngum hásetum, sem taka sèr skip á leigu og slá sèr saman til veiðanna. Hin seinustu lög um þetta efni, sem vèr þekkjum, eru frá 22. Juli 1851, og eiga að standa til 30. Juni 1861; þar eru fyrst veitt útgjörðarverðlaun, 50 fránka (16 rd. 4 mk.) fyrir hvern innskrifaðan mann, sem fer til fiskiveiða við Ísland, þó ekki sè þurkað á landi, en við Nýfundnaland eru sömu verðlaun einúngis ef fiskur er þurkaður á landi, en annars ekki nema 30 fránka (10 rd.). Þar næst eru verðlaun fyrir aflann af frakkneskum skipum, þegar hann er fluttur til franskra nýlenda í suðurheimi eða annara fjarlægra landa, frá 12 til

---

[1]) Af þorski eru margar tegundir, og eins við Ísland, en hèr tölum vèr helzt um þá tegund sem vèr köllum þorsk, en útlendir ymsum nöfnum. Venjulegast er *Kabliau*, og er það nafn fyrst komið frá Nýfundnalandi, því hinir fornu innbúar þar kölluðu þenna fisk *Bakkala*, Spánverjar gjörðu úr því *Bakaljao*, en Hollendíngar höfðu á því stafavíxl og sögðu *Kabeljaauw;* Frakkar stafa þetta *Cabillaud*. Sá fiskur, sem eiginlega heitir *Kabliau*, er úthafs þorskur, sem er fluttur lifandi til lands. — Tunnufisk, eða þorsk saltaðan niður í tunnur, kalla Hollendíngar *Laberdan*, það þýðir eiginlega »frá Aberdeen«, því þaðan var að fornu fluttur tunnufiskur, meðan Englendíngar fiskuðu við Ísland, og Hollendíngar tóku eptir því að salta tunnufisk. Frakkar kalla þorskinn óverkaðan *Cabillaud* eða *Cabliau*, en verkaðan *Morue*, því hann heitir á Latínu *morrhua* eða *gadus morrhua*.

20 fránka (4 rd. — 6 rd. 4 mk.) fyrir hver 100 pund, og að því skapi fyrir þorska-hrogn. Á Frakklandi sjálfu hafa lögin búið svo um, að sá einn fiskur verður fluttur þángað til sölu, sem er aflaður í frönskum skipum og af frönskum hásetum, sem eru innskrifaðir sjómenn, því sè fluttur þángað fiskur frá öðrum þjóðum, eða sem þær hafa aflað, má gjalda í toll rúma 27 rd. af hverju skippundi, og þetta er ójafnaðartollurinn, því með þessu móti verður útlendíngurinn að fá 27 rd. meira fyrir skippundið, til þess að geta staðið jafnfætis hinum innlenda, sem hverjum gefur að skilja. Ef íslenzkur kaupmaður gefur t. d. 20 dali fyrir skippundið á Íslandi, og fær t. d. 40 dali fyrir það á Frakklandi, þá hefir hann samt 7 dala skaða og fær þar að auki ekkert fyrir flutníng og ómak, en hinn franski fiskikaupmaður fær sína 40 dali og verðlaun og yms hlynnindi að auki. En hèraf leiðir aptur tvennt: að enginn útlendur flytur fisk til Frakklands, því hann stendst ekki við það, og að enginn innlendur flytur fisk frá Frakklandi, því hann fær hann þar bezt borgaðan. Það er auðsætt, að allir þeir sem kaupa fisk á Frakklandi verða að gefa meira fyrir hann með þessu móti, og fengi hann með miklu betra verði ef hætt væri verðlaunagjaldi og ójafnaðartolli, en þessi vani er nú orðinn svo lángvinnur og ríkur, fiskifèlögin græða á honum, stjórnin sèr ekki í þó goldnir sè peníngar úr almennum sjóði til að halda þessum vana, og vill láta í veðri vaka, að þetta sè nauðsynlegt til þess að koma upp duglegum sjómönnum. Þessvegna gengur tregt að fá þann björn unninn, að fá Frakka til að láta lausa einokun sína á fiskiveiðum og fiskiverzlun, þó hvorugt sè reyndar nú á neinni nauðsyn nè nytsemi byggt.

Á Spáni er þessu nokkuð öðruvísi háttað. Þar sem Frakkar gjöra allt úr því, að fiskurinn, sem fluttur sè til Frakklands, skuli vera innlendur (franskur) afli, þar gjöra Spánverjar hitt að aðalatriði, að fiskurinn sè fluttur þángað á spönskum

skipum, og beint frá fiskistöðvum. Eptir þessu hafa þeir lagað toll sinn, og er hann þannig:

af fiski í spönskum skipum:

beint frá fiskistöðvum . . Real 31. 80 r. af kvintali,
þ. e. 10 rd. 12 sk. af skipp.
frá öðrum stöðum . . . . » 47. 70 r. af kvintali,
þ. e. 15 rd. 20 sk. af skipp.

í útlendum skipum:

beint frá fiskistöðvum . . Real 42. 40 r. af kvintali,
þ. e. 13 rd. 48 sk. af skipp.
fra öðrum stöðum . . . . » 58. 30 r. af kvintali,
þ. e. 19 rd. 40 sk. af skp.[1]

Mismunur á innlendum og útlendum skipum verður þá 3 rd. 36 sk. á skipp. eða hèrumbil 53 rd. á lestarrúmi; mismunurinn eptir því, hvort fiskurinn er talinn fluttur frá fiskistöðvum eða ekki, 5 rd. 88 sk. á skipp. eða nærri 82 rd. á lestinni. — Af þessu megum vèr skilja ýmislegt, sem fram kemur í verzlun vorri. Spánverjar geta sent skip sín til Íslands að sækja fisk, því það er bæði hagnaður fyrir þá og fyrir íslenzka kaupmanninn, sem sparar við það tollgjald, og fær að því skapi meira fyrir vöru sína; Frakkar þar á móti geta ekki haft nein not af að senda skip til Íslands að kaupa fisk handa sèr, því í Frakklandi gildir það eina, að fiskurinn sè aflaður af Frökkum sjálfum. Spánverjum getur ekkert verið undir því komið, að ná föstu aðsetri á Íslandi, því þeim nægir að fá skip sín leigð; en Frökkum getur verið hagnaður að ná föstu aðsetri á Íslandi, til þess að geta verkað þar fisk sinn, og unnið fyrir það hærri verðlaun og ábata á fiskinum sjálfum, við það sem hann verður dýrari. En fyrir oss verður ábatinn rýr, meðan þeir geta ekki keypt fisk af oss sèr í hag, og verið með

[1]) Ortenbach í Barcelona 25. April 1860; sbr. Þjóðólf. V (1853), bls. 104. — Í skippund fer $3\frac{1}{2}$ kvintal.

því móti hvatamenn til að styrkja atvinnu vora. Bezti ábatinn fyrir hvorutveggja væri, að Frakkar tæki af ójafnaðartolla sína, og leyfði frjálsa flutnínga á fiski til Frakklands. Þá mundi fljótt verðið á fiskinum jafna sig svo, að það lækkaði á Frakklandi, öllum þeim í hag sem kaupa fisk, en hækkaði á Íslandi, öllum þeim í hag sem afla fiskjar. Þá mundi líka hverfa óbeit sú, sem Íslendíngar hafa á Frökkum fyrir fiskiveiðar þeirra kríngum landið, líkt eins og soltinn sjómaður ybbir sig við annan, sem óboðinn fer í disk hans og fer að eta það sem honum var skamtað af soðníngunni. Væri verzlun frjáls milli landanna gæti báðum þar af orðið hinn mesti hagur.

Frá Íslandi hefir án efa snemma verið mikil fiskiverzlan. Í rèttarbót Eireks konúngs 1294 eru settar skorður við, að skreið skuli ekki vera flutt af landinu, meðan hallæri sè; það er einskonar útflutníngsbann, sem vèr sjáum koma fram í Noregi og víðar bæði á fyrri og síðari tímum, og átti að miða til þess að gjöra menn byrga, og kenna þeim að búa að sínu, jafnvel þó það hafi aldrei tekizt. Á fimtándu öld höfðu Englendíngar miklar fiskiveiðar og fiskiverzlan við Ísland, og síðan Hamborgarar, þángað til 1602, að verzlanin var lögð til hins fyrsta danska verzlunarfèlags og kaupskrár settar. Sú breytíng sem þá varð á kaupum og sölum stakk töluvert í stúf við það sem áður var, svo sem vèr sjáum með því að bera saman kaupsetníngar frá 15du og 16du öld við kaupskrárnar frá 1619 og síðan. Vèr höfum þar um hið bezta vitni fyrir oss að bera, sem er Jón Eiríksson, hann segir: »Hin enska verzlun á þeim tímum (15du öld) hefir verið töluvert ábatameiri fyrir Ísland, en verzlun nokkurrar annarar þjóðar, bæði að því leyti sem enskar vörur voru góðar og með lèttu verði, og að því leyti, sem Englendíngar borguðu betur íslenzkar vörur en aðrir.» Sama vitnar og Guðbrandur biskup, sannorður og merkur maður, um umskiptin á verzlun Hamborgara og

hinna dönsku kaupfèlaga[1]. Eptir verzlunar-umskiptin höfum vèr skýrslur um útflutníng á fiski, og skulum vèr tilgreina sömu ár og fyr:

| | harður fiskur. | saltfisk. | tunnufisk. |
|---|---|---|---|
| ár 1624 er flutt utan: | 5817 skp. | 843 skp. | 444½ tunn. |
| — 1630 ....... | 2823 — | 207 — | 142 — |
| — 1734 ....... | 5885 — | 812 — | 644 — |
| — 1743 ....... | 5380 — | 392 — | 658 — |
| — 1753 ....... | 3007 — | 238 — | 481 — |
| — 1764 ....... | 5681 — | 197 — | 513 — |
| — 1772 ....... | 6487 — | 2316 — | 857 — |
| — 1779 ....... | 4901 — | 3313 — | 1863 — |
| — 1784 ....... | 5612 — | 2578 — | 704[2] — |

Sú breytíng, sem sýnileg er á þessum varníngi, er það, að fyrst framanaf er harður fiskur (»skreið«, eins og í fornöldinni) aðalvaran, en saltfiskur og tunnufiskur ekki að ráði. Á þessum tíma hefir verið seldur fiskurinn mest í Kaupmannahöfn sjálfri, í hertogadæmunum (frá *Glückstad*) og á Þýzkalandi, og borðaður sem lútarfiskur (*Bergfisk*). En um 1770 verður á þessu stórkostleg umbreytíng: þá vex saltfiskur margfalt að tiltölu, en harður fiskur mínkar og tunnufiskur, og er þetta merki til þess, að þá vex fiskiverzlanin frá Danmörku við Spán, og saltfiskurinn er fluttur til Bilbao og Barcelona. Á Íslandi sjálfu hefir, sem vèr vitum, saltfiskur aldrei verið alþýðu matur.

[1]) Jón Eiríksson í viðbæti við Holbergs Dannemarks og Norges Stat. 1762. 4to. bls. 372; — Guðbrandur biskup í lítilli ritgjörð 1613, sjá Finn. Joh. Hist. Eccl. III, 422; sbr. Árrit prestaskól. I, 172—175; — Jón Ólafsson vicelögm. Korte Betænkninger over den isl. Handel, bls. 45; — Finn. Magnússon í Nord. Tidsskr. for Oldkynd. II, 163; sbr. Ný Fèlagsr. XV, 92—99.

[2]) Bech. Om den islandske Handel. bls. 87, 89, 97; Skýrslur um landshagi. I, 79.

Eptir að verzlanin var gefin lausari hefir hin sama stefna haldizt, að saltfiskur hefir verið mest verkaður, en harður fiskur minna og tunnufiskur mjög lítið. Þetta hefir verið útflutt:

| | harð. fisk. | saltfisk. | tunnufisk. |
|---|---|---|---|
| ár 1806 . . . | 2,334 skp. | 2,011 skp. | 150 tunn. |
| — 1816 . . . | 2,485 — | 1,304 — | 90 — |
| — 1840 . . . | 3,030 — | 13,767 — | » — |
| — 1849 . . . | 3,244 — | 16,400 — | 120 — |
| — 1855 . . . | 3,090 — | 20,989[1] — | » — |

Ef vèr nú reiknum oss hvert skippund af hörðum fiski á 20 rd., og hvert skippund af saltfiski á 18 dali, þá fáum vèr rúmar 400,000 dala, eða allt að hálfri milljón fyrir fiskinn eingaungu, en það er oss aptur á móti til lítillar huggunar, að vèr sjáum það nær hèrumbil heim fyrir það sem vèr kaupum árlega af brennivíni, kaffe, sykri og tóbaki. Ekki er að sjá á oss fátæktina í þeim efnum.

Sú varníngstegund, sem að öllu samtöldu er lángbezt verkuð hjá oss, og helzt getur staðið jafnfætis hinni beztu vöru annara þjóða, er saltfiskurinn. Þetta játa Norðmenn sjálfir. Fiskurinn undir Íslandi er í sjálfu sèr feitari en hinn norski, og er víða ágætlega verkaður; þó má sjá muninn, þar sem hinn bezti gengur á 26—28 rd. skippundið þegar hinn almenni stendur í 20 dölum, og ber það ekki sjaldan við. Þessi góða verkun á íslenzka fiskinum kemur bæði af því, að um það hefir verið áminnt af stjórninni og ritað af einstöku mönnum meira en um aðra vöru, — svo áminníngar og rit eru þó ekki allskostar árángurslaus ef þau koma nógu opt; en þar að auki — og þetta er mest vert — hafa einstakir menn gengið undan öðrum í þeim efnum, einkum nokkrir íslenzkir kaupmenn, sem hafa sjálfir lagt sig eptir að verka fisk sinn vel, því þeir sáu hver

[1]) Skýrsl. um landsh. I, 79, 92, 608.

munurinn varð. Friðrik Svendsen, Guðmundur Scheving, og einkum Þorleifur Jónsson á Bíldudal (Suðureyri) ætlum vèr hafi komizt einna lengst í því efni; verð á Bíldudals fiski hafir skarað lengst framúr almennu verði fiskjarins, og síðan vilja allir láta fisk sinn vera frá Bíldudal. Hann flyzt nú mest til Kaupmannahafnar. Í Björgvin hefir verið gefið 1—2 dölum meira fyrir bezta íslenzkan saltfisk, heldur en bezta norskan; laungur saltaðar hafa verið borgaðar eins, en ýsa, brosma og seyður (upsi) er hert í Noregi og selst varla saltað. Ráskertur freðfiskur frá Íslandi selst í Noregi eins og norskur fiskur. Það eitt þykir mönnum þar, að íslenzkur saltfiskur verði ekki eins þur í vætusumrum einsog hinn norski. [1]

Á Englandi er íslenzk fiskverzlun ekki mikil nú sem stendur, en er heldur að þróast. Þar er íslenzkur saltfiskur kallaður allgóður, en þó ekki eins góður og hinn hjaltlenzki; kann og vera, að hinn bezti íslenzki fiskur sè ekki fluttur þángað enn, heldur fari til Kaupmannahafnar. Hinn hjaltlenzki saltfiskur gengur í Liverpool venjulega nokkuð meira en hinn íslenzki, og munar það 2—3 dölum á hverju skippundi [2]. Mönnum þykir hann bússnari í roðinu. Saltaður fiskur frá Nýfundnalandi er fluttur til Englands ákaft, og gengur þar vel út, því hann er seldur þar með töluvert lægra verði en hinn íslenzki, svo það munar hèrumbil 7 dölum á skippundi. Laungur eru að tiltölu dýrastar á Englandi, svo það er að sjá, sem þeir borgi þar saltfisk meira eptir stærð en gæðum. Það finna menn að íslenzkum fiski í Liverpool, að heldur mikið standi eptir af dálkinum, en á Skotlandi er það talið lýti, að fiskurinn sè illa afhöfð-

[1]) Konow, verzlunarfulltrúi í Björgvin 5. Juni 1860. Um fiskverkun til verzlunar, einkum saltfisk, hengifisk eða búlúng, og ráskerðíng, sjá Ný Fèlagsrit XVI, 111—116.

[2]) 2 pund Sterl. hver tonn, þ. e. 2240 pund ensk eða 6 skpd. 7 lpd. á vora vog.

aður, því það sè sýnilegt, að höfuðin sè rifin eða snúin af, en ekki skorin; kemur þetta án efa þar af, að hnakkakúlurnar hafa verið látnar fylgja með bolnum, en fiskurinn ekki síðan hnakkakýldur. Enskir kaupmenn spá töluverðum verðbæti á íslenzkum fiski, ef úr þessu tvennu væri bætt[1], svo að fiskur vor mundi þá ekki standa á baki hjaltlenzkum fiski.

Á Spáni er íslenzkur fiskur í mestu metum, og meiri en fiskurinn frá Noregi, en þángað flyzt miklu meira af norskum fiski, af því að Spánverjar eru komnir í vana með að fara til Noregs sjálfir með skip sín, og geta því selt fiskinn með betra verði. Er það þó reyndar undarlegt, að kaupmenn vorir hafi ekki vilja eða lag á að koma spönskum skipum til Íslands. Til Barcelona koma á ári hèrumbil 30—40 skipsfarmar frá Noregi, en frá Íslandi koma í hæsta lagi 10 eða 12; leiðarbrèfið til Íslands er að vísu nokkur aukakostnaður, og tálmar ferðum þángað að öllu jöfnu, einkum þegar hlutaðeigendur eru ókunnugir og vita ekki hverjar vörur þeir skuli helzt færa, og kaupmenn vorir nota sèr þá ekki.

Jafnvel þó að saltfisksverkunin hjá oss sè á góðum vegi, einsog áður var sagt, þá er hún þó enganveginn allstaðar jafngóð, sem sjá má á því, er áður var getið, að verðmunurinn á bezta fiski og meðalfiski er optastnær 6—8 dalir á skippundinu. Þetta kemur mest af því, hvernig fiskurinn er búinn undir verkunina í upphafi, og þar er ekki annað en auðvelt og lítið handbragð sem á ríður. Þeir gallar, sem eru á fiskiverkuninni hjá oss, koma mest af því, að fiskurinn er ekki skorinn á háls í sama svip og hann er dreginn, og því öðru, að hann er slægður, þveginn upp og hreinsaður allt of seint, því stundum er hann ekki þveginn upp fyr en hann er tekinn upp úr saltinu, og hefir legið þar heila mánuði. Það sem á

---

[1]) Mullens, verzlunarfulltrúi í Liverpool, 28. April 1860; Marshall, þáverandi verzlunarfulltrúi í Leith, 10. April 1860.

ríður, ef fiskur á að verkast vel, er fyrst og fremst að hleypa blóðinu úr honum, með því að skera hann á háls jafnskjótt og hann kemur upp úr sjónum. Ef það er ekki gjört, og fiskurinn deyr með blóðinu, þá verður hann alla tíð blakkur, og aldrei fallegur, nema menn kunni að hylja þetta lýti, og kostar það þá miklu meiri fyrirhöfn. Annað sem á ríður er það, að láta fiskinn aldrei liggja lengi með slorinu. Menn eiga að hleypa blóðinu út samstundis, og ekki láta líða daginn áður fiskurinn sè gjörður til. Þegar hann er flattur, skal hafa vandaða og beitta flatníngshnífa, sem ekki rífa fiskinn, fletja ekki of djúpt með hryggnum, því þá fær fiskurinn magrara útlit, ef þar er rist ofan í roð, taka vel úr hrygginn og beingarðinn, en þó ekki svo, að fiskurinn fari með, þvo síðan vandlega fiskinn upp og taka þá um leið úr honum allar himnur og óhreinindi. Þetta á allt að gjöra áður en fiskurinn er saltaður, og ef það er gjört vandlega, þá bregzt manni ekki að fá góðan saltfisk, með þeirri meðferð sem er orðin alkunnug á Íslandi.

Harður fiskur er á mörgum stöðum útgengilegri til verzlunar en saltfiskur, og það er ekki ósjaldan, að það getur verið meiri ábati að verka hann. Til þess á helzt að velja stærsta og feitasta fiskinn, þvo hann vel og hreinsa áður hann er hertur, og hlaða honum við og við, til þess hann skorpni ekki, heldur fergist og slèttist af þúnga sjálfs síns.

Bezt af hörðum fiski gengur sá fiskur út, sem er ráskertur, þegar hann er verkaður vel, og einkum ef hann náir að frjósa. Þessvegna ætti ekki að salta þann þorsk, sem veiðist að hausti til og framan af vetri, allt fram undir miðgóu, því sá fiskur liggur of lengi í salti og verkast aldrei vel, en úr þeim fiski eiga menn að gjöra ráskerðíng; á að þvo hann vandlega og hreinsa, áður hann er hengdur upp, og vant er annarstaðar að skera af honum bakugga og sporðugga þá um leið.

Lánga er ekki á Íslandi í eins miklum metum og þorskurinn, en er þó verkuð í salt og hert sumstaðar. Norðmenn gjöra úr henni ráskerðíng, og selja mikið af henni til Hollands. Á Skotlandi og Englandi er hún vel útgengileg, þegar hún er vel verkuð í salt, og ekki flyzt ofmikið af henni.

Þorskahrogn eru merkileg og dýr verzlunarvara, sem vèr ættum að gefa miklu meiri gaum en vèr gjörum nú. Hrognin eru flutt til Frakklands, Spánar, Ítalíu og Portugals, og höfð þar til niðurburðar og agns fyrir smásíld, sem veiðist þar, og er flutt til annara landa sem mesta sælgæti og kölluð *sardine* (á þýzku: *sardelle*); en í raun og veru er þetta sælgæti, sem Frakkar eru svo frægir af, öldúngis samskonar fiskitegund og vèr köllum kópsíld, og kemur fjörðunum fullum til vor á hverju ári, en án þess vèr seljum af henni eina tunnu oss til ábata. Þorskahrogn eru seld í Noregi á 7 rd. til 16 dali tunnan, hjá oss hefir hún verið frá 5 til 7 dali. Frakkar sjálfir kaupa hrognin frá Noregi, og frá Íslandi hafa stundum verið flutt hrogn til Noregs. Ekki vitum vèr til, að fiskihrogn hafi verið flutt frá Íslandi fyr en 1770, en síðan hefir jafnaðarlega verið flutt þaðan nokkuð af þeim, en aldrei mikið, og helzt frá Suðurlandi. Verzlunartöflurnar telja að flutt hafi verið:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1770 | 104 | tunnur. |
| — 1772 | 134½ | — |
| — 1784 | 20 | — |
| — 1806 | » | — |
| — 1816 | » | — |
| — 1840 | 275 | — |
| — 1849 | 308 | — |
| — 1855 | 1131[1] | — |

[1]) Bech. Om Handelen paa Island, bls. 99; Skýrsl. um landsh. I, 79, 92, 609.

Þegar hrognin eru góð, þau sem frá Íslandi koma, eru þau borguð með sama verði í Noregi og norsk hrogn, en þar er kvartað yfir, að þau hrogn sem fra Íslandi flytjast sè blönduð með gotum, eða þeim hinum stóru linu kýtum, sem eru í fiskinum, þegar hann er rètt kominn að goti, og sè því felld í verði jafnvel meira en vera ætti, einsog ætíð er þegar varan er blönduð, illa valin eða illa hirt.

Sundmaginn[1] hefir ætíð verið hirtur hjá oss, en aldrei verkaður til þess ábata sem hann gæti verið; hann hefir verið helzt fluttur til heimila og hafður til matar, en mestur ábati er að sjóða úr honum sundmagalím, eða húsblas, og selja það, því ef það er gott er það afardýr varníngur. Til verzlunar hefir sundmaginn gengið nokkuð á seinni árum, svo að 1855 voru flutt 44 skippund af honum til Spánar[2], en verð á honum mun hafa verið heldur lágt, því hann er hjá oss hvorki vel verkaður nè hreinn að sjá. Hvað sem menn vilja gjöra við sundmagann, þá eiga menn að verka hann glænýjan og verka hann þá vel, taka af honum allar slorhimnur og öll óhreinindi, og þurka hann síðan snarplega, svo hann verði sem bjartastur ílits, nokkuð harður og svipaður glæju horni. Ef hann er þannig verkaður, gengur hann allvel út, en sè hann óhreinlega verkaður verður hann blakkur og ógagnsær, kemur af honum brækjulykt og hann verður ekki hæfur til neins, nema þess sem óvandaður trassaskapur getur notað hann til.

---

[1]) Um meðferð og not á sundmaganum er mart ritað, svosem til dæmis:

Ólafur Ólafsson. Um nokkrar límtegundir. (1786). Fèlagsr. VI, 234—248.

Müller. Um húsblas, Bened. Gröndal íslenzkaði. (1791). Fèlagsr. XI, 186—192.

Sveinn Pálsson. Um húsblas eða sundmagalím. (1789). Fèlagsr. IX, 160—176.

Um sundmaga og húsblas. Lítil fiskibók, bls. 32—36.

[2]) Skýrslur um landsh. I, 582.

## 2. SÍLD, UPSI.

Jón Eiríksson. Nokkrar hugvekjur um veiði og verkun á ... síld ... o. s. frv. (1783). Fèlagsr. III, 110.
Mohr. Um aðferð ... að veiða smáupsa. (1783). Fèlagsr. III, 193—204.

Síldin hefir aldrei orðið oss að ábataeyri til þessa dags, en aðrar þjóðir hafa grædt miklu meira á henni en á þorskinum, og haft aðal-fiskvarníng sinn af henni. Á miðöldunum hafði Danmörk eina hina mestu síldarveiði í Eyrarsundi. Hollendíngar og Flæmíngjar höfðu um lángan aldur, og hafa jafnvel enn, mikinn auð af síldarverzlun sinni, en þeir veiða síldina í Englandshafi og kríngum strendur Englands, Skotlands og Hjaltlands, og hafa hinir auðugu Englendíngar horft á þetta um lángan aldur, og jafnvel keypt aflann af hinum frá sínum eigin ströndum, þartil þeir fóru að fiska sjálfir ásamt hinum. Norðmenn hafa á seinni tímum aðalmegin fiskverzlunar sinnar af síldinni. Á Íslandi getum vèr ekki sagt enn, hversu mikinn síldarafla vèr gætum haft, en eptir því sem vèr getum næst komizt, mætti hann í sumum árum vera yfirgnæfandi. En til þess þarf fyrst og fremst, að vèr fáum oss veiðarfæri, ílát og allan nauðsynlegan viðurbúníng þar sem síldin er vön að sækja að, og þarnæst er nauðsynlegt að kunna til meðferðar á aflanum, svo hann verði manni útgengilegur. Tilfæríngarnar verða nú smásaman auðfengnari og ódýrari, því nú hafa menn fundið upp riðvèlar, eða verkfæri til að ríða allskonar net, og má fá hvort maður vill til kaups: netin svo stór eða lítil sem maður vill, eða vèlina sjálfa tilbúna, og væri fiskifèlag stofnað á Íslandi, er enginn efi á, að það ætti að útvega sèr vèl þessa, t. d. frá Skotlandi. Þær síldartegundir, sem til Íslands koma, eru helzt hafsíld, kópsíld og loðna.

Hafsíldin er sú hin ypparsta síldartegundin, og er sú sem mest gengur að kaupum og sölum; hún kemur og

einnig til Íslands, en svo lítill gaumur er henni gefinn, að mönnum eru enganveginn kunnugar gaungur hennar. Náttúrufræðíngar hafa sagt, að hún kæmi ekki til Íslands nema stundum, og þó ekki mikið af henni [1]; en þó höldum vèr, að þessu sè varla svo varið, heldur muni hún koma þar optastnær, djúpt eða grunnt, ef menn þareptir gaumgæfði gaungur hennar.

Kópsíldin gengur víða inn á firði, og hleypur rètt á land. Á Akureyri hefir hún opt verið svo að segja ausin upp, en af því engin ráð hafa verið til að hirða neitt töluvert af henni, þá hefir lítill fengur orðið í aflanum. Eigi að síður hafa menn sannfærzt um, að kópsíldin verður bezta verzlunarvara, ef hún er söltuð niður með kryddi í smákúta, eins og tíðkast í Noregi og þar eru kallaðar *Anchiovis* (angsjósur); hefir það opt verið reynt á Akureyri, og tekizt ágætlega einsog vænta mátti, en þetta hefir aldrei orðið að neinu ráði, og ekki nema sem sýnishorn eitt, eða svosem til sælgætis. Í matreiðslubók [2] þeirri, sem prentuð er á Akureyri fyrir skömmu síðan, er sagt fyrir um þá aðferð, sem vant er að hafa við síldina, en sá tilbúníngur getur verið með margvíslegu móti. Sumir leggja síldina eitt dægur (12 tíma) í gott edik, sumir heilan sólarhríng í salt, áður hún er lögð niður með kryddi, og þetta krydd er líka ýmislega valið og ýmislega blandað.

Loðna eða loðnusíld kemur víða á firði á Íslandi, og hleypur stundum á land af ösinni; þetta síldarkyn er í minnstum metum, enda mun það ekki heldur vera hagnýtt hjá oss til neinna riða. Grænlendíngar veiða mikið af loðnu; þeir fara út í fuglager með netháfa, búna til eins og ausur með skapti, og sökkva þeim í torfurnar, geta

[1]) Faber. Naturgeschichte der Fische Islands. Frankf. 1829. 4to. bls. 183.

[2]) Ný matreiðslubók, ásamt ávísun um litun, þvott o. fl. — Samið hefir Þ. A. N. Jónsdóttir. Akureyri 1858. XX + 244 blss. 12mo.

þeir svo ausið upp af loðnunni fulla báta; síðan þurka þeir hana með því, að breiða hverja við aðra, og snúa á ymsar hliðar, en þegar þurkað er, láta þeir hana niður í skjóður, og geyma hana til vetrarforða.

Þó ekki sè mikið um síldarafla á Íslandi, þá finnum vèr samt nokkrum sinnum síld flutta þaðan, en samt ekki fyr en á seinni árum. Árið 1849 voru fluttar 23 tunnur af saltaðri síld frá Gullbríngu sýslu, og 1855 úr Eyjafirði 5 tunnur. En það er líklegt, að menn gefi þessum afla smásaman meiri og meiri gaum, og læri að færa sèr hann í nyt, því hann getur eigi að eins verið til búbætis á heimilum, og það margsinnis opt þegar annar afli bregzt, heldur og einnig mjög ábatasöm verzlunarvara.

Þar sem svo stendur á, einsog sumstaðar er á Íslandi, að síldin gengur inn á voga eða fjarðarbotna, er auðgefið að ná öllu því sem inn kemur, ef maður hefir nógar tilfæríngar. Þar til heyrir, að hafa síldarnætur svo lángar og djúpar, sem þarf til að loka vognum að utan. Venjulega eru síldarnætur í Noregi 120 til 150 faðma lángar, og 15 til 20 faðma breiðar. Þá taka menn smá net, og draga á inni í vognum, eptir því sem menn geta komið sèr fyrir, en þoka jafnframt stóru nótinni inn á voginn, eptir því sem hann tæmist, þángað til hún tekur á land. En þá þarf jafnframt tunnur, salt, krydd og sèrhverja þá hluti, sem nauðsynlegir eru til að búa vel um afla sinn, einnig töluverðan fólksafla, þegar mikið berst að, því annars vill mikið ónýtast. Allur sá viðbúnaður, sem til þessa þarf, er svo mikill, að samtök og fèlagskap þarf til að standast kostnað af honum, nema ríkir menn ætti í hlut, en þar mundi varla vera efi á, að fyrirtækið borgaði sig, ef það væri haglega stofnað og því stjórnað vel. Meðferðin öll er í sjálfu sèr einföld, svo þar er mest komið undir, að ekki vanti það, sem til þarf að taka. En þó það vantaði, þá mætti hirða mikið til þurkunar og geymslu, reykja sumt

o. s. frv., en það, sem ekki verður hirt með nokkru öðru móti, verður bezti áburður, ef því er blandað með mold og mykju og látið fúna saman.

Upsinn gengur á stundum svo mikill að Suðurlandi, að dæmi eru til að torfurnar hafi svo að segja farið sjálfkrafa á land, svosem t. d. í Hafnarfirði. Hann gengur einnig mikill að Austurlandinu, t. d. að Djúpavogi og víðar. Þegar svo ber undir, að mikil gengd er af smáupsa á vogum og víkum, má veiða hann með því að króa hann eins og síld, en þegar jöfn gengd er af honum, þá veiðist hann mest á dorg, og er það skemtilegur veiðimáti fyrir únglínga, og þá sem vilja fiska sèr til skemtunar. Dorgin er fiskistaung mjó og laung, með taumi á öðrum endanum og þar aunglinum neðan í. Fiskistengur geta menn fengið keyptar frá Englandi eða Skotlandi með öllum tilbúnaði, en það er svo einfalt að gjöra þær, svo að þær verði vel notandi, að það getur hver einn gjört. Uppdráttur af fiskistaung fylgir ritgjörð *Mohrs*. Upsinn er ekki einúngis góður fiskur til bús að leggja, heldur gefur hann einnig lýsi, og er þessvegna hinn mesti fengur að upsaveiði.

### 3. LAX, SILÚNGUR, ÁLL.

Jón Eiríksson. Nokkrar hugvekjur um veiði og verkun á laxi, síld o. s. frv. (1783). Fèlagsr. III, 86—121.

Ólafur Ólafsson. Um laxveiðina við Hellufoss í Dramselfunni í Noregi. (1786.) Fèlagsr. VI, 175—186.

Ólafur Ólafsson (Olavius). Lítilfjörlegt ágrip um álaveiðar. (1783). Fèlagsr. III, 205—215.

Hin auðveldasta og bezta aðferð við laxveiði í stóránı á Íslandi. Þjóðólfur VII (1855), 95—96, 99—100.

Laxinn er ein af þeim fiskitegundum, sem er mest eptirsókt af öllum. Þó eru enskir menn ákafastir að ná honum. Þeir fara á hverju sumri úr landi og takast ferð á hendur til Noregs eða annarstaðar, þángað sem laxveiður er, liggja þar við allt sumarið, og fá leyfi eigendanna til að veiða þar lax á aungul. Þetta er þó ekki til ábata gjört, heldur

til skemtunar, af því að laxinn er glæsilegastur fiska, og þykir mest frægð og mest skemtun að veiða hann. Á Englandi og Skotlandi hefir áður verið hin mesta laxveiði, en með allskonar vígvèlum, stórum og smáum, hefir þeim tekizt svo að veiða, að laxveiðin er tæmd, og þar fæst varla lax lengur. Menn halda, að þessu sè svo varið, að laxinn leggi hrogn sín í ám þeim, sem hann fer upp í, og það afkvæmi, sem vaxi þar upp, komi á sömu stöðvar næsta ár og svo koll af kolli; en þegar áin er þurkuð árlega hvað eptir, svo engin lifandi skepna af laxi nær að komast þaðan lifandi, þá kemst sú á einsog í auðn, því þá á enginn lax þar heimili lengur, og getur ekki átt, svo þá eru þau ein ráð fyrir hendi, ef maður vill fá ána bygða af laxi á ný, að flytja þángað lax annarstaðar að og friða hann meðan hann er að fjölga. Þetta er nokkurs athuga vert fyrir oss, að haga svo veiðum vorum að vèr ekki eyðum þeim, þó vèr hefðum afl og kunnáttu til þess, með því að beita þeim vígvèlum, sem gjörir öllum laxi ómögulegt að komast upp í árnar til að leggja egg sín og tímgast, og er þetta því aðgæzluverðara, sem hætt er við að oss fari sem öðrum, að veiðihugurinn og kappið ráði meira en fyrirhugi og skynsamlegt ráðlag.

Laxveiðin hjá oss má nú heita að hafa verið í barndómi sínum ávallt híngaðtil, og sè nú fyrst að byrja, því nú er fyrst vottur þess, að vèr getum fengið gagn af veiðum vorum, og notað þær, hvort sem vèr viljum sjálfir, eða selt þær. En þó laxveiðin hafi verið lítil, þá hefir þó ætíð verið einskonar lifandi vottur þess hún væri nokkur, því ætíð hefir verið flutt utan nokkuð af laxi, og hefir það verið:

| | | |
|---|---|---|
| ár 1624 | . . . . . . . . | 5½ tunna. |
| — 1630 | . . . . . . . . | 5 — |
| — 1734 | . . . . . . . . | 4 — |
| — 1743 | . . . . . . . . | 3 — |
| — 1753 | . . . . . . . . | 5½ — |
| — 1764 | . . . . . . . . | 14 — |

| | | |
|---|---|---|
| ár 1772 | ........ | $1\frac{1}{2}$ tunna. |
| — 1779 | ........ | $16\frac{1}{2}$ — |
| — 1784 | ........ | 17 — |
| — 1806 | ........ | 28 — |
| — 1816 | ........ | 104 — |
| — 1840 | ........ | 330 lísip. |
| — 1855 | ........ | 387[1] — |

þetta lítilræði mun hafa einúngis verið flutt frá Reykjavík og frá þíngeyjar sýslu. En síðan 1855 hefir komið töluverð breytíng á þetta. Skotar fóru fyrst að taka upp á því 1857, að kaupa lax af bændum og sjóða niður á enskan hátt, og flytja til verzlunar, og er enginn efi á að þeir hafa haft á því góðan ávinníng; en laxamenn vorir hafa einnig haft á því góðan hagnað, og ætti með tímanum að geta haft hann meiri, og lært allan tilbúnínginn með soðnínguna, sem á ekki einúngis við þetta, heldur við allan mat sem geyma þarf, og væri því eitthvert hið nytsamlegasta búverk, sem vèr gætum tekið uppá að læra. Þessar laxaveiðar sýna oss nokkuð sýnishorn af því, hvernig atvinna og ágóði getur vaxið. Það er kunnugt, að lènsmennirnir á Bessastöðum höfðu tekið undir sig laxveiðina í Elliða-ám, og síðan var hún leigð sem konúngseign fyrir árlegt afgjald, sem varð allra mest rúmir 100 rd., en venjulega svosem 50—60 dalir; fyrir nokkrum árum voru nú árnar með veiðinni seldar fyrir 1200 dali, en 1858 tók hinn skozki laxamaður veiðina til leigu af eigandanum um 3 ár, fyrir 100 pund sterlínga eða hèrumbil 880 dali árlega. Þar sem menn fengu áður venjulega 6—8 skildínga fyrir pundið, og gátu þó ekki selt nema fáein þúsund pund, þar fá menn nú 10—11 skildínga fyrir pundið, og geta selt því meira því dýrara. Einúngis frá Suðurlandi var flutt til Englands eða Skotlands:

[1]) Bech. Om Handelen paa Island, bls. 87, 88, 97. — Sig. Hansen í Skýrsl. um landsh. I, 79, 92, 608.

1857 . . 17000 pund, og höfðu kostað 10 sk. pund.
1858 . . 20000[1] — — — 11 — —
en síðan hefir þetta farið mikið í vöxt, og það mun varla ýkt, að nú sè fluttur utan frá Íslandi niðursoðinn lax 50,000 pund, fyrir hèrumbil 6000 dala á ári, auk þess sem þeir færa með sèr og eyða af peníngum hjá oss, sem í þessum útveg eru, og er það ekki minna. En samt sem áður hafa þessir menn sjálfir mestan ábatann á framkvæmd sinni, svo að einn þeirra taldi sèr, að hann hefði keypt verzlunarstað í ár fyrir 500 pund sterlíng, einúngis fyrir þann ábata, sem hann hafði á laxverzlun sinni í fyrra. Þetta er einmitt gleðiefni fyrir oss, því það sýnir, að atvinna er margvísleg og gróðavegur ríkulegur á landi voru, fyrir þá, sem kunna með að fara, og hver getur örvænt að vèr getum lært það? — Hvarfyrir skyldum vèr þá sjá ofsjónum yfir ábata annara, sem einmitt sýna oss og kenna oss hvað vèr getum sjálfir, ef vèr höfum að eins hug og framtak í oss. Vèr ættum miklu fremur að þakka þeim, og svo jafnframt sýna í verkinu að vèr værum efnilegir lærisveinar, með því að ná sem fyrst jöfnum hlut með þeim, og síðan taka við af þeim.

Silúngsveiðar eru og hafa ætíð verið meiri á Íslandi og víðar en laxveiðarnar; en það er einúngis til búmatar og ekki framar. Hvílíkt ógrynni að sè af silúngi, sem veiða mætti bæði í sjó, ám og vötnum, viljum vèr ekki fá oss til orða, því það er allt of kunnugt, en vèr skulum einúngis geta þess, að til að veiða hann í fjallavötnum gæti menn búið sèr til einskonar húðkeipa, sem mætti taka í sundur og flytja á hestum einsog tjald. En til veiðarfæris í vogum ám og vötnum, þar sem silúngsgegnd er og nokkurnveginn kyrt, ætti menn að gjöra sèr háfa, sem eru hið ágætasta veiðarfæri, en eru því miður varla kunnugir á Íslandi. Háfurinn verður tilbúinn mjög einfaldlega, því ekki þarf annað

[1]) Þjóðólfur X, 57, 130, 154.

en reisa sèr upp sviga eða gyrði, svo sem tvær álnir á vídd að þvermáli, eða meira ef vill, ríða þar utanum þètt og sterkt net, svo smámöskvað að ekki ánetist í því. Hafi maður nú 5—6 sviga, með hálfrar annarar álnar bili milli hvers, þá hefir maður þar opinn ránghala, einsog hús, hèrumbil 9 álna lángt; nú lokar maður í annan endann, og ríður þar aptur af svigunum einsog skotthúfu, sem lykst saman. Innan í háfnum hefir maður tvær viðlíka húfur, en ekki að öllu lokaðar, heldur með mjófum götum í kollunum, sem snúa inn í háfinn. Þar hefir maður nú nóga vèl til að halda fiskinum inni, en nú vantar ráð til þess að handsama hann og lokka hann inn í fylgsnið. Til þess hefir maður tvennt bragð: fyrst hefir maður net beint fram úr opinu á háfnum miðjum, og er áríðanda að það nái nokkuð inn í háfinn, t. d. að öðrum sviga, svo að fiskurinn smjúgi ekki í kríngum það innanvert, heldur verði að fylgja því inn í háfinn; þar næst hefir maður tvö net, eins og fasta arma, út frá opinu á háfnum á báðar hliðar. Nú leggur maður háfinn og stjórar niður, svo að lokaði endinn snýr frá landi, en trjónunetið gengur fram úr háfnum til lands. Þegar fiskur hittir það fyrir, þá rekur hann sig á, og fer þá ætíð til djúps, en þá verður fyrir honum háfurinn opinn, eða þá armarnir, og þeir snúa honum til háfsins. Fer hann þá inn á botn, og snýr þar við aptur, en kemst þá ekki út um húfurnar. Þar sem svo á stendur, að svæði er stærra og nóg efni fyrir höndum, má hafa svo marga háfa, hvern við annars hlið, sem maður vill, en vídd, stærð og lengd þeirra fer eptir því sem til hagar. Þegar silúngur allskonar færi að fiskast í slíkri mergð, sem samsvarar því er fyrir hendi er, þá er jafnframt nauðsyn á að hafa verið sèr úti um mann, sem kaupi aflann og sjóði hann niður, eða menn verða að taka sig til um þetta sjálfir; geta þeir þá hvort sem vill, geymt sjálfir forða handa sèr, eða selt til verzl-

unar, og mætti þetta verða meiri verzlunar-varníngur, en vèr getum nú gjört oss nokkra hugmynd um.

Um álaveiðar hefir mönnum aldrei verið hugað á Íslandi, og margir menn hafa viðbjóð á þeim fiski; það eldir líklega eptir frá þeirri tíð, þegar menn hèldu að állinn ætti samræði við orma, og væri sjálfur einskonar ormur, sem lifði á leðju og rotnum hrækvikindnm, og væri óæti. En állinn er saklaus af öllu þessu ámæli, og er víðast hvar talinn mesta sælgæti. Svosem til dæmis má geta þess, að Frakkar hafa lagt fyrir hann veiðibrellur í Reykjavík, og veidt þar töluvert af honum í bæjartjörninni. Þessvegna er enginn vafi, að þó vèr veiddum ál, og gætum ekki sætt oss við að borða hann sjálfir, þá gætum vèr ætíð selt ómælt af honum til annara landa, svosem Englands og Frakklands, og eins til Danmerkur. Menn veiða hann annarstaðar í hylkjum eða körfum, riðnum svo stórum sem kvartil, með krínglóttu opi á báðum endum; kríngum bæði opin eru festar spelkur úr gyrði eða viðjum, einsog trekt, sem ná að mestu saman, en þó ekki fyllilega, líkt eins og fyr var sagt um húfurnar innan í háfnum. Innan í hylkin er gott að láta flösku, með lifandi möðkum í, og síðan stjórar maður niður hylkið að kvöldi til, en vitjar um að morgni, helzt þegar kyrt er veður og dimmt, og er þá állinn þar inni við flösku sína. Menn hafa einnig álakistur, og álagarða, og margar fleiri vèlar; en sú er einföldust, sem sagt er frá að menn hafi haft á Íslandi, að veiða ál með skyri. Þeir hafa staung eða stjaka, með snúð eða litlu hjóli neðan á, rjóða hann í skyri ofan við staungina og reka hann síðan ofan í botn; þá fellur glætan af skyrinu í augu álnum og verður honum að tálsnöru, því meðan hann er að eta af skyrinu vefur hann sig upp um staungina, til þess að hafa sem bezt næði við mat sinn, en þá kippir maður staunginni upp með öllu saman, og gefur honum skell fyrir skyr.

4. HEILAGFISKI.

Sú fiskitegund hefir ávallt verið í miklu afhaldi hjá oss á Íslandi, og bæði riklíngur og rafabelti verið seld dýrt manna á milli, svo að rafabelti eru metin i Búalögum tvöföld við fullgildan fisk, eða á 40 álnir vættin, sumir segja 60 álnir, og riklíngur þriðjúngi meira en fiskur, eða 30 álnir vættin. Þar mun og enginn efi á, að heilagfiski gæti á margan hátt orðið útgengileg verzlunarvara, og sömuleiðis sjálfum oss til miklu meiri nota en það verður nú. Þar sem mikið fiskast af því, er það soðið í einmeti dag eptir dag, og verður með því móti óhollustu matur, því það er feitt og þúngt til meltíngar; er það því munnmæli sumra, að holdsveiki komi af heilagfiskis áti; kann vera, að nokkuð sè tilhæft í þessu, og að vísu er það sannfæríng vor, að þessi hryllilegi sjúkdómur mundi smásaman hverfa á Íslandi, ef þrifnaður innanhúss og mataræði yrði almennt bætt. Ef menn lærði að haga þessu betur, matbyggi fisk þenna með ymsu móti, en ekki ætíð eins, og hefði kálmeti og jarðarávöxtu með til matar síns, þá yrði ekki einúngis þessi afli heilnæmari, heldur og miklu drjúgari, og gæfi manni margvíslegan búbæti. Af heilagfiski má elda beztu súpur, sömuleiðis steikja það með ymsu móti, sjóða það niður til geymslu, og á margvíslegan annan hátt hagtæra því sèr til gagns og ábata, svo þar er enginn efi á, að það muni með tímanum verða ein af vorum beztu varníngstegundum.

5. HÁKALL, HÁFUR, SKATA.

Ólafur Ólafsson. Um lagvað. (1781). Fèlagsr. I, 76—86 (með uppdrætti); sbr. Olavii ferðabók.

Hákallinn er eptir sögn náttúrufræðínganna miklu fjölskipaðri í kríngum Ísland, heldur en við hin önnur lönd í grend við oss; en hann er líka geðlegur nágranni, því hann er einn hinn ábatamesti afli, þegar nóg af honum

gengur oss í greipar. Sú er aðferð hans venjuleg, að hann kemur undir land og inn á fjörðu á vetrum, en fer frá landi fyr eða síðar á vorin, og verður þá ekki veiddur nema með mestu sjósókn, jafnvel á þilskipum. Það var áður fyrrum venjan mest, að menn egndu fyrir hann á vetrum inni á fjörðum, og veiddu hann þannig, bæði fyrir norðan, vestan og austan. Veiðarfæri það, sem haft var til hákallaveiða í Eyjafirði og Fljótum, var kallað lagvaður, og þótti það veiðnast og bezt úr garði gjört af þeim, sem þá voru tíðkuð. Menn fluttu þá hákallinn á land, að því leyti menn náðu honum, með lifur og öllu saman, var það töluverður afli og varð án efa optsinnis mönnum til bjargar í hallærum þeim, sem þá dundu svo opt yfir, þó honum væri stundum kennt um, að hann hefði valdið dauða margra, þegar hann var óvarlega etinn nýr og ókasaður, eða illa kasaður, því þá getur hann verið banvænn matur, vegna stækju-efnis þess (*Ammoniak*), sem í honum er. Stundum fóru menn um þær mundir í hákallalegur á stærri bátum, sem menn kölluðu »hákallaskip«, en kepptust þá samt eins við að flytja með sèr allt í land, skrokkana eins og lifrina, og unnu til að róa og sigla með hákallaslóðann í kríngum sig, þó þeir yrði að reyra bátana til þess þeir skyldi ekki liðast í sundur. Nú er orðin á þessu mikil breytíng á seinni tímum. Menn leggja nú að sönnu hákallalóðir inni á fjörðum á veturna, og fá þar stundum nokkuð, en um sama leyti er þá byrjað að fara í legur á þilskipum eða hákallaskipum, og þá tekur undan hákallinn við lóðirnar. Í hákallalegunum fara menn þá í kappi alltaf einn dýpra en annar, til þess að ná í hákallinn sem óðastan, og geta með því móti skorið skrokkinn í sjó og tekið lifrina, vita menn svo varla af sèr fyr, en þeir eru komnir hver fram fyrir annan á landsbrún, og álasa þá hver öðrum fyrir fíknina, en hinir, sem ekki ná í veiðarnar, sakna vinar í stað, þegar hákallinn kemur ekki sjálfur líkamlega á land, og ekki nema sálin hans, eða

lifrin ein, sem færri hafa gott af. Menn hafa talað um, að hákallsaflinn mundi geta orðið engu minni, og öllu notalegri, ef allir væri samtaka um að fara ekki í legur til hafs, heldur hafa allir innfirðis veiði, meðan ekki bæri á að hákall færi að gánga frá landi, en þetta hefir ekki viljað heppnast, og sá fèlagskapur farið út um þúfur. Í Faxaflóa og Breiðaflóa hefir þó heppnazt með legur lengi frameptir vetri.

Hákallinn er ekki einúngis mikill happafengur að lifrinni til, heldur er einnig mikið varið í kjötið og skrápinn. Kjötið, eða »hákallinn«, sem kallaðr er, hefir í sèr mikið af fínasta lýsi, sem má ná úr honum ef maður hefir tæki til þess, en hann er líka drjúgur og góður búbætir, ef hann er vel og þrifalega verkaður, og er hann misserisgamall lagður að jöfnu við góðan þorsk, en gagnþur þriðjúngi betri. Það sem mest ríður á, til að verka góðan hákall, er að kasa hann vel, eða láta hann liggja í gröf, sem er steinsett innan og vel þakin að ofan, þángaðtil stækjan er slegin vel út úr honum, en þó ekki svo, að hann verði alveg morkinn. Síðan verður hann að hánga mjög lengi, því hann er vandþurkaður, og ekki hefir hann áður verið kallaður vel vandaður nema hann væri að minnsta kosti ársgamall, vel hertur og gagnsær ef kviðhákall væri. Skrápurinn er eitt hið bezta skóleður, einkum til sjóskóa, ef hann er vel verkaður; úr honum má einnig gjöra hið fínasta leður, sem Frakkar kalla *Chagrin*, og nú er mestmegnis tilbúið úr hestham, asnahúðum og múlabjálfum.

Hákallaveiðin er hin beinasta hvöt fyrir oss til að útvega oss þilskip, því hún verður ekki stunduð að gagni, nema menn geti svo að segja fylgt hákallsgaungunni úr landi og í. Hefði menn þá samtök, svo að mörg skip hjálpuðust að til að veiða og flytja aflann í land, þá mundi bæði aflast meira, t. d. þegar kjör standa um nokkurn tíma, sem stundum ber við, og þá yrði hægra að hagnýta sèr allt það sem aflaðist. Þegar skip þessi væri orðin mörg, þá kæmist

svo lángt, að menn færi að sigla á þeim sjálfir með afla sinn til Skotlands, Noregs, Danmerkur og kannske fleiri landa. Háfurinn veiðist mestur á Suðurlandi, en er ekki í miklum metum. Þó er í honum frábærlega mikið af fitu, sem mætti ná úr honum ef menn hefði tæki til þess. Roðið af honum er það eina, sem gengur í verzlunarvöru, og er einkum flutt frá Vestmannaeyjum, þó sýnist það heldur að fara mínkandi, því

| | | | |
|---|---|---|---|
| ár 1806 | voru flutt utan háfsroð | 1568 | tals, |
| — 1816 | . . . . . . . . . . . . | 1463 | — |
| — 1840 | . . . . . . . . . . . . | 234 | — |
| — 1849 | . . . . . . . . . . . . | 93 | — |
| — 1855 | . . . . . . . . . . . . | 55[1] | — |

Skata veiðist stundum töluverð, einkum fyrir sunnan og vestan, en er ekki mikil verzlunarvara, meðfram vegna þess, að ekki veiðist meira af henni. Hún er þó í sjálfu sèr góður afli, því bæði er hún lifrarmikil og gefur mikið lýsi, en fiskurinn er uppáhald sumra bæði soðinn og hertur. Á Íslandi er það venja, að kasa sköturna einsog hákall, áður en hún er hengd upp, því hún er full af sama stækju-efni eins og hákallinn, og getur orðið banvæn fæða, ef hún er borðuð ókösuð sem einmeti. Skötumagar eru sumstaðar hafðir í dufl, og fyrir lýsis ílát, og roðið í vefjur eða fyrir skinnsokka. Útlendir salta stundum sköturna nýja, og fara með hana líkt og saltfisk, og segja hún sè þá góð.[2]

### 6. SELAR, HVALIR, MARSVÍN (hnýðíngar).

Jón Eiríksson. Um hvalaveiði. (1781). Fèlagsr. I, 143—161.
Jón Eiríksson. Um marsvína rekstur. (1782). Fèlagsr. II, 73—96.

Þau helztu selakyn, sem eru í kríngum Ísland, eru einsog kunnugt er: landselur, útselur og vöðuselur. Það

[1]) Skýrslur um landsh. I, 79, 95, 618.
[2]) Faber. Naturgesch. der Fische Islands, bls. 38.

er forn veiðimáti, sem helzt við enn í dag hjá oss, að veiða landselinn í nótum og útselinn með uppidrápi á skerjum; skutulveiði á sel er og gömul, en þó varla eins gömul og á hval, að minnsta kosti ef vèr ættum að ráða af því, að í Grágás finnum vèr ekki gjört ráð fyrir að reki skotna seli, en hvali aptur á móti hafa menn þá fundið opt rekna með skotum í. Sverrir konúngur hefir samt þekkt málsliátt um selaskot með skutli, þar sem hann segir við menn sína til að hughreysta þá eptir mannskaða: »opt verður slíkt á sæ, kvað selur, var skotinn í auga«. Jónsbók gjörir ráð fyrir skotnum selum. Aldrei verðum vèr samt varir við í fornum ritum, að menn hafi gefið sig í hvalafar eða vöðufar á sama hátt og sumstaðar á síðari tímum er gjört; sú veiðiaðferð mun varla vera eldri en frá sextándu öld, og hefir einúngis orðið lenzka í stöku sveitum. Eptir að byssuveiðar komust á, urðu nótnaveiðar smásaman ofurliði bornar, en vegna hins stöðuga og mikla ágóða, sem landselur og útselur gefa af sèr, þegar þeir mega vera í náðum, hafa lögin sterklega friðað látur og lagnir fyrir skotum. Kunnugir menn mátu selafla kríngum Breiðafjörð einn fyrir 14 árum síðan (1847) til 4—5000 dala á ári og þaryfir, því hver landselskópur var þá metinn á 1 rd. 48 sk. og hver útselskópur á 4 rd.[1] Það mun vera eflaust, að selaflinn hafi heldur vaxið en minkað síðan. Vöðuselur var lengi veiddur með skutli einúngis, og þó ekki nema á stöku stöðum, þángað til menn fóru annarstaðar að reyna nætur fyrir hann, og heppnaðist mæta vel. En því er miður, að á seinni árum virðist sem vöðuselur leggist frá, hvort sem þartil eru sèrlegar orsakir, eða einúngis eru að því áraskipti.

Það verður víst ekki annað sagt, en að viðburðir sè hafðir til selveiða á Íslandi í betra lagi, eptir þeim efnum sem fyrir hendi eru. Þó mundi vissulega mega taka upp

[1]) Tíðindi frá alþíngi 1847, bls. 280.

lagnir sumstaðar, sem ekki eru, lokka sel að lögnum sumstaðar, þar sem hann er nú skotinn og eyddur, og það af hlutaðeigendum sjálfum, jafnvel prestum, sem eru gírugir í stundar-hagnað, en gá einkis þess, að þeir hafa landsins fè að láni og eiga að skila því með umbótum til eptirrennara sinna, ef þeir vilja gagnsmenn heita; einnig mætti án efa veiða miklu meira af vöðusel í nótum, ef menn hefði samtök og útbúnað til þess. Þegar svo lángt kæmi, að skipa kostur væri til hafveiða, þá væri hvergi hægra en frá Íslandi að komast norður að ísbrúninni og hafa þar uppidráp, sem skip ymsra þjóða hlaða sig með hundruðum saman á hverju ári. Þegar svo væri komið, væri bein sjáfargatan að halda suður á við og vestur með skip sín og selja fenginn, því nógir eru kaupendur að þeirri vöru á Englandi og í Ameríku, og þó víðar sè leitað.

Hvalirnir eiga merkilega æfisögu, sem kemur víða við, en hèr er einúngis umtalsmál það sem Ísland snertir. Í fornöld er ekkert tíðara hjá oss en hvalskurður og hvalskipti; það eru hlynnindi, sem allir eiga meiri eða minni þátt í, og lögin tala nákvæmlega um allt er þar að lýtur. Þar sem talað er um skot í hval, þá má sjá, að menn hafa þá þegar skutlað hvali, eða lagt þá með járnum, en ekki fara sögur af að menn hafi fest sig við þá lifandi, eða farið að á sama hátt og útlendir hvalveiðamenn á seinni tímum. Þar af leiddi, að menn hlutu að missa flesta hvali, þá sem menn skutu, því þeir struku burt með skotið og dóu þá einhverstaðar fyr eða síðar, ef skotið vann á þeim. Það er auðsætt á öllu, að í fornöld hefir verið mergð hvala kríngum Ísland, af stórum og smáum, hvalrekar hlutu því að vera mjög tíðir. Seint á sextándu öld fóru ymsar þjóðir að byrja fyrir alvöru hvalaveiðar í norðurhöfum, og lögðust þeir þá mest að fyrir austan Ísland og í kríngum Spidsbergen. Hollendíngar höfðu þar heila nýlendu, og menn telja, að þar hafi verið 200 skipa og 14000 manna við veiðina, þegar

hæst stóð, hèrumbil 1680. En hvalurinn eykur ekki svo fljótt afkvæmi sitt, og því leið ekki á laungu þartil veiðin hvarf að mestu leyti, annaðhvort af því, að hvalurinn hefir eyðzt, eða hann hefir gjörsamlega flúið undan óvinum sínum. Þegar Englendíngar fóru að rannsaka Baffinsflóann og reyna að finna norðvestur-leiðina, fundu þeir þar enn mikið af hvölum, og fjölguðu þá enn hvalveiðaskip, en veiðin hefir opt verið bæði lítil og hættusöm; 1830 týndust 19 hvalveiðaskip af 97, eða fimta hvert skip.

Á Íslandi hefir sú hin forna aðferð haldizt við; menn höfðu lengi frameptir skeyti sín, og lýstu þeim á alþíngi til þess að geta eignazt skotmannshlut þegar hval rak á land með skeyti manns. Allstaðar þar sem skutlarar voru, en þó einkum fyrir vestan, voru hvalir skutlaðir, en náðust sjaldan sem aldrei fyr en þá rak upp dauða einhverstaðar seinna meir. Arnfirðíngar voru þeir einu, sem komust uppá hvalaveiðar með skynsamlegu móti, sem var við þeirra hæfi. Þeir skutluðu kálfana og náðu þeim, því þeir hèldu sèr með móðurinni og hún fór ekki í burtu meðan hún kenndi sèr einkis meins; en veiðimenn vöruðust að granda móðurinni, og lètu hana fara í friði til hafs aptur, eptir að þeir höfðu náð kálfinum; en að tveim vetrum liðnum kom hún á ný með annan kálf, og fór það á sömu leið. Þannig voru hvalreyðar þær, sem á Arnarfjörð komu, að sínu leyti eins og Breiðfirðíngar sögðu um landselinn: »einsog ærnar í kvíunum«, og þegar sín reyðurin kom hvert ár, eða fleiri en ein á sumri, með kálfa sína, þá var þetta mikill og hagkvæmur fengur; en aðrir hafa opt spillt honum, og skotið reyðarnar fyrir Arnfirðíngum, svo þær hafa horfið og komið aldrei aptur, nema aðrar hafi þá komið í þeirra stað.

Þar er enginn efi á, að á Íslandi mætti heppnast hvalaveiðar, því allir vita, að hvalavaðir smáir og stórir fara þar um, eða koma þar við árlega árs. Það er ekki heldur að efa, að þessar veiðar eru bezti æfíngarskóli sjómanna og veiðimanna, sem til er.

En eigi þær að heppnast, þó ekki væri meira en svo, að ábatinn yfirgnæfði kostnaðinn og fyrirhöfnina, þá verður aðferðin að vera hin fullkomnasta sem nú tíðkast, lík þeirri sem Englendíngar hafa. Þetta er nú hætt við sè oss ofvaxið, einsog nú er, og því er það ætlun vor, að hvalaveiðarnar liggi oss fjær en annað að svo komnu, nema þar sem veiða mætti á sama hátt og Arnfirðíngar hafa gjört. Vèr höfum líkt álit á hvalaveiðunum, eins og vèr áður sögðum um kornyrkjuna: vèr játum að hún sè æskileg, og gæti kannske að öllum líkindum tekizt opt vel, en hún er ekki eins viss, og liggur ekki eins vel við vort hæfi nú sem stendur, eins og grasrækt og garðyrkja. Eins er hvalaveiðin mikils verð, og getur verið mjögsvo ábatasöm, en hún er stopul, hún þarf mikinn útbúnað og þessvegna mikil efni, og þegar hún mistekst getur skaðinn orðið, fátækum eða viðvaníngum óbærilegur. Vèr vildum því ráða til, að stofna heldur samskotafèlög til fiskveiða allskonar og selveiða, heldur en hvalaveiða, að svo komnu máli, og þá fyrst, þegar vèr höfum fengið nóga skipaútgjörð og duglegt fólk til veiðiferðanna eptir smádýrunum, þá munu stærri veiðarnar koma af sjálfum sèr, og þá munu þær takast.

Hvalaveiðar gefa af sèr eina vörutegund, sem gengur í verzlun og er býsna dýr í öðrum löndum, og verður æ sjaldgæfari og dýrari, sem er hvalskíði. Þó það sè fyrir oss ekki merkileg vörutegund, skulum vèr þó geta þess, hvað af því hefir verið flutt utan á þeim árum, sem vèr höfum áður tekið til dæmis, og er það svo sem hèr segir:

| ár | | | |
|---|---|---|---|
| ár | 1624 | » | pund. |
| — | 1630 | » | — |
| — | 1734 | 724 | — |
| — | 1743 | 967 | — |
| — | 1753 | » | — |
| — | 1764 | » | — |
| — | 1772 | » | — |

ár 1779 . . . . . . . . . 187 pund.
— 1784 . . . . . . . . . 721[1] —

Síðan höfum vèr ekki fundið þess getið í varníngsskrám. Í verzlunartaxtanum 1776 var það fyrst verðlagt, á $5\frac{1}{2}$ sk. pundið, og er gjört ráð fyrir það sè smáskíði; en það sem hefir fengizt af skíði á Íslandi hefir líklega að mestu leyti verið notað í landinu sjálfu, í gjarðir, hagldir og til ýmislegs annars.

Vèr verðum að tala nokkur orð um marsvínin sèr í lagi, af því að vèr teljum eiginlega ekki marsvínaveiðar með hvalaveiðum. Dæmi Færeyínga sýnir oss, með hversu einfaldri aðferð menn geta hlotið mikinn afla, og það má að vissu leyti með sanni segja, að Færeyíngar halda bezt og mest við þreki sínu og manndáð með marsvínaveiðinni, því þar gefst þeim bezt færi á að sýna karlmennsku, snarræði og hugrekki. Að Íslandi koma marsvínin, eptir því sem vèr hyggjum, á hverju ári, nær eða fjær landi, og eptir því sem til orðs er tekið í Konúngs-skuggsjá, hefir þar verið títt í fornöld að reka hnýðínga á land. Þar eru líka nógir marsvínastöðlar til, sem reka má þau upp enn í dag, ef lags væri leitað. Tökum til dæmis Reykjavík, sem er löguð eins og kví handa þeim, þegar sætt er sjófarfallinu, og svo er víðar. Líklega koma marsvín á hverju ári inn í Faxaflóa, og staðnæmast þar um hríð, djúpt eða grunnt, en menn halda engan vörð á því. Þá virðist oss tækifæri til veiðanna blasa beint við, og hugsum vèr oss það með þessu móti. Á þeim tíma sem marsvínanna er von, svosem seinna part Julimánaðar, og fram á þann tíma sem þau fara aptur, svosem í miðjum September, eiga menn að hafa duglega seglbáta eða smáskútur á vakki um flóann, til að gá að marsvínavöðum. Bátar þessir eða skútur geta jafnframt fiskað, en þeir verða að hafa hver hliðsjón af öðrum og halda sèr á vissum stöðvum, þar sem helzt er von að leið

[1]) Bech. Om Handelen paa Island, bls. 98; Skýrslur um landsh. I, 79.

marsvínanna liggi um. Nóg væri líklega svosem níu bátar, í þremur röðum eða á þrennum stöðvum. Þegar marsvínin sjást frá yztu bátunum, þá taka þeir við þeim og reka inn á næstu stöðvar, fara síðan aptur, en annar flokkur tekur við og rekur lengra. Bátarnir gæti og haft tiltekin teikn, til að láta fregnina berast frá einum til annars og svo í land, og þessi teikn geta verið svo greinileg, annaðhvort með litum eða öðrum einkennum, að menn geti vitað allt hvernig á hópnum stendur, hversu stór hann er, hvert hann stefnir, o. s. frv. — Hefði menn þá svipuð teikn á landi, nes frá nesi, gæti á skömmum tíma safnazt nóg lið af öllum nesjum til að reka marsvínin lengra inn á firðina og loksins króa þau. Í lögunum um grindarveiðarnar í Færeyjum höfum vèr mikla leiðbeiníng til fyrirkomulagsins á veiðum þessum, og virðist oss einkum það áríðanda, að ekki vanti fasta forgaungumenn, valda og góða, sem allir verði að hlýða í því er veiðina snertir. Þessir hafa aðra foríngja undir sèr, hvern fyrir sínum hóp, o. s. frv. Ef svo heppilega tækist, að fiskiveiða-fèlag stofnaðist í Reykjavík og fengi vöxt og viðgáng, þá vonum vèr það yrði eitt af fyrirtækjum þess að koma þessum veiðum á fót, og haga þeim svo sem bezt væri, hvort sem nú efnin kynni að leyfa því að gjöra það fyr eður síðar.

## 7. LÝSI.

Þessi varníngstegund hefir, einsog fiskurinn, ætíð verið ein af aðalvörunum hjá oss, en það er bágast til þess að vita, að vèr höfum aldrei náð, almennt að tala, neinum framförum í að bræða gott lýsi, sem er einhver hinn ágætasti varníngur sem til er, og æfinlega útgengilegt, þegar það er vel verkað. Það er líka satt að segja, að á íslenzku hafa aldrei verið prentaðar neinar greinilegar fyrirsagnir um lýsisbræðsluna, svo að hið greinilegasta, sem um það hefir verið ritað hjá oss, er kaflinn í »Litilli Fiskibók« bls. 26—31, og

er líklega of mikið að ætlast til, ef að vanda leikur, að það hafi að svo stöddu nein sèrleg áhrif. Vèr verðum að treysta tímanum, að smásaman muni þessum mikilsverða hlut verða gaumur gefinn, og þessvegna skulum vèr einúngis drepa á aðalatriðin að þessu sinni.

Þegar vèr skoðum verzlunartöflurnar, þá finnum vèr þar einsog sýnilegt merki til þess aðalgalla, sem frá rótum spillir lýsinu hjá oss, og er það fyrsta sem um bæta þarf, og það er, að allskonar lýsi er blandað saman; töflurnar gjöra engan mun á, hverjar tegundir lýsis fluttar sè utan frá Íslandi, heldur blandar þeim öllum í eitt. Vèr verðum þessvegna að telja allt lýsi í einu lagi, og er þá svo talið, að flutt sè frá Íslandi:

| | | | |
|---|---|---|---|
| ár 1624 | ....... | 930 | tunnur. |
| — 1630 | ....... | 1,445¼ | — |
| — 1734 | ....... | 464 | — |
| — 1743 | ....... | 471 | — |
| — 1753 | ....... | 253 | — |
| — 1764 | ....... | 1,274 | — |
| — 1772 | ....... | 691 | — |
| — 1779 | ....... | 1,402 | — |
| — 1784 | ....... | 929 [1] | — |

Eptir að breytt var til um verzlunina á Íslandi 1786, hefir þetta verið útflutt af lýsi, á árum þeim sem vèr höfum áður talið til dæmis:

| | | | |
|---|---|---|---|
| ár 1806 | ....... | 2,495 | tunnur. |
| — 1816 | ....... | 1,101 | — |
| — 1840 | ....... | 6,655 | — |
| — 1849 | ....... | 3,259 | — |
| — 1855 | ....... | 6,891 [2] | — |

Ef vèr berum saman verðið á lýsi nú, við það sem áður hefir verið, þá er það sett:

---

[1]) Bech. Om Handelen paa Island, bls. 97; Skýrslur um landsh. I, 79.
[2]) Sig. Hansen í Skýrsl. um landshagi I, 79, 92, 610.

ár 1776 dýrast . . 8 rd. 68 sk. tunnan.
— 1849 meðalverð 17 — 48 — —
— 1855 — 25 — 68 — —
og er það mikill munur að nafninu til, en verður reyndar töluvert minni þegar metið er í vörum aptur á móti, því sumar af hinum aðfluttu vörum voru seldar með miklu lægra verði á taxta-öldinni, en nú tíðkast.

Lýsi frá Íslandi hefir ávallt fluzt til Kaupmannahafnar, og flyzt þángað enn að miklum hluta, er verð á því talið nú (Mai og Juni 1861) í hópakaupum til útflutníngs:
hákallslýsi, skært . . 28 rd. tunnan.
þorskalýsi, brúnt . . 25-26½ rd. —
Þar á móti er grænlenzkt sellýsi talið 28 rd. 60 sk. hæst en 27 rd. 74 sk. lægst. — Þegar lýsi er flutt utanríkis frá Danmörku, er goldinn af því útflutníngstollur 1 af hundraði, og er það mestmegnis flutt til Þýzkalands og til Eystrasalts (Rússlands, Finnlands, Svíþjóðar, o. s. frv.).

Í Noregi er enginn innflutníngstollur á lýsi, og þessvegna var það ein af þeim vörutegundum, sem Norðmenn keyptu á Íslandi einna ljúfast, því þeir hafa hugsað að geta selt það aptur sem norskt lýsi. En það hefir ekki ætíð heppnazt, og svo var til dæmis 1855, að það sem Björgvinarmenn keyptu gekk ekki út fyrir 8 dölum minna verð en lýsið frá Hálogalandi, sem er selt í Björgvin, og varð hinn norski kaupmaður illa svikinn, svo hann heyktist á þeirri verzlun. Björgvinarmenn láta ekki eins illa yfir neinum íslenzkum varníngi einsog lýsinu, »því þar sem vèr«, segja þeir, »einkanlega nú á seinustu árunum, aðskiljum grandgæfilega lifrina, og höfum sèr í lagi lifur sèrhverrar fiskitegundar, sömuleiðis leitum allra bragða til að ná úr lifrinni tæra lýsinu, svo hreinu og lyktarlausu sem mögulegt er, en bræðum mjög snarplega brúna lýsið, þá blanda menn á Íslandi venjulega öllum lifrartegundum saman, og stundum kannske spiki með. Lifrin er opt látin standa lengi, áður

en hún er brædd, og er þá farin að úldna; þaraf kemur, að tæra lýsið verður lyktarillt, einkanlega þegar tunnurnar eru þá ekki grandgæfilega valdar, svosem stundum gjörist; en brúna lýsið er brædt of linlega og lyktar fjarskalega illa. Þessvegna verður íslenzkt lýsi varla selt hèr (í Björgvin), og ef það selst, er það með töluvert lægra verði en hið norska«[1].

Á Skotlandi og Englandi er íslenzkt lýsi ekki heldur í bezta gengi. »Það er ofmikill grútur (fótur) undir því«, segja þeir þar, »til þess það geti haft gengi hèr. Væri lýsið sent híngað hreint, og enda þó það væri svikið með vatnsblandi, einsog vèr könnumst við frá Nýfundnalandi, þá væri það betra, og gæti þá hæglega náð sama verði og lýsi Nýfundnalands manna«.[2] Í Liverpool er getið um hvallýsi frá Íslandi og Færeyjum, og sè hvorugt gott, heldur harðla misjafnt og ekki útgengilegt, enda lítið eitt, á móts við lýsi frá Suðurhöfum. Verðmunurinn er gizkað á muni vera 4 pund sterlíng (hèrumbil 36 rd.) á hverri tonn, sem íslenzkt lýsi sè lakar borgað».[3]

Vèr sjáum á þessu, sem hèr er skýrt frá, að verkun á lýsinu hjá oss er í mörgu ábótavant, og að mesta nauðsyn er á, að vèr kappkostum að bæta hana. Gallarnir eru fyrst í því, að blanda saman margskonar lifur, þar næst í að láta lifrina verða ofgamla, áður hún er brædd, í þriðja lagi að fara rángt að bræðslunni, í fjórða lagi að velja illa tunnurnar. Eptir því sem vèr höfum komizt næst er það þó einkum þorsklýsið, sem er mest trassað, og þó er það einmitt dýrasta lýsið í sjálfu sèr, því þegar það er verkað sem bezt, er það tært og bjart sem olía og lyktarlaust, og

---

[1]) Konow verzlunarfulltrúi í Björgvin, 5. Juni 1860.

[2]) Marshall verzlunarfulltrúi í Leith, 10. April 1860.

[3]) Mullens verzlunarfulltrúi í Liverpool, 28. April 1860.

er þá keypt til lyfjabúða og selt þaðan dýrum dómum. Vèr þekkjum reyndar til, að á Íslandi er brædt svo gott þorsklýsi, að það er selt fyrir fjögur mörk flaskan, eða rúm fimm mörk potturinn (það er 100 dali tunnan), og er það þó ekki svo gott sem þorskalýsi getur orðið, því það er dökkt, og ekki svo bjart sem það á að vera.

Til þess að fá svo gott þorsklýsi, að það sè boðlegt til meðala, þá má hafa þá aðferð, sem getið er um í »Fiskibókinni« bls. 26—31, og er hún ein hin fullkomnasta, en hafa má og einfaldari aðferð, þegar að eins er gætt aðalreglunnar, að velja lifrina vel, fara rètt að bræðslunni og velja og vanda ílátin. Hermann Baars, kaupmaður í Björgvin, hefir sagt svo fyrir um bræðslumátann: menn eiga að taka lifrina glænýja, jafnskjótt og hún kemur úr fiskinum, þvo hana vel og taka vandlega af henni gallblöðruna; nú skal láta hana í hreint ker af látúni, blikki, eiri eða leiri, láta það síðan í ketil og fylla með vatni um kríng, svo það sè allstaðar milli innra og ytra pottsins. Síðan skal kynda undir, þartil vatnið milli katlanna fer að sjóða, og halda því svo við, að bæta í vatni smásaman, eptir því sem það gufar upp. Fyrir hitann af hinu sjóðanda vatni rennur lifrin smásaman í innra ílátinu, er þá lýsið fleytt ofanaf og látið á vel hreint kvartil eða tunnu. Ekki spillir, þó dálítið af salti sè látið í, en alls ekki má hafa þau ílát, sem áður hafa verið höfð undir kornbrennivín, edik, öl, eða annan súrkenndan lög. Ef lýsið væri þannig verkað, mundi það seljast allt að 12 eða 16 dölum meira hver tunna, en hið íslenzka lýsi selst nú, og 6 eða 8 dölum meira en almennt norskt lýsi. Undanlásinn úr lifrinni, þann sem ekki vill bræðast, og svo hina lakari lifrina, skal síðan sjóða snarpt og vel, svo að lýsið sem úr rennur verði viðsmjörsgrænt á litinn; síðan er það látið setjast sem bezt, og varast að nokkur sori eða grugg fari þar saman við, heldur er allur

grútur skilinn vandlega frá. Grúturinn er hinn ágætasti jarðaráburður, ef hann er blandaður með öðru.[1]

Það er hin mesta skemmd, að blanda saman hákallslifur og þorskalifur, og ef svo stendur á, sem opt kann vera, að menn safni lifur sinni og blandi henni saman, af því þeim þyki ekki taka því að bræða svo lítið, þá ætti menn að slá sèr saman til bræðslunnar, svo ekki þyrfti að geyma lengi lifrina og ekki heldur að blanda hana. Að öðrum kosti er betra, að bræða sem fyrst þótt lítið sè, og geyma síðan lýsið, því ef það er gott, og geymt í góðum ílátum vandlega, þá tekur það þarvið engan skaða. En það er augljóst, að bæði í bráð og lengd verður það hollara og ábatameira, að hafa minna lýsi og gott, en að hafa það illt og óhreinlegt, þótt meira sè að vöxtunum til. Verð þess þarf ekki mikið að spillast til þess, að skaðinn verði með því móti bæði miklu meiri og lángvinnari.

## 8. HROGNKELSI.

Af því að þaravöxturinn er svo mikill í sjónum allvíða við Íslands strendur, þá er þar einhver hin bezta hrognkelsa veiði, og þó þessi veiði sè ekki ábatasöm til verzlunar, að minnsta kosti ekki enn sem komið er, þá er hún á margan hátt hið bezta búsílag, ef hún er vel og hagkvæmlega notuð. Fyrir vestan eru hrognkelsi bæði höfð til matar og skóleðurs, og til beitu fyrir fisk. Til matar væri þau þó enn drjúgari, ef menn hefði þau ekki sem einmeti, heldur hagtærði þeim betur í matartilbúníngi. Af rauðmaganum búa margir til súpur, og eru þær bæði góður og hollur matur. Þegar rauðmaginn er hertur og verkaður vel, er hann feitmetis ígildi með fiski og brauði, og getur verið útgengileg vara. Með mörgu öðru móti mætti og hagtæra honum, geyma hann og matbúa, svo að hann mætti verða til hinna mestu nota.

[1] Þjóðólfur VIII (1855), bls. 18.

## 9. SKELFISKUR.

Í öðrum löndum er skelfiskur talinn mesta hnossgæti, og er annaðhvort fluttur heill og hrár í sjó, eða soðinn niður með kryddi og fluttur milli landa og seldur dýrum dómum; hjá oss er hann í litlum metum nema til beitu, og það þykir hallærismatur, að verða að eta beitu, t. a. m. einsog þorskur. Þetta láta samt aðrar þjóðir sèr enga lægíng þykja, og þar er »beitan« enda ríkismanna matur, en hinir fátæku hafa ekki efni til að eiga svo gott. Það sem skelfiskurinn er í svo litlum metum á Íslandi kemur þó líklega mest af því, sem loðir við í öllum matartilbúníngi og mataræði hjá oss, að nota annaðhvort öldúngis ekki einhvern hlut til matar, ellegar að nota hann sem einmeti, í stað þess, að sparsamlegast og notalegast er að hafa eitt öðru til drýginda, og það er heilsunnar vegna hollast; en satt er það, að þartil þarf meiri tilbúníng og þrif og aðgætni á heimilinu innanstokks, og þetta ætlum vèr vorum góðu búkonum að kenna út frá sèr, og stúlkunum að læra, svo að það verði landssiður hjá öllum, bæði æðri og lægri. Mart gott er um það kennt í matreiðslubókum, svosem þeirri, er fyr var nefnd í þessum bæklíngi.

Af því kræklíngurinn er sú skelfiskjartegund, sem mest yfirgnæfir hjá oss, þá skulum vèr einkanlega minnast á hann. Á Suðurlandi hafa menn hann helzt til beitu, sem þegar var sagt, og þar er sótt eptir honum með svo mikilli ákefð, að hann er víða eyddur, og verður því varla talað um hann þar sem þorskafæðu, því síður sem mannafæðu eða verzlunarvöru, en þar væri miklu fremur um hitt að tala, að auka kræklínginn og fá hann til að gróa upp, aukast og margfaldast. Þetta væri bæði nauðsynlegt og gagnlegt, og það getur vel tekizt þegar rètt er að farið. Menn hafa tekið eptir, að kræklíngurinn er hvergi stærri eða feitari en þar, sem hann festir sig á stólpum eða trjám, sem eru niðri í sjónum, að minnsta kosti um flæðitímann.

Þar af hefir mönnum dottið í hug, að setja niður í sjóinn rapta, hvern hjá öðrum, rètt eins og í skógi, á þeim stöðvum sem kræklíngur er, eða hann er látinn þángað lifandi. Þá líður ekki á laungu þartil hann festir sig á röptunum, og seinast æxlast hann þar og fjölgar svo, að hann situr í klösum einsog vínber á vínviði, og má svo hafa á honum uppskeru, einsog hverjum ávexti þegar hann er fullvaxinn, og haga sèr svo, að maður geti tekið kræklínginn á hverju ári úr einum tilteknum reit á víxl, sínum hvert árið, og gæti maður með þessu komið sèr upp nógum skelfiski á hentugum stöðum, því raptana má setja niður aptur, eða enda ekki hreifa þá, nema taka af þeim fullorðna kræklínginn og skilja hinn eptir; geta menn þá sett raptana í raðir nokkuð þèttar, með gángrúmum á milli. Þar sem raptar eru ekki til, má hafa smábindini úr hrísi, og stjóra þau niður í röðum með steinum, svo þau liggi föst á botninum, þá festir skelfiskurinn sig þar á, og má síðan, þegar hann er fullvaxinn, taka bindinið upp eða fara í kríngum það og taka úr því fullorðna fiskinn. Þar sem kræklíngsfjara er eyðilögð ætti að koma honum upp aptur, með því að flytja þángað lifandi kræklíng annarstaðar að, og friða fjöruna meðan hann væri að vaxa upp aptur; mætti þá fjaran ná sèr á nokkrum árum, því skelfiskurinn fjölgar gríðarlega fljótt. Það er enganveginn lèttvægt fyrir þá, sem jarðir eiga eða á þeim búa, að láta eyðileggja svo nytsamt og mikilvægt hlynnindi eins og skelfisktakan er; og það er eins hinn mesti skaði fyrir fiskimanninn, að eyðilagt verði hið bezta agn sem hann getur fengið; þessvegna ætti hvorutveggju að hjálpast að, til að verja kræklínginn við eyðileggíngu og koma honum aptur á fót.

Á öðrum stöðum á Íslandi, svosem fyrir vestan, eru óþrjótandi nægtir af skelfiski, einkum af kræklíngnum, og þar er nóg fyrir hendi bæði til matar drýginda og sælgætis handa mönnum sjálfum, og til að senda til annara landa

til sölu, annaðhvort kryddlagt eða soðið niður. Vèr höfum sèð, að kræklíngurinn getur geymzt með kryddi, ediki og olíu árum saman óskemmdur í lokuðum glösum, og er fluttur svo og seldur land úr landi. Með sama hætti má og geyma hann og selja og senda á Íslandi.

Þegar vèr værum búnir að læra að hagnýta oss kræklínginn, og aðrar þær skelfisktegundir sem til eru hjá oss, þá kæmi fyrst til greina hvort vèr gætum ekki látið tímgast hjá oss ostrur, humra og marþvara, sem er víða annarstaðar fengið að, og látið tímgast á tilteknum stöðvum, þar sem sjáfarbotninn er hentugur, og þegar það hefir hafzt þar við um nokkur ár, má fara að taka af því og veiða það. Með þessu móti hafa Frakkar búið til ostru-grunna hjá sèr, þar sem ekkert veiddist áður, og svo hefir verið víðar gjört í öðrum löndum.

---

## III. VERZLUNIN.

Pontoppidan. Samlinger til Handels-Magazin for Island. Khavn. 1787—1788. 1—2. B. 8vo.

(Jón Ólafsson). Korte Betænkninger over den islandske Handel. Khavn. 1772. 8vo.

Ólafur Stephánsson. Kort Underretning om den islandske Handels Förelse 874 til 1788. Khavn. 1798. 8vo.

Islands almindelige Ansögning til Kongen om udvidede Handels-Friheder m. v. Khavn. 1797. 8vo.

Jón Sigurðsson. Um verzlun á Íslandi (1843). Ný Fèlagsr. III, 1—127.

Afli og tilbúníngur á varníngi er þó ekki nema eins og hálfsögð saga; það sem ríður á, jafn mikið og aflanum og vörutilbúníngnum, er verzlunin, er hjálpar manni til að skipta því, sem maður hefir afgángs af afla sínum, fyrir þau gæði, sem maður þarfnast frá öðrum. Þó vèr höfum ekki

lengi haft verzlunarfrelsi að fagna, þá getum vèr þó sèð vott á þessu. Vèr sjáum, að ymsir hlutir, sem vèr gátum að sönnu selt áður, en við lægra verði, eru nú komnir í hærra verð, ekki af því þeir sè í sjálfum sèr betri en þeir voru áður, heldur einúngis af því, að nú eru fleiri sem sækjast eptir þeim, og hafa lært að nota sèr þá. Með umbótum á þessum hlutum getum vèr enn þá meir aukið verð þeirra, með því að bæta þá svo, að fleiri sækist eptir þeim. Vèr sjáum enn framar, að ymsir aðrir hlutir eru nú orðnir oss varníngur, sem þá voru oss ekki skildíngs virði. Ull vor er komin eins og sjálfkrafa í helmíngi hærra verð, en hún var fyrir tíu árum síðan; aflinn af laxveiðunum færir oss hèrumbil 12000 dala tekjur á ári, framyfir það sem var fyrir tíu árum síðan; vèr seljum þar únghryssi nú fyrir 7—8000 dala á ári, sem ekki gáfu eins skildíngs ágóða fyrmeir. Ef vèr í stuttu máli teljum saman, hvað vèr getum selt varníng vorn nú, og hvað vèr gátum selt hann fyrir tíu árum síðan, þá finnum vèr, að hann veitir oss nú þriðjúngi, eða allt að helmíngi, meiri tekjur en þá. Sama er að segja um landstekjurnar af verzluninni, sem hafa verið þessar eptir áætlunum stjórnarinnar, er koma að öllu samtöldu heim við sjálfar tekjurnar:

| | | |
|---|---|---|
| 1845 skipa gjöld | ..... | 2,780 rd. |
| 1848 | ........... | 3,700 — |
| 1849 | ........... | 3,650 — |
| 1852—53 | ......... | 3,650 — |
| 1856—57 | ......... | 9,400 — |
| 1859—60 | ......... | 10,950 — |
| 1860—61 | ......... | 11,700 — |
| 1861—62 | ......... | 11,600[1] — |

Þessi tekjugrein landsins er því meir en þreföld við það, sem hún var fyrir tíu árum síðan, og vel fjórföld, ef

[1]) Skýrsl. um landsh. I, 304; II, 341, 569, 912; — Ný Fèlagsr. VIII, 44; X, 10; XII, 134.

talið er með skipagjald af gufuskipinu, sem er hèrumbil 1600 rd. á ári; en þareð það er borgað út aptur til þess sem gjörir út gufuskipið, þá er það ekki talið með tekjunum í áætlunum stjórnarinnar. Oss virðist af þessu auðsætt, að verzlunarfrelsið hafi borið góðan ávöxt, og það hefði borið hann enn ríkulegri, ef ekki hefði bæði komið uppá nokkur ár harðari en að undanförnu, og ef flest alþýða hefði ekki rètt um sama leyti ginið yfir þá flugu, að fara að hlaupa svo að kalla í kapp um með sameiginlegri hjálp að eyðileggja þær skepnur sínar, sem nú um hríð hafa verið aðal-bústofn á landinu, í stað þess að taka sig saman um að nota í tíma þau óbrygðulu ráð, sem fyrir hendi voru og fram voru boðin til að frelsa þennan bústofn þeirra, og jafnframt bæta fjárræktina. Hefði menn notað þau ráð betur, þá hefði þeir sýnt að þeir vildi framför sína og teldi ekki á sig þá fyrirhöfn sem til hennar þyrfti. En trèð fellur sjaldan við fyrsta högg.

Það er eitt, sem vèr getum ekki álitið öðruvísi en sem góðar afleiðíngar verzlunarfrelsisins, að úngir íslenzkir menn komast smásaman að, til að taka þátt í þessari atvinnugrein lands vors. Þar má sjá muninn við það sem áður var, að meðan verzlunar-einokunin stóð fastast, frá 1602 til 1786, um nærfelt 200 ára, varð enginn Íslendíngur verzlunarfulltrúi, og varla verzlunarþjónn. Frá því að verzlanin varð einskonar ríkis-einokun, frá 1786 til 1854, komust ekki allfáir íslenzkir menn í æðri eða lægri verzlunarstètt, en þeir og ágóði þeirra lenti þó að mestu leyti í Danmörk, einkanlega í Kaupmannahöfn; þángað settust þeir að, og þar bar auður þeirra beinin og þeir sjálfir með. Nú á seinustu árum fer að bera á því, að Íslendíngar eiga hægra með að komast fram á þessum vegi. Úngir menn hafa á fám árum komizt í samband við Englendínga, Skota, Norðmenn, og komizt vel áf. Nú ber meira á því en fyr, að

þeir finna til þess að þeir eru Íslendíngar, og eiga að vinna gagn landi sínu og atvinnuvegum þess; það er atvik til marks hèr um, þótt lítið sè, að sumir þeirra eru farnir að kalla »heima« á Íslandi, þarsem það var áður almennt, að allir verzlunarmenn, jafnvel þeir, sem aldrei höfðu sèð Danmörk, kölluðu »heima« í Kaupmannahöfn, og »heim« þángað. Þessi vaxandi hluttekníng úngra íslenzkra manna í verzlun landsins, og vaxandi tilfinníng fyrir þjóðerni sínu og landsins hag, getur ekki verið annað en góðs viti, ekki einúngis fyrir Ísland, heldur og einnig fyrir Danmörk og allt ríkið þegar rètt er skoðað, því sá einn líkami hefir fulla heilsu, sem hefir alla limu sína heilbrigða og með fullu fjöri.

En þegar nú verzlunarfrelsi þetta, sem vèr höfum nú fengið, hefir þegar borið góða ávöxtu, og opnað oss allar götur til framfarar, eptir því sem vèr erum megnugir um, þá virðist oss, að fyrst um sinn sè ráð að láta það bera sína ávöxtu enn um nokkra stund, og hagga ekki við því, nema einúngis að sjá um, að það verði ekki takmarkað til skaða fyrir atvinnuvegu vora, og til tálmunar frjálsum og hagkvæmum viðskiptum manna á milli. Því hefir verið hreyft í blöðum hjá oss, og margir hafa mælt með, að lagaboð þyrfti, sem skipaði svo fyrir, að enginn sá skyldi vera álitinn íslenzkur kaupmaður að lögum, sem ekki hefði sitt fasta aðsetur á Íslandi. Oss finnst slíkt lagaboð, ef það kæmist á, vera móti hinum sanna anda verzlunarfrelsisins, einsog það er hollast fyrir oss, því tilgángur vor er sá, að ávinna oss krapta til að flytja sjálfir verzlun vora, með því móti, að vèr njótum sem frjálslegast annara krapta, meðan vèr þurfum á þeim að halda. Oss finnst það enn fremur vera óhæft til þess sem það er ætlað, sem er, að útvega oss innlenda verzlunarstètt, því kaupmenn geta farið svo í kríngum það og í gegnum það, að þar sjáist enginn möskvi eptir, nema það sè að öðrum kosti einstrengt svo,

að það kreppi að verzlun landsins henni til óbætanlegs skaða. Vèr viljum ekki fá oss til orða, að margur kaupmaður getur verið sá, sem hefir fulla rækt til Íslands, og vildi styrkja þar atvinnu og allar framkvæmdir, þó hann hefði þar ekki aðsetur sitt; þessara manna styrk ættum vèr að nota, en alls ekki hrinda frá oss, með því einsog að útibyrgja þá úr þjóðfèlagi voru, sízt á meðan vèr þurfum allrar góðrar hjálpar við.

Vèr höfum einnig mörg og góð ráð til að reyna, hverir verðskulda það nafn að heita íslenzkir kaupmenn, og hverir ekki. Þessi ráð eigum vèr að nota, og þarmeð að koma á þeirri samvinnu við kaupmannastèttina, sem er svo nauðsynleg til framfara landinu, af því að beggja gagn er í rauninni eitt og hið sama. Vèr eigum að voru leyti að gjöra allt til að útrýma leifunum af hinum forna kulda, sem var eðliieg afleiðíng þess, að báðir fundu til með sjálfum sèr, að lögin höfðu beitt öðrum fyrir ok hins; en vèr eigum um leið að hafa fastar gætur á því, hver bezt fylgir landsins verulega gagni, hver vill sneiða hjá þegar nokkuð þarft skal vinna, og hver þá vill styrkja með ráði og dáð. Þetta getum vèr bezt með almennum föstum fèlagskap, sem sè bygður á föstum grundvelli og fastri skoðan, hafi sín vissu lög og vissa forgaungumenn.

Fèlög þessi geta verið með ymsu móti, og haft ýmislegan tilgáng, og verið þó hvert fyrir sig til mikils gagns, til þess að efla atvinnuvegu landsins og verzlun þess sèrílagi. Ef Suðuramtsins húss og bústjórnarfèlag gæti áunnið sèr það álit, að menn gengi í það um allt land, þá mundi það geta eflzt svo mjög að efnum til, að það mundi geta verið í broddi fylkíngar, skipað fyrir stefnunni í því sem gjöra skyldi, veitt styrk til þess það gengi fram, haldið föstu sambandi við fèlög og einstaka menn annarstaðar, og með því móti útvegað mart af því sem þyrfti við. Ef búnaðarsjóðir hinna amtanna væri gjörðir að stofni fyrir

fèlög amtsbúa, sem svo stæði aptur í sambandi sín á milli, þá mætti þar að mikið gagn verða, ef þessi fèlög kæmi sèr heppilega við, og þeim væri vel stjórnað. Í hèruðum gæti smáfèlög, til að bæta ýmislegt í atvinnu eða verzlun, ágætlega haldizt við, og gjört mikið gagn, ef þau hèldi sèr fast við það sem ætlunarverk þeirra væri, líkt og vèr höfum sèð jarðabótafèlög komast á fót, og gjöra nokkurt gagn, í ymsum hreppum hèr og hvar um land. Verzlunarfèlög álítum vèr mikils virði, og ætti þau þá ekki einúngis að sjá um íslenzku vöruna, þó það sè mikilvægt atriði, heldur sjá um öll þau efni sem verzluuina snerta, og skipta sèr í deildir til þess eptir því sem þörf gjörist, því ef þesskáttar fèlög ætti að verða til fullra nota, þyrfti þau að ná yfir heila sýslu eða meira, svo þau hefði töluverð efni að styðjast við. Þessum fèlögum gæfist bezta tækifæri til að sjá um, að ætíð væri til nógar nauðsynjavörur, einkanlega kornvörur, timbur og sèrhvað sem til atvinnuveganna þarf, svo hèraðið væri ætíð byrgt. Þegar fèlagið næði yfir heilar sýslur, hefði það nóg efni til að kaupa eða leigja húsrúm til að geyma vörur sínar í, svo sem þegar það vildi kaupa sèr í hag fyrirfram, þegar góð kaup gæfist, eða það vildi kaupa í hópakaupum, þegar mikið fengist með góðu verði, eða það vildi sæta lagi, og ráða fèlagsmönnum til að geyma vörur sínar þángað til verð þeirra hækkaði. Ef það væri alvara landsmanna að vilja koma upp innlendri verzlunarstètt, þá ætti þeir með þessu móti hægt með að sýna það í verkinu, því undireins og ein sýsla öll, eða mestmegnis af henni, skuldbindur sig til að verzla við einhvern mann, þá þarf hann ekki meiri styrk til að koma góðri verzlun á stofn. Sýnist mönnum því einhver efnilegur verzlunarmaður, og þeir vili styrkja hann, þá þarf ekki annað en að t. d. bændur í einni sýslu, eða mikill þorri þeirra, taki sig saman að verzla við hann, og panti hjá honum varníng þann sem þeir þurfa, og hefir hann þá mikla verzlun ef þau samtök

haldast. Vèr getum fært til dæmis verzlunarfèlag það, sem myndazt hefir á Færeyjum, síðan verzlunin varð þar laus; það hefir byggt sèr vörubúðir á Færeyjum, leigt sèr skip, flutt varníng fram og aptur, og eptir margra sögn haft gott gagn af þessu, og landið með. Þessi samtök geta verið eins kaupmanninum í hag, einsog landsmönnum, því þau geta verið honum til upphvatníngar, að gæta að þörfum alþýðu, og sjá um að úr þeim verði bætt í tíma; þau geta fríað menn, bæði æðri og lægri, frá miklum kvíða, og stjórnina fyrir mörgu óþægilegu kvabbi, sem hún með sínum bezta vilja aldrei getur fullnægt, meðan landsmenn sjálfir sýna ekki rögg á sèr, heldur halda áfram að vænta af stjórninni að hún hlaupi undir bagga í hverju einstöku tilfelli, til að sjá mönnum fyrir þeirra daglegu brauði. Þar á móti væri þess án efa að vænta, að stjórnin styrkti alla þá viðleitni sem landsmenn sýndi, til þess að koma atvinnuvegum sínum og verzlun í blóma með samtökum og fèlagskap.

Eitt mikilsvert atriði í þessari grein, og það sem stjórnin þyrfti án efa að eiga mikinn þátt í, er samgaungur til lands og sjáfar, bæði innanlands og við önnur lönd. En þó þetta sè mikilvægt atriði, og meira vert í þessum efnum en margur hyggur, þá eru nú fyrst orðin nokkur líkindi til að það geti smásaman fengið framgáng. Vèr teljum fyrsta þá nauðsyn, að fá vegu um landið, sem sè eða geti heitið vegir, að menn geti komið fram ferðum sínum og einkum póstferðunum, sem svo mikið ríður á að væri bæði tíðar og reglulegar, og vèr sjáum ekkert því til fyrirstöðu, að póstferðir þessar gæti verið á hverjum mánuði, það er að skilja, að maður gæti einusinni í mánuði skipzt brèfum við í Reykjavík og á hverjum öðrum stað á landinu. Þegar þar með samtengdist skipagánga sjóveg í kríngum land og til annara landa á tilteknum tímum, og það ekki of sjaldan, þá er enginn efi á, að þetta styrkti enn meir framfarir landsins og atvinnuvega þess í öllum greinum.

## YFIRLIT EFNISINS.

## LEIÐRÈTTÍNGAR:

Bls. 30 lín. 4. að neðan: les: fyrirhyggjuleysi.
- 83 athgr. l. eptir Boga.
- 95[16] l. Til.
- 122[29] l. silúngsgengd.
- 124[7] l. hrækvikindum.

